# MEDITATIONES
## PASSIONALES,
EDUR
# Pijslar Hugvek-
JUR,
Jnnihalldandi Einfallda
# Utskijring
Yfir
Historiu Pijnunnar og Daudans Drott-
ins Vors JESU CHRISTI,
eftir
Fimmtygu Pijslar Psalmum Sæl: Sr:
Hallgrijms Peturs Sonar.
Samanteknar af Sæl: Sr:
JOONI JOONS SINI
(Sooknar-Presti til Stadar-Hools og Hvols Safnada).

Seliast Jnnbundnar 34. Fiskum.

Prricktar ad Hoolum i Hialltadal
Af Eyrike Gudmundssyni Hoff. 1766.

I. Tim. I, v. 15.

Þad eru vissuleg Sañinde, og
Dijrmætt verdugt Ord, þad JEsus
Christur er komeñ i þeñañ Heim,
Synduga Saaluhoolpna ad giøra.

# Til Lesarans.

AF øllum þeim Psalma-Flockum, sem i Lande voru hafa orkter vered, meina eg fyrer vijst, bæde af Efne og Ordfære, beri Passiu-Psalmar Saal. Sr. Hallgrijms Peturssonar, og þvi er ad undra, þo so miøg elskader hafe vered. Eñ þar ed sa Sæle Guds Madur, i tiedum Psalma-Flock sijnum, hefur einkum sett sier fyrer, med stuttre, þo skilianlegre og lidugre, Yferferd, wt af siaalfum Texta Pijnuñar og Daudans DRottens vors JEsu Christi, ad draga þa hellstu Lærdooma, Hugganer og Amiñingar; Þa hafa nockrer Guds-Meñ i þessu Lande teked sier fyrer Hendur, i sundurlausre Rædu, med fleirum Ordum ad wtfæra þad, Saal. Sr. Hallrijmur hefur i færre iñebunded. Medal þessara var sa Æruverduge og Velgaafade Kieñemañ!, Auctor þessarar Bookar, sem eiñig hefur giørt Utskijring yfer Upprisu Historiuna, epter Leidarvijser Upprisu-Psaltara Saal. Biskups-

 sens

sens Herra Steins Jonssonar, hver Ut-skijring þrickt er hier aa Hoolum 1749.

Þessa Book (hvøria til Þrickingar mier hefur Epterlaated Sonur Auctoris Mons. Jon Jonsson) hefe eg med Athygle giegnum lesed, og hana aalited þess vel verda, ad hun, til Gudrækelegrar Brwkunar, og, sier i lage, til Hwſs-Lestra aa Føstu-Tijmanum, kiæme i Almeñings Hendur, og hefe hana þess vegna, epter eigeñ Handar Skrife þess Saal. Auctoris, þrickia laatid.

Oskandi af Hiarta, ad hun, so sem hiartnæm og upp-byggileg, ydkast meigt af þessa Lands Iñ-Bwum, so þiena kuñe Gudi til Dijrdar, og Hañs dijr-keypta Søfnudi til Saalar-Gagns og Gooda!

Gíjſle Magnuss Son
Superint. Hoola St.



# I. Cap.

Um̃ Utgaungu Christi i Grasgardeñ.

TEXTINN.

Og sem þeir høfdu Lof-Saungeñ sunged, gieck JEsus ut, sem hañ var vanur, yfer um̃ Lækeñ Kedron, til Fiallsins Oliveti: Eñ hañs Lærefveinar filgdu honum epter. Þa sagde hañ til þeirra: A þessare Noottu munud þier aller hneixlast a mier, þviad skrifad er: Hirdereñ mun eg slaa, og Sauder Hiardareñar munu i sundurtvistrast; Eñ nær eg rijs upp aptur, þa mun eg gaanga fyrer ydur i Galilæam. Petur svarade og sagde til hañs: Þo aller hneixle sig a þier, þa skal eg þo alldrei hneixlast. JEsus sagde til hañs: Sañlega seige eg þier, ad i Dag, ædur eñ Haneñ galar Tvisvar, muntu afneita mier Þrisvar. Eñ hañ, Petur,

talade þa eñ frekar.: Jaa, þo eg ætte ad deya med þier, þa skal eg þo ecke afneita þier. Slijkt hid sama sögdu aller Læresveinarner.

## UTLEGGINGENN.

Þad er eirn aagiætur Hlutur DRottne Þacker ad giøra, og ad sijngia þijnu Nafne Lof, þu hiñ Allra Hædste, ad Morgne þijna Myskun, og ad Kvølldе þiñ Sañleika ad kuñgiøra; seiger Guds Ande fyrer Muñ Davids, Ps. 92. Med þessum Ordum, og ødrum miklu fleirum, þeim samhlioodande, verdur þier fyrer Siooner sett, Christiñ Madur! hvør þijn Dagleg Ydia eige ad vera, a medañ þijn Hiervist varer, sem er su: ad þu lofer DRotteñ, og priiser hañs Heilaga Nafn, ecke med Muñenum einasta, hvad Hræsnurunum er tijdt, helldur og med Hiarta, Saal og Samvitsku. Allmikel er Skyllda til þessarar Lofgiørdar; Þvi Bruñur Giæskuñar lætur sijna Naadar Strauma sijfelldt og Daglega til þijn ofañ reña, uppfyllande þijnar Andar og Lijfs Naud=

Naudsyniar, þar sem þu ert þo þvilijks allra Skiepna Overdugastur, ad þijnu Leite. Þu mætt og Daglega siaa þad med Bligdun og Kinroda, hvorsu allar adrar Skiepnur hier fremre eru i fwslegu Framhallde Gudlegrar Lofgiordar, hvorium Gud hefur þo minna veitt ad Vonum; Þvi þijn vegna eru þær skapadar, og þijn vegna verda þær Hiegoomanum underorpnar ad vera. Þetta mætte og ætte nu ad sönn ad uppørfa þig, Christenn Saala! ad lofa DRottenn, med ødru Otelianlegu; Enn su Velgiørdenn, sem DRottenn veitte hier, og øllu Mannlegu Kyne, i og med Sendingu sijns Elskulega Sonar JEsu Christi, hun yfergeingur allar adrar; Þennann liet hann pijndann og plaagadann verda, so þu skyllder Fridenn, Jaa, Tijmannlega og Eilijfa Blessan ødlast, þvi af hanns Fyllingu høfum vier aller feinged Naad fyrer Naad, Joh. 1. Slijkt mætte hvad mest uppørfa þig, ad sijngia af Myskun DRottenns eylijflegana, Ps. 89. Þesse minn og þinn Endurlausnare, Christenn Saala: Sem þo hafde allt Valld aa

Himne og Jørdu, Matth. 28. gleymde hvorke nie hootteſt of-goodur ſijnum Himneſka Fodur Packer ad færa, æ medañ hañ mungleckſt hier i Heime, hvad hañ med ſijnu æduſrſøgdu Epterdæme ſynde, ſem optar.

Skylldum vier þa, ſem nacktir komum af Moodur-Lijſt, og munum eirniñ nacktir i burtu fara, Job. 1. Jæ, vier ſem eckert høfum med oſſ iñflutt i þeñañ Heim, og munum eirniñ ſo vidſkilia, gleima ad packa' þeim oſs allt gott veiter, hvørs Handbiargar O-magar vier erum? Skylldum vier ſtæra oſs, dramba og dreiſſa, af Læni og Naadar-Gæfum DRattiñs, edur tileinka þad voru eigiñ Forſtandi og Læni, og under eiñs ſmæna og undir Footum troda Gæfur hañs, og ſo ſem fwola vid þeim, ſieu þær ecki i alla Stadi ſo æ ſig komnar, ſem vort gijrugu og Jardlega Siñi utheimta vill i hvørt Siñ? Vit þu, aumur Syndari! Ad þetta er þier ecki einaſta tijmañleg Olucka, helldur og eirniñ eilijf Smæn, ef ſlijks ei af Hiarta ydraſt og af þvi lætur: Forſmædu ecki Guds Længlundar-Gied,

þvi hañ lætur ecki ad sier hæda; Temdu þier þad, sem St. Paall biidur, seigiandi: Hvad hellst þier giørid med Ord og Verk, þa giørid þad allt i Nafni DRottins vors JEsu Christi, og þackid Gudi og Fødur fyrir hañ, Col. 3. Og aptur: Hvert þier etid edur dreckid, edur hvad þier giørid, þa giørid þad alltsamañ Gudi till Dijrdar, 1. Cor. 10. Sijng þañiñ aavallt med David: Lofad sie Nafnid DRottiñs, i fraa Soolariñar Uppgaungu og til heñar Nidurgaungu sie bleßad Nafnid DRottiñs. Ps. 113. A þvilijkri Bænar og Lofgiørdar Ydiu, skalltu jafnañ hallda, med heñi skalltu aavallt kvedia og aptur heilsa þijnu Heimili hier aa Jørduñi, ad Dæmi Frelsarans: So nær þu aatt þad uñ sijdir til fulls ad kvedia, og þiñ Stadur þeckir þig ecki framar, ad þu mættir komast til þijns rietta Heimkyñis aa Himnum, og þar þiñ Gud fyrir JEsum Christum eilijflega lofa.

Po ad nu Lausnariñ, ad giørdum Lofsaungnum, utgeingi af Jerusalem, eptir þvi sem Lucas vitnar, seigiandi: Uñ Daga kiendi hañ i Musterinu; eñ uñ Nætur

gieck hañ ůt og dvalldist aa Oliu Fiallinu (Cap. 21.), Pa villdi hañ þo i aungvañ Maata med þessari siñi Utgaungu flija undañ siña Ovina Høndum, edur umflija sijna Pijnu; Helldur miklu framar audsijndi hañ hier med sijna diupustu Hlijdni vid siñ Himneska Fødur, hvørs Vilia hañ giarnañ giørdi. Ps. 40. Par næst, so Svikariñ Judas, med sijnum Filgiurum, feingi þvi lidugra Tækifæri, aan nockurs Upphlaups, hañ ad forraada, handtaka og binda: Einuñ ad hañ sialfur, aan allrar Hindrunar, sijna Hiartnæma Bæn giøra kiñi til sijns Himneska Fødur.

Med øllu þessu giefur Lausnariñ þier til Eptirdæmis, christiñ Madur! 1. Ad þu skylldir alltijd i sañri Audmykt laata þiñ Vilia hañs blessada Vilia vera undirgiefiñ, eñ afneita sialfum þier, og filgia hønum eptir, villier þu añars vera hañs Lærisveirn; Les hañs Bodord hier umñ Luc. 9. v. 59. 2. Kieñir þiñ Sætasti JEsus þier, ad þu alldrei so frekt elska skullir þetta tijmañlega Gagn edur þijna lijkamlega Nytsemd, ad fyrir hana

raskir

raskir þeim saña Fridi og Einingu, er þeim ber fyrir hvørn Mun tijmañlegañ ad stunda, sem vera vilia riett Guds Børn og Himnarijkis Arfar: þvi þo þessi Stiriálldarsama, Agiarna og Ærugijrnuga Verølld nu uñ þad lijtid hyrdi, þa mættu þo vita, ad þijnum HErra er slijk Hoogværd, sañarleg Þoliñmædi og Fridar-Ástundan þeck og þægileg; þvi bæri þier og mier hana ad stunda, hvøria Byrding sem Heimur þessi þar æ leggur, so reiknast mættum i þeirra Flockl, er JEsus hier fyrir sæla kallar; Matth. 5. 3. Vijsar JEsus hier med sijnu ædursøgdu Eptirdæmi til, ad fordast og flija, sem mest þu gietur, allt þad sem þier kañ ad vera til Hindrunar, i rækilegri Bænagiørd, med þvi Gud vill hafa þa Tilbidiendur, er hañ ækalla i Anda og Sañleika, Joh. 4.

Gleym þvi og ecki, Christiñ Sæla! Ad þiñ og miñ Lausnari JEsus gieck æ Leid þessari yfir Lækiñ Kedron, sem lærdir Meñ seigia, ad sitt Nafn tekid hafi af Diññu edur Sorta. Med hvørium sijnum Sorgar-Gængi hañ fyrst uppfyllti

þa Fyrirmindan Gamla Testamentisins, þegar hiñ Heilagi David, aa sama Haatt sorgmæddur, gieck af Jerusalem, yfir þeñ-añ Læk, nær hañs Son Absalon sokti ep-tir hañs Lijfi og Rijki, 2. Sam. 15. Þar næst bætti Lausnariñ med þessum sijnum Sorgargaangi fyrir vorar margfalldar Glæpagaungur, hvoriar vier optsiñis hlæandi hlaupum, æ þvi verr! So þar sem vier fyrir eins Mañs Ohlijdni erum marger Syndugir vordnir, so verdum vi-er og fyrir hañs eins Hlijdni marger Riettlaatir, Rom. 5. Eñ oss ber þessa so ad miñast, ad vier høfnum slijkum Gl-æpa Stigum hier eptir, graatandi alltijd beyskleg slijka saargrætilega Blindni vo-ra, eñ elskum vorn JEsum af øllu Hi-arta, Saalu og Hugskoti, Matth. 22.
J Pridia-Maata, so sem JEsus gieck yfir þeñañ Sorta Læk Kedron, ecki eirn, helldur filgdu hønum og so hañs Lærisv-einar epter; So maattu og vita, ef þu villt hañs riettur Lærisveirn og Þien-ari vera, þa hefur þu ad bwa þig vid mar-gri Freistni, Mootlæti og Mañraunum, þvi værir þu aan slijkrar Typtunar, þa

værir þu ecki hañs Barn, helldur hiaa-Barn; Kaattu þar fyrir slijkt ecki und-ra þig, so sem hendti þig nockud nijstaar-legt, edur faaheyrt,; Miñstu þess, þu sorgmæddu Guds Barn! Ad Piooniñ er ecki ofir sijnum Herra: hvert gyrnist þu meyri Æru, helldur eñ ad vera honum lijkur? þad er þier og mier ærid noog Virding, þo þier sijrt þiki, ad koma i margar Hormunga og Nauna Skyrir, þa mun þad gledia þig og Polgoodañ gi-øra, ef þu þess i millti reñir Augunum til þiñar Elsku, til þiñar Eptirlaungun-ar, hvijlijk ad Jesus er og vera a; Hañ tyndist ecki i þessum Sorta Læk, þu og ei helldur i þvi mirkva Vatni Krossins, þvi hañ sierso til, þu helldur Sigrinum. Firer þvi vil eg feigtñ, miñ Herra Jesu! þañ Veg ganga, sem þu vijsar mier. Allt Mediæte Veralldariñar vil Eg helldur missa, eñ þig: Er þad margfalldur Motlætinga Vegur, þa skal þad þo Huggun Saalar miñar, ad þu giefur mier, med þijnum, þañ Fognud, sem eingeñ fær af mier tek-id. Joh. 16.

Hier næst er oss nu athugande Sam-

Tal Lausnarans og hañs Læresveina, at þessare þeirra Vegferdar, Reysu til Oliveti, og iñebindur þad i sier, Fyrst, Christi Fyrersogn þessa: " A þessari Nottu munud þier aller hneixlast at mier. " Hier lætur Lausnareñ i Lioose, sem oftar, sijna Guddooms Alvitsku, fyrer hvørre ad eckert er huled; hañ er sa, sem oss best rañsakar, hañ veit allar vorar Athafner og formerker vorar Hugreñingar Aleingdar, og eckert Ord er þar at Vorri Tungu, ad hañ vite þad ecke: Veit hañ þetta, So veit hañ og fyrer vort Fall og vora Hrøsun: hañ er og sat allra vijsasti Læknir, sem noog Grædeslu Medøl hefur, vid sierhverri tilfallandi Meinsemd vorri, og sparar þau ei helldur þeim, þeirra af Jdrande Hiarta leita, til sijns andlega Volædes fiña, og þad audmiuklega vidurkieña. Hier i moot er þad fordæmañleg Blindne, ad vilia sijnum Giørdum i Myrkrenu hallda, lijka sem Drotteñ munde bær ecke vita edur sia, þo fyrir Moñum dillast kuñe um Stund; Edur Meñina framar ad hrædast eñ Gud, þar þeir kuña þo ecke añad ad deyda eñ Lijkamañ, eñ hañ kañ Saalu og Lijkama ad fortij-
na

na i Helvijti, Matth. 10. O hvad oft verdur hier fyrer utañ Hneixlast a JEsu Christo, einkum a þessu myrkva Veralldar Kvollde, med Afvirdingu og Miskunarleyse vid hañs Volada, med Privootsku i giegn hañs Orde, þess Astundan og Epterbreitne, med Ofverte vondra Dæma allmargra, hverium tijtt hroosad verdur og Ostraffader blijfa: og hvor kañ allt slijkt Illgrese uppreikna, sem nu i fullum Verte er medal Muñchristeña! Og hvad skal seigia? Þar hlioota ad koma Hneixlaner, eñ vei þeim fyrer hvorn Hneixlaneñ kemur, Matt. 18.

O HErra JEsu, þu sem allt þetta veitst, vægdu oss aumum, og veit af Myskun þiñe vorum Bañvænum Saarum Andlega Grædslu, þvi þu villt ecke Dauda Syndarans, helldur ad hañ leidrietti sig og life.

Sijna Fyrersogn stadfester Christur med Guds Orde, seigiande: "Skrifad er, Hyrdereñ mun eg slaa, og Sauder Hiardariñar munu i sundurtvistrast." Hvor Spaadoomur eirneñ framkom a honum sialfum i Pijnuñe, eñ a hañs Læresveinum i þvi þeir fraa honum flydu. So lætur hañ og eñ af Ordenu sañbevijsadar verda Straffs Hootaner

þeir-

þeirra Ogudlegu, þo þad lijted gillde. Eirninñ verdur og i þvi vitnad um̃ hañs Mÿskunar Fyrerheit, vid alla þa sig betra, Jaa, ad hañ vilie þaa elska, sem hañ elska; Og a hvørutveggiu verdur hier ad soñu opt Raun, eñ til fulls mun þad sijdar sañast, þvi Himin og Jørd munu forgaanga, eñ hañs Ord forgaanga alld rei, Luc. 21.

Nu, so Lærefveinarner skylldu ecke, vid þessa Fyrersøgn, i ofmiked Hugar-Vijl falla, gledur saa Blessade Hyrdereñ JEsus þaa, med þvi hañ seiger: " Eñ nær eg rijs upp aptur, þa mun eg gaanga fyrer ydur i Galilæam. " Siaadu hier, Guds Barn! hvørneñ hañs Hiartalæge er vared, þegar þu hefur i Eymdina edur Falled ratad, og þitt Hiarta vill fortæma þig, afleyser JEsus þig med siñe miwku Mÿskun, og seiger: Vertu Hugbraustur Sonur, Vertu Hugbraust Dootter, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar: synande þier, ad hañ vilie ecke i sundur-brioota braakadañ Reyr; Ad hañ sie saa, sem deyder og lijfgar, fære nidur til Helvijtis og burt þadañ aptur,

ur, 1. Sam. 2. Og vilie ecke lærta þig freystast yfer Megn fram̃, helldur giefa þañ Enda Freystinguñe, ad þu fææt stadist, 1. Cor. 10. Vid þetta dyrfest so þiñ Hugur, ad þu seiger med Paale: Hvør vill mig ærklaga? Hier er Gud sem mig Riettlæter. Hvør vill mig fordæma? JEsus er hier, sem dææd hefur, miklu framar, sæ upp aptur risiñ er, mier til Riettlætis, og bidur fyrer mier Oaflaatañlega, Rom. 8.

Uppæ þessa Sañleiks Fyrersøgn HErrañs Christi, svaradi Petur: " Þo aller hneixle sig æ þier, þa skal eg þo alldrei hneixlast:" Og þa JEsus sagde hønum eñ framar, hvilijk hañs Hneixlun verda munde, og hvad skielfeleg, þa talar Petur eñ frekar, og seiger: " Jaa, þo eg ætte ad deya med þier, þa skal eg þo alldrei afneita þier. Slijkt hid sama søgdu aller Lærésveinarner." Siaa hier, Christeñ Madur! þa stooru Dirfsku þess hofmooduga Hollds og Bloods, sem þikist nææalega kuña øllu ad orka, bæde vid sig og adra, æ medañ þess Ofstæke fær eckert Hnießig, þad spæir sier

þa

þa ecke einasta ollu fogru, allskonar Lat-
ne og framgange, helldur og vill þad nat-
liga dansa a hvørs Mañs høfde. Medañ
ver siaum el Ovinina, erum vier nogu
framgiarnir, at=lijka og Petur; þar
latum vier lijka sem skylldum vier alld-
rei giefa oss; eñ sem komid er at Vijg-
Vølliñ, fellst oss þad flest uñ Hendur,
sem þienar til nockrar dugandis Varn-
ar, og, þo oss sie slijkt fyrirfram sagt, bu=
gar þad all=lijtid vorn Hofmood; helld=
ur er audfeingid hiat oss þetta Svar:
Þessi veit mikid, hvørniñ oss muni gaun=
ga; Ef heyrum vier añarra Ofara gietid,
hlacka (kañskie) sumer af oss þar yfir, eda
vier furdum oss stoorlega at þeirra Spi-
lun; jat, vier vantreistum oft flestum fra-
mar eñ sialfum oss, lijka sem værum
vier sterkari og nalega vor Stat li gior=
dir. O hvad stoor Blindni er þetta fyr=
ir þa syndugu Molld og Ösku, sem ecki
megnar ad giora eitt Haar hvijtt edur
svart at sijnu Høfdi, edur rietta þad bog=
id er! Latum oss þvi allir i Eyrum loda,
þad DRottiñ seigir fyrir Muñ Jerem=
ia: Bølvadur er jat Madur, sem setur
Holld=

Hollrid fyrir sin Arm, og i burtvijkur frá DRottni med sijnu Hiarta, hañ mun vera so sem añad Lijng á Eydimørkuñi i einu ofriofssømu Landi, þar eingiñ byggir. Blessadur er sá Madur, sem treistir á DRottiñ, og hañ, hvers Von ad DRottiñ er: hañ er lijka sem eitt Trie þad grodursett er hiá Vatninu, þvi þo ad Hitiñ komi, þa er hañ þo ecki hrædd-ur uñ sig, helldur eru hañs Lauf-Blød græn, og kvijdir ecki vid, þa Þerri Arid kiemur, helldur færir hañ Avøxt oaflátanlega. Jer. 17.

O JEsu! Gief oss ad miñast, ad vier megnum einkis goods án þijn, og hvørsu ad vier berum þeñañ vorn Fiesiood i brothættu Leyrkieri, 2. Cor. 4. So ad vier med hlijdnu og lijtilláatu Hiarta til Packa tøkum þijna Fødurlega Vidvørun, þvi þu veitst best hvørsu vier erum veikir i alla Stadi. Hiálpa oss þijnum Børnum, O HErra! Ad komast Klaklaust yfir allar Torfærur og Eymdir þessa Lijfs, til þijns eilijfa Fridar og fullkomnu Farsælldar. Amen.

# II. Cap.

Uñ Christi Kvol i Grasgardinum.

## TEXTINN.

Þar

Þa kom JEsus med þeim i það Akurgierdi, sem hiet Getzemane; Þar var eirn Grasgardur: þar gieck JEsus inn og hanns Lærisveinar, enn Judas, sa ed sveik hann, visse og þenann Stad; þviad JEsus safnadist opt þaangad med sijnum Lærisveinum. Þa JEsus kom i þann Stad, sagdi hann til sinna Lærisveina: Setied ydur hier, aa medann eg fer burt og bidst þar fyrir. Bidied, so ad þier fallid ecki i Freistni. Og hann took med sier Petrum, Jacobum og Johannem, þa tvo Sonu Zebedæi, og took til ad hryggiast, titra af Hrædslu og harmþrungin ad verda, og þa sagdi hann til þeirra: Mijn Saala er hrygg allt i Daudann, blijfid hier og vakid med mier. Og hann sleit sig i burt fraa þeim, og gieck litlu framm leingra, nær einu Steinsnari, og kraup aa Knie, fiell framm aa sijna Asioonu til Jardar og bad; Ef þad mœgulegt væri ad su Stund hiaa sier lidi; Og sagdi: Minn Fadir, ef mogulegt er, þa vijki þessi Kaleikur fraa mier: Abba Fadir minn! Allt er þier mœgulegt, tak burt þenna Kaleik fraa mier, þo ei hvad eg vil, hellds-

helldur hvad þu villt.

## UTLEGGINGIN.

Herut er oss af þessum Heilaga Texta athugande.

1. Stadureñ, til hvørs Endurlausnareñ hier ferdast, hvør ad er Grasgardureñ Gethsemane, þad þijder Vidsmiørs Pressu; Hier uppbyriar nu Lausnareñ fyrst sijna saaru Kvøl og Pijnu; hier verdur nu fyrst sa saũe Vijnviduren JEsus, Joh. 15. Lagdur under þad þwnga Farg og Pressu Gudlegrar Reide, so ad þad Fagnadarfulla Oleum Hiaalprædesins þar fyrst pressast skyllde af hañs Blessada Lijfe og Lijkama, sem var hañs dijrmæta Blood, þad einasta Grædslu-Vijn og Vidsmior vorra Andlegu Saalar=Kauna, er þeirra giørvøllum Svida aavallt burt=rijmer. J Alldingardinum leiddu þau Adam og Eva, vorer Fyrstu Forelldrar, fyrst yfer sig og sijna Nidia ellijfañ Dauda og Fyrerdæming, i þvi þau brutu af Bode sijns Skapara: Fyrer þvi kom sa añar Adam, þad fyrerheitna Kviñuñar Sæ-

de, JEsus, i Grasgardeñ Gethsemane, til ad ꝛtleggia fullañ Betaling fyrer Adams og Evu saarlegt Synda-Brot, Jaa, til ad græda og bæta, med siñe diwpustu Hlijdne, allt þad hiñ, med siñi Ohlijdne, spillt og fordiarfad hafde. Þad Edens Skilnings-Trie færde Avort, eñ af Nautn þess Avartar, spratt ein græatleg Synd, eitt banvænt Synda-Eytur, eirn bitur Daude; Og so megnt var þetta, ad þær Sorglegu Meniar þessa sioost eñ i Dag. Þetta var bañværn Avortur. Þad ilmanda Lijffsins-Trie JEsus, er stood hier i Gethsemane, og eñ stendur i Alldingarde Christne siñar, Jaa, i Hiartans Alldingarde sierhvorra Sañ-Gudhræddra, færde og færer alla Tijma hiñ hollasta og Heilsusamasta Avort Lijffsins og Heilsubootariñar. Apoc. 22. Hvør þessa Avartar i Trwñe neyter, hañ fær Omælañlegañ Fognud, fulla Grædslu og eilijft Lijf. Lijfs Kraptur þessarar lifande Lækningar, siest ecke einasta nu i Dag, helldur siest hañ best uñ alla Eilijfd, hvar hañ sig til fulls auglijser: Slijkt er eirn lioomande og blessadur Avortur.

Avortur. "Peñañ Stad edur Grasgard (seiger Textenn) ad Svikareñ Judas þeckt hafe, af þvi JEsus safnadest opt kaungad med siinum Læresveinum." Og hefur hañ þess vegna fyrer þad þeinkia mætt, ad þar sem þetta Plaats være so afvikiñ Stadur, þa være þad hentugt til ad forraada þar siñ HErra, so ad sem fæster kyñu af ad se'gia hañs Tiltæke og Svikum. Mieg Sviplijkt Siñi hefur Diøfulleñ, Ovinur Kroſſens JEsu Christi, og Ofsækiare hañs Elskenda, þvi hañ hefur lijka Adferd þeſſari: Hañ situr bæde Nott og Dag a Svikraadum vid oss Auma, Ja, a sierhvørre Stundu, giæter hañ glogt ad þvi, hvar og nær sier mune audvelldast vera, ad koma oss i Synd og Andlegañ Saalar-Haaska: J þeſſu er hañ þo saa hiñ aakafaste, nær vier villum edur eigum Gude ad þioona, og hellst verka vors Saalar-Gagns, þa lætur hañ allra siist þad vanta, sem hañ tilætlar, ad oss skule til Falls og Fordiorfunar verda, og i þeſſu margbreitta Nete, siña Krookottu Brogda, flæker hañ nu ecke siist margar Saal-

er, vitande þad, ad hañ hafe ſtuttañ Tijma, þar marger hvørier vilia þad ecke þeckia edur varaſt, þo med Lit og Audkieñe ſynt ſie, eñ ſumer giæta ecke ſirr, eñ Saared er aa dottid. Vid þeſſa bølvudu Konſt, hefur hañ og all-marga tamid, i þeſſum vonda Heime, jafnvel þaa er Chriſtner heita vilia, eñ eru þo Muñchriſtner og Heidingium verre, hvørier ad meſt Jndæle hafa aa Lijge, Svikum og Underferle, og ødrum þvilijkum Odaadum, eñ fegra ſlijkt med Vina Vidmooté; Þeſſer, med ſijnum Lijkum, filgia Fødur ſijns Fiandans Footſporum; Hañ er Andlegur Saalna Mordinge, eñ þeir goods Rigtis Raanungans, og jafnvel añars fleyra Lijkamlegs, og ad Sijduſtu ſiñar eigeñ Saalar, nema Saña Uñboot viñe.

O JEſu, miñ Endurlauſnare! Vernda mig Veikañ og Veſælañ, ſamt øll þijn Børn, ſo eg alldrei ſiñeſt i ſoddañ Hreckia Flocke, og ad eg gaange wt af þeſſare Sodoma, ſem ecke ſæter þier edur þijnum Ordum, uppaa þad eg tortijneſt ecke i heñar Bruna.

Texteñ ſeiger: ad JEſus hafe oft geingid i aadur-nefndañ Graſgard: þar af er audſært, Chriſteñ Saala! Ad ockar ſætaſte

aſte Herra hefur ecke einaſta þeinkt um̃ ſijna ſaaru Pijnu, helldur og iñelega bedeð ſiñ Himneſka Fodur, ad hañ ſiñ ſaña Mañdoom ſtirkia villde, ad bera og wtſtanda þær ſaaru Pijſler, er hañ lijda ætte epter hañs Vilia, Mañkynenu til Sælubialpar. Guds Barna Legſtader hier i Heime, eru eirn þvílijkur andlegur Jurtagardur Drottens. Þegar þu nu, Guds Barn! geingur um̃ Reit þeña, þa bid Gud af audmiwku Hiarta, ad hañ vilie ſtirkia þig til ad lifa hier Gudlega, og i alla ſtade, ſo ſem ſær, er JEſum af heitu og hreinu Hiarta elſkar, og ad þiñ Afgangur meige farſæll verda, og deya ſæir med JEſum a Armlinum: Jaa, Guds Barn, hafdu þiñ Dauda alltijd i Miñe, þad aftrar þier fraa ad ſyndga, þad verdur og þijn ædſta Glede i Mañraunum, ad miñaſt Uppriſu-Dagſins, þvi þiñ Endurlauſnare Lifer, og hañ mun uppvekia þig af Jørduñe. Job : 19.

2. Er þad hier Athugaverdt, Hvørn iñ JEſus ſkipar Flock ſiña Læreſveina: Suma af þeim, lætur hañ nockud fiær ſier vera a medañ hañ er ſtaddur i

ſijnum bloodrijka Bardaga, eñ þriar af þeim, Petrum, Jacobum og Johañem, teok hañ med ſier. Hier fiñur þu, Guds Barn! eirn agiætañ Lærdoom. Chriſtne Guds hier a Jordeñe er eirn and legur Aldingardur; Alldiniñ, þar iñe vaxande, eru Guds Børn, af hvørium ſum bera Hundradfalldañ, ſum Sextugfalldañ, Sum Þrijtugfalldañ Avøxt, af Sæde Guds Lijfkrøftugu Orda, ſierhvør efter þeirre Naad ſem hønum er giefeñ: þeſſer aller eru Guds Sonar Læriſveinar, iafnvel þo eirn meige añañ i Biartleika Gaafnaña og gudlegs Framferdes yfervlña. Alla ſijna þeckir Jeſus, þad er ſtødugt Iñſigli: þeim veitu og taaplitlu Saudum ſijnum ætlar hañ miña, eñ þeim meira, er hañ veit ſterkare vera, ſo ſem hier ſkiede þeſſa þriar Læriſveina, hvørier ſied høfdu hañs Forklaaran, Matt: 17. og Uppvakning Jairi Dottur, Marc: 5. Þeſſa valldi hañ til ad vera hiaa ſier i ſijnu Dauda-ſtrijde, ſo þeir og ſijdar kyñu þar vitni um bera, med þvi ad i Muñe tveggia edur þriggia ſkulu øll Maal ſtanda. Sømu Makt hefur Jeſus

eñ

eñ þa til ad höndla med ſijna, ſem hañ vill, hvꝺrt helldur hans Millde þocknaſt ad lata þa nærre edur fiærre Freiſtingaña Ofne ſitia: Pad ſtendur i hañs Valldе, hvꝺrt hañ vill helldur græta mig edur gled-ia: Græte hañ mig, þa veit eg þo, ad ſlijkt hafa hans kiæruſtu Aſtvіner feinged ad lijda: Pad ſie eg af Oſſookñ Eliæ, Kaunum Jobs, Lijſlate Stephañ, Hrigdum Paals, og añara otal margra Mootlætingum, er þeir hafa mꝺatt reyna og ſiaa a ſier og ſijnum; Kañ eg mier þvi ecke bet ri Koſta ad vænta, eñ þeſſer, vil og eirneñ tilſtunda, adlata mier þad lynda, ſem miñ Jeſus vill a mig leggia: Þvi hlijdne er betre eñ Offur. Eñ gledie hañ mig, ſem oftaſt ſkiedur, þa ber mier þvi med þockum taka, og vita, ad mier er ei Ovandara i ſoddañ Seſſi ad ſitia, eñ hinum. Hvꝺrt helldur ſem mier og þier tilfellur, Guds Barn! þa ſeigium med David, Pſ. 31. v. 16. Mijner Tijmar ſtanda i þiñi Hende, DRottiñ! Giøre Jeſus vid mig hvad hañ vill: Og þo vid ſiaaum adra hafa meire Uppgꝺang, Laan, Lucku og Ynde þeſſarar Veralldar, eñ ockur, þa mis=

misuñum þeim slijks ecke, verum ecke
rangeygder, þo Gud sie goodgiarn; Set-
ium ockur i hiñ ytsta Seisiñ, hañ mun
ockur hentdastur, hvørn Doom sem Ærug-
girnd Verålldariñar hier a leggur: lååt-
um Gud raada Upphefdeñe, þvi betra
er so, eñ klifrast håått, og kañskie Håls-
brotna. Nu skallt þad eirneñ læra, Gu-
ds Barn! af þijns Lausnara Efterdæme,
ad falle þier nockurskonar þung Freisting
til Handa, þa gief þig ecke i Einvyse;
þvi, vei þeim sem eirn er; ef hañ dettur,
þa er eingeñ, sem hañ reise a Fætur aftur
Pred. 4. v. 10. Helldur gief þig i Sel-
skap Gudhræddra, sem bæde kuña fyrer
þier ad hafa goodar Fortølur, og giefa
þier good Raad. Sierhvør vorra skillde
og haga sier vid þessa og þvilijka naud-
stadda, sem St. Paull bijdur, seigiande:
Eirn bere añars Byrde, og munud þier
so uppfylla Christi Løgmaal. Gal. 6.

3. Høfum vier gaumgiæfilega hier
ad athuga Lausnarans Hryggd, Hrædslu
og Skialfta, þvi efter þad hañ hafde
þessa Prlaa til sijn teked, seiger oss Text-
eñ, ad Jesus hafe teked til ad hriggiast, tit-

ra

ra af Hrædslu og harmþrunginn ad verda, og med Taarum þar yfer saart klagad fyrer sijnum Læresveinum, ad sijn Saala være hrigg allt i Daudann. Af þessare Hrædelegu Kvøl og Angist Herrans Jesu Christi, asamt hanns þunglegre Umm-kvørtun a Krossenum, er hann sagde; Gud minn, Gud minn, hvar fyrer forlietstu mig? er þad audsært, Christenn Saala! ad hanns bitra Pijna, hefur meire og stærre verid, enn allra Manna Plaaningar. Jobs Plaaga var ad Sønu næsta mikil, Jaa, so stoor, ad Viner hanns þecktu hann ecke, og grietu yfer hønum i Sio Daga og Nætur, og tøludu ei Ord, Job. 2. Enn þesse Hørmung Lausnarans var miklu meyre, Jaa, Oseigianleg. Nu flijgur mier i Hug hanns sialfs Skipan, er hann seiger: Matt: 5. Ad vier fagna og glediast skulum yfer Ofsookn Ovina vorra, og þeirra Areitne, hvad og hanns Astviner giørt hafa, medal hvørra St. Paall seigest einasta vilia hroosa sier af Krosse vors DRottens Jesu Christi, Gal. 6. Enn hvørninn mun þad þa tilkoma, Christenn Madur! ad Jesus, sialft Høfudid, af

hvøriu aller Limerner Lijfed og Kraftiñ ødlast, so hrædelega titrar og skielfur af Ogn og Ofbode, med Ecka og Taarum? Orsøkena hier til, sijner oss Heilagur Ande, fyrer Muñ St. Paals, þar hañ seiger; ad Christur sie ecke einasta krossfestur og daaiñ fyrer vorar Synder, helldur hafi Hañ og orded Bølvan fyrer oss, Gal: 3. Hier af siaaum vier, ad þetta feikna Ofbod DRottens Jesu hefur ecke einasta komed af Beiskiu tilkomande Lijkamans Kvalrædis, epter hvøriun Elldsbrúna ad Jesum laangade giarnañ; helldur og miklu framar, af þeirre omælanlegu Grundar-Reide lifanda Guds, fyrer hvørre ad Hafed flijr, Jørdeñ skielfur, Fiølliñ braadna lijka sem Vax, fyrer hvørre eingeñ standast kañ, ville Hañ Reikning heimta, og i hvøria hrædilegt er ad falla; hvør obæreleg Reide øllum Guds Skiepnum, i giegn allre Veralldareñar Vondsku, fra Upphafe til Enda, þreingde nu hier ad Jesu Christo, og aa hans Herdar lagdest, þess vegna, ad hañ bar Elldsneyted sialfviliugur, er slijkañ svijdande Loga upptendrade,

sem

sem var øll Illska Veralldareñar. Hier af mættu siaa þad ; miñ Brooder og samlijkur Sindare ! ad ecke hafde Jesus uñed til Kvalar þessarar , þvi Hañ var i alla Stade saklaus og aan Flecks , helldur leid hañ þetta vor vegna ; Elskañ hañs til vor aumra knwde hañ hier til : hun kom honum til ad lijda , fyrer Illgiørder vorar , so stoora og Ounræđelega Kvøl : hun kom hønum til ad verda Bølvan fyrer oss , sem med riettu høfdum Bølvanena forþienad. Af J hugan þessa meigum vid og eirneñ sia , hvad vid giørt høfum , og til hvørs vid uñid høfum : Vid høfum syndgad , vid høfum pijnt og plaagad Jesum , og vered honuñ Orsøk til allrar þessarar og añarar Hørmungar , er Hañ leid ; So virdast mær , ad Bloodskulld ockar og Illska sie meire og þijngre eñ Himin og Jord ; þar sem ad Jesus , hvør ad er Lioome Fødursins Dijrdar , og ber alla Hlute med Orde sijns Kraftar , hlaut flatur nidur ad falla aa Jordena , under heñar Ofur-þwnga , þegar Hañ bar hana : So høfum vid þa eirneñ alls-

konar

konar Hørmung, Pijnur og Plaagur, tijmanlegar og eilijfar forþienad, ef ockur skiede efter Rietti. Eñ þad er vornm Saaluin hin hædsta Glede og Huggun, ad þad Gialld og saa Betalingur, sem Jesus utlagde fyrer Misgiørder vorar, og saarleg Synda-Brot, er meyra verdur eñ Himen og Jord, so ad øll þessi hañs Hormung, Sorg og Hiartans Pijna, er oss hañs Børnum hiaa Gudi ein fullkomin Kvittun, sem eilijflega dugir. Eñ þessi Hørmung DRottiñs skal æ og alla Tijma vera oss ein sijfelld Amiñing, bædi til ad fordast Syndina, so og til ad lofa og vegsama vorn Frelsara.

Pad 4. Sem vier høfum hiet wt af ad skoda, er Bæn Endurlausnarans, og hvørneñ hañ bioo sig til heñar. 1." Sleit hañ sig i burt fraa Læresveinunum, og gieck litlu fram leingra nær einu Steinsnare." Pad Fyrra kieñer oss, ad hafa i Miñe hañs Bod, nær vier villum giøra Bæner vorar, er hañ seiger: Nær þu bidst fyrer, þaa gack iñ i þitt Svefn-Hws, og lyk Dyrunum aftur, og bid þu Fødur þiñ i Leynum, og Fadir þiñ, saa i Leinum

sier,

sier, mun þier þad opinberlega aptur gi=
allda. Matth. 6. Þad sijdara er vor
Huggun, ad þo JEsus laati Stundum
sem hañ sofi edur vijki i burtu, þegar vier
i Mañraunum stadddir erum, þa sefur
hañ þo hvorki nie sifiar, Ps. 121. Og
ecki helldur er hañ laangt fraa oss, þvi
hañs Augu eru yfir riettlaatum og hañs
Eyru til Bæna þeirra, Ps. 34. v. 16.
Hañ er ogleymiñ þess, hañ lofad hefur
sijnum Bornum, seigiande: Eg em mied
ydur alla Daga allt til Enda Veralldar.
Matth. 25. 2. "Kraup hañ aa Kn=
ie "Amiñande oss aa vora Embættis=sky
lldu, þvi þo Drottiñ aalijti hellst og mest
vorn iñra Mañ edur Hiartad, hvernig
þad er aasigkomid, þaa er þoo Skylldugt
og riettvlijst, ad i Bæn vorri til DRott=
iñs, sie bædi Saal og Lijkami sañri Aud=
mykt og Blygdunarsemi giædd, þvi hvort=
tveggia hefur DRottiñ skapad sier til
Dijrdar; J hvoriu Abraham, med ød=
rum fleirum Guds Meñum, er oss til Ef=
tirdæmis, hvorier sijn Knie bædi Saa=
lar og Lijkama beigt hafa fyrir Fødur
DRottiñs vors JEsu Christi, so er og
þetta

þetta samstemandi Guds Bodi, fyrir Muñ St. Paals, þar hañ skipar oss, ad vegsama Gud i vorum Lijkama, og i vorum Anda, sem Guds eru. 1. Cor. 6. 3. "Fiell hañ fram a sijna Asioonu til til Jardar": Amiñandi oss eñ þaa til hiñar diwpustu Audmyktar: Þvi so sem Tollheimtumadurinñ reiknadi sig overdugañ Augunum til Himins upp ad lypta, þegar hañ bad; So meigum vier og allir hid sama um oss aalykta, jafnvel þo JEsus hafi hier med sijnu Lijtilæti bætt so fyrir Dramb vort og Forelldra vorra hiña Fyrstu, ad vier meigum fyrir hañ upphefia vor Høfud, og kalla: Abba elskulegi Fadir! Rom. 8.

Ad þessu giørdu, stijlar Frelsariñ vor JEsus sijna Bæn miøg fagurlega, og seigir: "Miñ Fadir! ef møgulegt er, þa vijki þessi Kaleikur fraa mier, Abba Fadir miñ! allt er þier møgulegt, tak burt þeña Kaleik fraa mier; Þo ei hvad eg vil, helldur hvad þu villt." Af þessu maattu læra, Christiñ Madur! þad þier hollast er i hvørskins Hørmung ad brwka; Sem er eitt audmiwkt Gied, aang=

angrad Hiarta og breñandi Bæn; Þvi
þetta vill Gud alldrei fyrirlijta; Eñ O-
þoliñmædi og Møglun, moot Gudi og
hañs Hirtingu, aflar þier eñ stærri Ref-
singar. Þu sem ecki hefur forþienad,
nema Reidi og Refsing, skilldir vel var-
ast, ad utheimta i þiñi Bæn, med obliu-
gu Hiarta, þad þig gyrnir, og Holld-
sins Naudsynium vidvijkur; helldur skall-
tu þad (ad Dæmi Lausnarans), setia i
Valld og Vilia Drottins, og þeinkia,
ad hañ sier betur fyrer þijnu Raade, eñ
þu, og veit hvad þier hollast er til Lijfs
og Sælar Velferdar; Miñstu, ad hañ
er, fyrer JEsum Christum, þiñ Fader:
Jafnvel þo hañ neydest til ad reffsa þier,
þiña Synda vegna, þa reynest hañ þier
samt Myskunsamur Fader, ef þu þecker
hañs Vond, bæter þig, og trwer høn-
um, so sem Dæme þess Fortapada So-
nar wtvijsar. Luc. 15. Vit þu og, ad
þu ert alldrei i so stoorre Hriggd stadd-
ur, ad Gude sie ecke alhægt, ad leysa þig
af allre þiñe Eymd og Olucku, þvi hañ
tekur aungva þeirra undañ, þegar hañ
hia David skipar þier, ad aakalla sig i
Neyd-

Neydeñe, og lofar, i sama Stad, ad bænheyra þig, eñ þu skuler heldra sig þar i moot. Ps. 50. Þijner Tijmar (þijn Heilsa og Vanheilsa, þijn Hrigd og Gleде, þitt Lijf og þiñ Daude) standa i Hende DRottiñs. Ps. 31. So þar fellur ecke eitt Haar af þijnu Hofde aa Jordena, aan hañs Vilia. Matth. 10. Og þo þu lijder hier i Heime, þa er þad þo ecke utañ ein lijtel Stund ad reikna hiaa Eilijfdeñe, og er þvi Mootlæting, þessara Tijma, ei verd þeirrar Dijrdar, er sijdar mun vid oß Opeñber verda, Rom. 8.

Eñ þesse þijn Grætlega Hørmung, miñ HErra JEsu, er Gledi miñar Hrþicadu Saalar; Þitt Hiartans Angur, Bæter miñar Hjartans Hrigdar; þvi skulu mijnar instu Hiartans Rætur losa þig Tjimanlega og Eilijflega, AMEN.

# III Cap.

Um HErrañs Christi Dauda Strijd.

## TEXTINN.

OG hañ kom til siña Lærisveina, og fañ þaa sofandi, og sagdi til Peturs: Simon, sefur þu? formaatter þu ecke eina Stund ad Vaka med mier? Vaked

og

og bid:ed, so þier falled ecki i Freistni. Andin er reidubuin, en Holldid er veikt. J anad sin gieck han en burt aptur, badst fyrir, taladi þeim sømu Ordum, og sagde: Min Fadir, ef þad er ecki møgulegt, ad þessi Kaleikur vijki fraa mier, utan eg drecki han, þa verdi þin Vilie. Og han snere aptur, kom og fan þa sofandi, þviad þeirra Augu voru þ ungin af Svefni, og þeir vissu ecki, hvøriu þeir svørudu hønum. Og han skylldi vit þa, og gieck burt aptur, og bad i Pridia Sin, med sømu Ordum, og sagdi: Fadir, ef þu villt so, þa tak þenan Kaleik fraa mier, þo ecki min, helldur verdi þin Vilie. En hønum byrtist Eingill af Himni, sa ed styrkti han. Og þa han var staddur i Daudans Strijdi, took han aakaflegar ad bidia. En hans Sveiti vard sem Blood-Hniklar, þeir ed fiellu aa Jørdina.

## UTLEGGINGIN.

AF þessum Heilaga Texta faaum vier en gløggvar ad heyra, hvad saara Angist og Kvøl ad DRottin vor JEsus hafi i Grasgardinum Getze-


mane

mane utstaded.

1. J þvi hañ i siñi stooru Angist og Hiartans Neyd giørir Prisvar sijna audmiwka Bæn, til sijns himneska Fødur med sømu Ordum, uñ Linun aa siñi Kvøl, hvør þo ei ad sijdur jookst æ meir; Og sijdañ, þess i milli, vill hañ, eptir Mañlegri Vijsu, leita sier nockrar Hægdar og Linunar, i þvi hañ gieck Prisvar til siña Læriisveina, og fraa þeim aptur, eñ fañ þo aungva Hvijlld, Roosemi, edur nockurt Undañfæri; Þvi su breñandi Grimdar Reidi Guds logadi allstadar i krijngum hañ, og kramdi allañ hañs Helaga Lijkama, bædi iñra og ytra, so sem añar nijstandi Elldur. J þessum Vaalheita Bruna var hønum hier aa ofañ byrgt Lioos Himinsins, þar þau svørtu Nætur Myrkur yfir dundu; Hañ fieck og aungva Huggun af Astvinum sijnum, þvi nu svaafu þeir allir; Jørdiñ var hønum eirniñ ohæg, so þar fañst eingeñ Voot aa hañs Meinum. Legg nu þetta allt vel i Miñe, Christeñ Saala! og athuga hier af; Fyrst: ad lijka so sem þiñ og miñ Lausnare leit-

ad

adi þeſs rietta Medals ſier til Hægdar
og Hugfrooa i ſiñe miklu Neyd, ſem
var, ein ydugleg Bæn, æ hvørre hañ
hieldt O=aflaatanlega, Jaa, allt i Da=
udañ, med Sañre Poleñmæde; So byr=
iar þier og eirniñ ad lijkiaſt honum i
þeſſu; Hañ hefur af Myſkun ſiñe, eñ
ecke Forþienan þiñe, Upphafed þig, kiør=
id og kallad til eins Andlegs Hyrders
þiñar Saalar, 1. Pet. 2. Syniadu
þvi ecke, heñe Hwngradre, þeſſarar En-
durnæringar: ef þier tregt veiter, ad
laata af ad mæda hana med Odaun Ill=
verkaña, þa ſeſa þañ Odaun med Upp=
tendran þeſſ ylmanda Reykelſis Bæna=
riñar; þvi faaœ þeſs Ilmur ad Uppſtij=
ga daglega og alvarlega fyrer Guds
Tignar Stool, af hañs Footſkør, æ hvø=
rre þu, under hañs Poleñmæde, ſiendur;
þa mun þad deyfa Olgu hañs Reide i
giegn þier og Syndum þijnum; Hañ
mun þa og ecke einaſta ſtyrkia þig, og
frelſa þig af Hende þiña Mootſtandara
og leggia eirn Myſkunar Urſkurd æ
þitt Maalefne; helldur og giefa þier Tei-
kn eilijfrar Heilſubootar, ſem er þeſſe

sáara Kvøl Niettlætis Soolareñar JE-
su Christi, hvør hier maa seigiast stoor-
lega hafe til Baka geinged, i þvi hañ sig
so yfermæætañlega lijtelæckade, og sier
so diwpt nidursøckte i Kvølena, þiña veg-
na. Nu seiger þu: Eg hefe hroopad
mig moodañ, Og þo syneft mier sem
DRotteñ svare mier øngvu Orde, mijn
Angist vill ecke liña, og DRotteñ hylur
fyrer mier sitt hijra Hiaalpar Auglit,
hvad gilder þa mijn sáara Kløgun og
Andvarpan? Laat nu so vera, ad til þess-
ara Kløgu-Maala þiña sie Raun nock-
ur, laattu þo ecke Oþoleñmædena taka
fraa þier Sigurviñinguna; Eg bid, reñ-
du þijnum Hugskots Augum til þijns
Frelsara JEsu, og miñstu hvad hañ fie-
ck hier ad lijda: Bad hañ ecke Pris-
var? Og þad med hiñe stædstu Alvøru-
giefne, samt diwpustu Poleñmæde: Hañ
maatte i þad Siñ afneita siinum Vilia,
og lijda epter Mañdoomenum (hvørium
nær þvi laa vid Ofbode) þad hañs Fad-
er aa hañ lagde, þo ecke sier til Gooda,
edur sijn vegna, helldur þier til Gooda og
þiña vegna; Hañ var Syndlaus og aan
Saka,

Saka, þu ert Syndugur og Obæreleg-
re Sekt hladeñ, og hier aa ofañ fieck hañ
ongva Huggun edur Froo af nockrum
Hlut; eñ þier eru marger Hluter af Gu-
de til Gied-Frooa setter og til-lagder.
Hañ var ecke Ohlijdeñ, og þurfte þvi ecke
siaalfs sijns vegna Krossens Aga; Eñ
þu ert all-opt Balstijrugur og Ohlijdeñ
Gude, kalldur og dofeñ til goodra Ver-
ka og Gudrækelegra Bæna, og þar fyr-
er hlijtur Gud þig ad temia, so þu til
Dygdaña uppørfest, og ad þu hvørke
missir Gud, nie Gud þig. Af þessu Sæ-
de skyllde þvi hiaa þier spretta Aldin
Poleñmædeñar, hvad Gud þier og aan
alls Efa giefur, ef þu slijkt ihugar,
og til hañs alltijd flijr med Bæneñe, giør-
dre i JEsu Nafne, i hvørskins Hretvid-
vidre biñar Hiervistar Baraattu; Og
þo hañ dvelie, mun hañ komande koma,
og ecke tefia, so sem þier verdur hier sijd-
ar syndt aa siaalfum Christo, hvørium
Fadereñ eirn Eingil til Huggunar sen-
de. J þessum aadur søgdum Speigle,
edur, aa þessare Kvøl vors Frelsara, siaa-
um vier. Par næst: hvad Obærelega sie

 Neidi

Reide DRotteñs, nær hun er upptend-
rud med laangvarande Pverwd og Jd-
runarleyſe ; Undañ hvorre ad eingeñ
Skiepna kañ hañ ad frelſa, ſem i hañ Lo-
ga er til fulls falleñ ; Pvi fyrer utañ
Þad, ad vond Samvitſka er Þvilijkum
eirn Daglegur Bodull og Hegnare, ſem
riſiar upp fyrer Þeim Þeirra Glæpe, Þa
Þiena hiner adrer ſkøpudu Hluterner ad
Þeirra Reſſingu, og ſynia Þeim Þeirrar
Huggunar, er Þeir Þo añars veita Gu-
ds Vinum ; Himeneñ, Liooſid, Jord-
eñ, Vatned, Vindur og Elldur, med od-
ru Otal fleyru, eru Þeim Omilldu til
Skada, Þegar koma ſkal yfer Þa Strøff-
uñeñ, og eru med Fagnade Reidubwner
ad giora Vijfalning DRotteñs, hvar
ſem hañ vill Þa brwka aa Jorduñe, og
nær ſaa Tijme kiemur, laata Þeir ecke
af, ſem Syrach vitnar, (Cap. 40.) Pvi
ſo ſem Þad aller Hluter Þiena Þeim til
allskonar Luckn og Bleſſunar, ſem ott-
aſt DRotteñ ; ſo Þiena Þeir og hinum til
allskonar Ohamingiu: ſo ad vier ſiaa-
um, ad aan Guds Raadar og Vinaattu,
er ecke añars ad vænta aa nockra Sij-
du,

du, eñ Eymdar og Mædu, Kvalar og Fordæmingar. Eñ framar maa hier af skynia, hvad faarleg, hørd og Obærileg ad sie Kvøl og Angist þeirra Fordæmdu i Helvijte, þar þeir raafa i þeim ytstu Myrkrum mñ alla Eillijfd med Ope og Taña-Gnystran, og faa eina Plaagu aa adra ofañ; þeirra Ormur deyr ecke, og þeirra Elldur slocknar ecke, hvad allt ad er Verdlaun Syndareñar. Rom. 8. Og maattu þar af, þu sem daatt elskar Syndena, siaa heñar afskaplega Stærd og Eytrada Vondsku, þo ecke siertu komiñ i þeñañ Kvala-Stad: Fraa hvørium Gud þier forde, og uñi sañrar Yferbootar! Og ad Stijdustu sier þu af þessu, Christeñ Saala! hvad þu skallt eirna hellst i Miñe leggia, ad JEsus hefur, med þessu sijnu wthelltu Taara-Floode, lægt og wtslockt elldijst Faar og Reide-Elld DRotteñs, upptendradañ yfer vorum Syndum, so þad er ollum þeim, sem hlijduger eru, ordeñ Orsøk Eilifrar Saaluhiaalpar: Þvi hønum var hier i hañs Kvøl allt til Ama og Angurs, so ad aller Hluter skylldu þier og mier i

Angrenu og Naudeñe, til Huggunar og Hugsvolunar vera. Jaa, þijn Hrigdar=Spor, miñ HErra JEsu! sem þu hier gieckst, eru mier þein Gata og Leid til Himnarijkes Sælu. A þier laa Kvoleñ i þeim svørtu Nætur Myrkrum, so mier giefast skyllde Naadar-Lioos DRottens hier i Heime, og Lioos Dijrdareñar i ødrum Heime. Þu varst sviptur Huggun og Adstod Vinaña, so eg feinge fulla Vinaattu og Astar-Skiool mijns Guds eilijflega.

2. Faaum vier hier ad heyra, ad eirn Eingill af Himne hafe byrtst vorum Frelsara, saa ed hañ styrkte i þessare hañs saaru og beysku Angist. Hier kiemur þad nu fram, Guds Barn! er eg næst um gat, ad þo DRotteñ dvelie, so ad Mañlegum Augum meige wte sijnast uñ alla Huggun, og fyrer Hiaalpena forteked, þa tiaaer þo DRotteñ sig midt i Neideñe Naadugañ Fødur, þeim hañ Oaflaatañlega aakalla og aa hañ vona; so þeir hiner sømu verde alldrei til Skammar; þvi hañ er hiaa þeim i Neydeñe, og vill þeim þadañ wtryckia, og þaa veg-

vegſamlega giora, Pſ. 91. Og þetta er þad Skiool, ſem alldrei bregdſt, þo i øll mañ-leg fokid ſie. Slyka Hialp og Hugganer hafa þeir Pioenuſtuſømu Andar, Heilager Einglar DROttins, optſiñis fraũkvæmt medal vor Mañaña, ſem ſiaa maa allvijda af Heilagre Ritningu; Hvørtar øflugar Kiempur ad ſetia Herbuder i kring uñ þaa, ſem ottaſt Drotteñ, Pſ. 34. Einkañlega þegar þeir giora ſijnar audmiukar Bænir: þad maa ſiaa af Dæme Cornelii, Act. 10. og añara fleire, eñ ſierdeiles eru þeir, aa Gudhræddra Maña Dauda-Stundu, fwſer ad taka i moote þeirra Saalum, og ad iñflitia þær i Himneſka Dijrd og Sælu, ſo ſem Lazari Dæme wtvijſar, Luc. 16. Eñ hvad vidvijkur Stirk þeſſa Eingils, vid DROtteñ vorn JEſum Chriſtum, þa hefur hañ ſyndt vorum Frelſara, jafnvel i hañs diwpaſta Nidurlægingar Stande, ſijna blijduga Pioonuſtu, ſo ſem ſijnum Gude og HErra, ſo ſem þad er og eirneñ vijdar ad ſiaa af Gudſpiall-legre Hiſtoriu, ad Heilager Einglar giort hafe epter Skylldu ſijns Embættes, eñ þo hafa

 þeir

þeir þar med samt alls eckert wtriett i sialfu Verke vorrar Endurlausnar, þvi til þesshafdi vor Frelsari JEsus ecki Pørf, brwkade þaa og ei helldur þar til. Sliikt satt ad vera vitnar Paulus, er hañ seigir: Eñ þañ sem uñ Stundarsakirhefur Einglaña þarfnast, sia aunn vier ad þad er JEsus, fyrir Pijsl Daudañs Coronadur med Dijrd og Heidre, uppaa þad hañ, af Guds Naad, fyrer alla Daudañ smackade, Ebr. 2.

3. Verdur oss fyrer Siooner leidt, ad þesse þeiskasta Kvøl og Angist Frelsarans vors JEsu Christi, hafe uñ sijder so stoor orded, ad hañ hafe stríjdt vid Daudañ, og þa beded hvad aakaflegast. Optlega verdur ad soñu uñ Strijd og Einvijgi gietid i Ritninguñi, af hverium nockur voru Fyrirmindan uppaa þeñañ øfluga Bardaga Frelsarans, eñ þad þo ecki sijst, er David haadi vid Leonid, Biarndijrid, og þañ grimma Risa Goliath, 1. Sam 17. Og vañ eirn aagiætañ Sigur. Megtugt og Sigursællt var Strijd þetta ad Soñu, eñ so miøg lijtid ad reikna hiaa þesßu Strijdi, er Endurlausnar-

inn hiellt hier vid Daudann, Diøfulinn og Hel vijte; þesser Oviner voru Andleger, og þar fyrer miklu øflugri þeim lijkamlegu. David frelsadi eirn Saud i sijnum Bardaga vid Leonid og Biarndijrid; enn JEsus hefur frelsad marga, jaa, alla þa sem a hann trwa, aa hvorium ad er einginn Fordæming framar meir. David, i þvi hann sloo Goliath, burt-took Brijxled fraa Jsrael; Enn JEsus fraa øllu Mannlegu Kyne, i þvi hann uppfyllte þad, er hann fyrerfram heited hafde hiaa Oseam Spaamanne, seigiande: Daude, eg vil vera þijn Drepsoott: Os. 13. Þennann Høfud-Ovin flette hann sijnum Her-Klædum, aa hvor hann treyste, og i sundurskipte so hanns Herfaange, Luc. 11. So nu er vor Daude ei framar Daude, hellldur sætur Svefn og Inngaangur til eilijfrar Dijrdar: Þvi sie vorum Frelsara eilijft Lof, sem oss hefur Sigurenn giefed! 1. Cor. 15.

Loksins gieck þessi straungasti Bardagi vorum lijwfasta Lausnara so nærri, ad hann sveittist Bloodinu, hvort ed fiell og nidurhrundi af hanns allra helgasta Lijkama aa Jordina. Siaa hier og athuga,

ga, syndug Mañeskia! Hvad beyska og oumñrædilega Kvøl, ad saa eilijfi Guds Sonur, JEsus Christur, hefur i Grasgardinum Getzemane utstadid þijn vegna, ofañ aa allt añad er hañ leid. Mijnu veika Hugskoti rædur vid, þegar eg þeinki uñ þessa saarustu Ofraun. A mijna margsyndugu og maalstømu Tungu kiemur Stans og Orda-Skortur, nær eg skal, edur vil, hier uñ ræda; Aungvu ad sijdur veit eg, ad þetta Kvalrædi hefur hitt þig, miñ liwfi Lausnari! søkum miñar og allrar Veralldariñar bloodugrar Vondsku, sem øll øñur Kvøl og Pijna, er yfir þig dundi, jafnvel þo miñ naatturlegur Skilnijngur naai hardla skamt til ad rañsaka slijkt reigiñ Diwp þiñar heitu Elsku og omælañlegu Astar, hvøria þu mier, og øllu Mañlegu Kyni, eirna hellst hier uti, audsijnder, jaa, þegar vier vorum eñ þijnir Ovinir: þar kañ þo eingiñ Elska stærri ad vera, eñ ad eirn giefe sitt Lijf fyrir sijna Vini: eñ hvad sie eg hier? Mun þessi ecki laangt yfirgnæfa? Af þessum saara Blood-Sveita Frelsarans, maa eirn og sierhvør af oss, sem

sem hier til vill Augum reña, auglioslega siaa og merkia, hvad megnt og Vañvænt sie, og verid hafi, þad herfilega Eytur Syndariñar, er i alls Mañkynsins ytstu Lidi og Limu rañ i Adams Falli, þar þad kuñi ecki med ødru mooti ad deydast og deyfast, helldur eñ med Blood-Badi sialfs Lijffins og Dijrdarlioома Fødursins, JEsu Christi. Þessi Olisian Syndariñar vard sialfri Jordūñi ein Bølvunar Orsøk, hvør Bølvan ad læknadist, þegar Blood-Sveitiñ Christi dreifdist yfir hana, hvør betur talar eñ Abels Blood. Ebr. 12. So er hun þa ordiñ oss nu aptur blessud, og færir oss daglega og aarlega vora Atviñu: Slijkt avañ oss saa blessadi Blood-Sveitiñ JEsu Christi! Eytur Syndariñar hratt oss i þad logandi Baal Guds Griñdar Reidi, og afladi oss straangrar Aklögunar, bædi vorrar eigiñ Samvitsku, og allra añarra skapadra Skiepna: Þetta var Upphaf alls Ofagnadar! Eñ Blood-Sveitiñ Frelsarans sløckti aptur þetta Reidi-Baal, og forlijkti oss vid Fødursiñ, og tilstappadi Muña allra vorra Aklag-

klagenda, so hier eptir kañ eingiñ ad aklaga Guds Utvallda, Rom. 8. Þetta var Upphaf allskonar Fagnadar! Eytur Syndariñar færdi ofs med sier allskonar Eymd og Hörmungar, tijmañlegar og eilijfar: þær eilijfu hefur JEsus alldeilis burt-tekid, eñ linad þær tijmañlegu, so þær faa ei geingid yfir vort Megn, 1. Cor. 10. Eñ þegar þær særa ofs og græta i Taaradal þessum, þa er ofs bad hin mesta Hægd og Hugar-Hreßing, ad flija i Grasgard vors DRottiñs JEsu Christi, i þvi Stormvidri, og tijna þar i Siood vors Hiarta hañs Blood-Sveita Dropa; Þeir hugga og hreinsa vorar Samvitskur, jaa, þeir eru þad Lausnar-Gialld sem eilijflega dugir. Eytur Syndariñar færdi ofs med sier tijmañlegañ og eilijfañ Dauda; Fraa þeim eilijfa hefur JEsus ofs frelsad, med þvi hañ er i Sigur uppsvelgdur, 1. Cor. 15. Eñ nær saa tijmañleigi eitt Siñ ofs ad Hondum kiemur, þvi þad er Vegur allrar Veralldar, þa sefar sa saarheiti Blood-Sveiti JEsu Christi vorn saarkallda Dauda Sveita; Þa siaa vor Trwar

Augu

Augu Himnana opna, med Stephano, og JEsum standandi til Guds hægri Handar, en Saaliñ frijast fraa Angistar Sveita eilijfra Kvala, sem ollum ogudlegum Foottrodurum Bloodsins JEsu er fyrirbwiñ. Fær þier nu slijkt Gudrækilega i Nyt, Christiñ Saala! hugsvaladu alltijd þijnu Hiarta, þu særdi Syndari! þu ørþyrsta Mañeskia! aa þessari lifandi Uppsprettu Lijfsins og Huggunarinñar, þa mun hun verda þier og Saalu þiñi sa Straumur, sem flijtur til eilijfs Lijfs. Hun verdur þier þa Hægd Hugans, Linun Harmsins, Mijking Freistingaña, Blessunar Nægd i Skortinum og Faatæktiñi, Vernd i Haaskanum, og Skiool fyrir allri Olucku, ef þu leggur þessa Kvol þijns Lausnara, sem hañ fyrir þig leid, alldrei fraa Augum þiñar gudrækilegrar Endurmiñingar, og lætur þier alldrei gleymast, ad færa honum hier fyrer skilldugt Astar Packlæte, alla þijna Hiervistar Daga: hvar til hañ hiaalpe þier og mier fyrer siñ Heilaga Anda, saker sijns Blood-Sveita! Honum sie Lof og Dijrd, og Speke og Packer, og

og Heydur og Kraftur, og Styrk-leykl fra Eilijfd til Eilijfdar, AMEN.

# IV. Cap.

Um Samtal Christi vid Lærisveinana.

## TEXTINN.

OG hañ stood upp fra Bæneñe, og kom til siña Lærisveina i Pridia Siñ, og fañ þa sofandi ut af Hrygd, og sagde til þeirra: sofid þier nu þad eptir er, og hvijlist! hvad sofid þier? þad er noog: standed upp og bidied, so þier falled ecke i Freistne. Siaed, su Stund tekur ad naalgast, og er komeñ, ad Mañsins Son mun ofurseliast i syndugra Hendur: standed upp og gaungum hiedañ siaed, sa er mig svijkur, hañ er i Naand.

## UTLEGGINGIN.

ÞEtta Samtal vors Frelsara, er Hañ hafde vid Sijna Pria Lærisveina, hvoria Hañ hafde til sijn tekid, ad þeir skilldu hia honum vera, i hañs Angist, verdur oss fyrer Sioonir leydt, bæde i þessum og hinum tveimur fyrer farande Textans Ordum, og hefur sier-

ſierdeilis i ſier Priaar Greiner iñefal-
dar.

Su 1. Er þad holla Raad, ſem Lau-
ſnareñ giefur hier ſijnum Læreſveinum,
i þvi hañ bijfalar þeim ad Vaka og Vidia,
og þad ecke alleinaſta Einuſiñe, helldur
i þeilar Priaar Reyſur. Vit þu nu,
Chriſtiñ Madur, hvor hellſt þu ert, ad ſlijkt
Bod nær eirniñ til þijn, þvi þad hañ
þeim ſagde, þad ſagde Hañ og ſeiger
øllum oſs: Vakid þier. Marc. 13. Ver-
tu þar fyrer ecke þeſſara Orda forgleym-
añlegur Heyrare, helldur þeirra Epter-
breitare, fyrer Guds og þiñar Velferdar
ſaker; þvi ad eins Prijtekur Lauſnareñ
þetta Bodord, ad þier og mier ſkule þad
i Eyrum loda, ad þu ſkuler behallda
Kleñinguñe, þvi þa er þeſs Von, ad þier
framfare j Efterbreitinguñe, nema þu
villier faa þvi ſtærre Fordæming. Marg-
ur er þeſs leinge minnugur, ſem hañs
Velunnari rædur hønum a ſijdaſta Tij-
ma Lijfs ſijns: þad maa ſia a Recha-
bitum, halldande ſier fraa Vijndrick-
iuñe, ad Bode Fødur þeirra. Øngvañ
Veluñara aattu betre, eñ JEſum, gley-
D midu

mdu þvi ecke hans Raade, helldur skrifadu þad a þijnar Hendur, alla Daga Lijfs þijns. Vak þu: Athugadu i hvorium Haska þu ert staddur, hvør ad er allmikell, og maattu hañ skinia, nema blindur sˈiert. Athuga þu þiñ Vanmaatt, hvørsu þu kant siaalfur i aungvañ Maata þier ad hiaalpa. Athuga þu, hvørsu Gud utrietter sijnar Hendur allañ Dageñ, a moote þier, hañ vaker i þvi ad medtaka, i þvi ad endurnæra þig, vak þu i þvi ad koma, vak þu i þvi ad blijda, Vak þu i þvi ad þioona Hønum i Heilagleika og Riettlæte, þaa ert þu goodur Voku-Madur; þvi þa vaker JEsus i þier og þu i hønum, og þetta er su Vaka, sem oß alla yfer Hofud aahrærer. Eñ sier i Lage hefur hvør og eirn vorra ad Vaka og vera ecke Hirdulaus i sijnu Kalle og Embætte, Ædra og Lægra; Þvi hrædelegur er þeß Þioons Afelles-Doomur, sem Hand-Verk giører af Svefne Svikseimdariñar, þar hønum er Vølvan hootad, hvørt sa sami a ad sier meira edur miña; eñ saa Þioon er sæll, sem Herrañ fiñur vakande þa hañ kiemur,

kiemur. Luc. 12. So sem oss heyrer nu øllum til ad Vaka, so heyrer oss og øllum til ad Bidia; Bidia (seige eg) Oaflaatañlega med Eckiuñe, Luc. 18. Ad Gud af Myskun siñe vilie frelsa oss, fyrer JEsum Christum, af Hende verra Mootstandara, þad er, af øllu þvi, sem oss vill hindra i þvi Gooda, eñ efla oss til øruggrar Framgaungu aa þeim saña Lijfsins Veige. Vante oss nu ecke þessa Bænar-Vænge, mun DRotteñ giøra vora Frelsan: An þeirra maattu alldrei vera, þu Guds Barn! Þvi hier er stoor Haaske aa Ferdum: Hier er ad bwast vid margvijslegum, lijka vel, øflugum Freistingum; Eñ þeir lypta Saalu og Huga þijnum til þeirra Himnesku Hæda, og gledia þig i Hrigdununn ørbiardañ; Þeir eru saa rietti Lykill ad Myskunar Hiarta Guds. Vante þig nu þetta Vel-luktande Reykelse Bænareñar, so vantar og þijna Saalu Lijfid, og allañ þessa sama Lijfs-Krapt og Andlega Hræringu, hvørsu vel sem þu ert añars ad Lijkamlegre Heilsu bwiñ; eñ hvørneñ mun tu þa kuña, aan þess Kraptar, ad stæck-

va þeim mikla Dalldar Flocke, er hier kiemur i Veg fyrer þig a Eydemørku þessa auma Lijfs? So leinge vañ Jsrael a Amalechitum, sem Moyses upphielt Høndunum, Ex. 17 Eñ sijge þær, þa tapade hañ. Eins er þvi og vared fyrir þijnum Bænar-Vængium, þeim Andlegu Moysis Hendum; Alldrei sigrastu til fulls af þeim Helvijtska Amalech, edur hañs Koppum, medañ þær sijga ecke edur letiast; Ad søñu reidist hañ þier fyrir þa Kappsomu Bænariñar Mootstødu, so hañ vill þig næalega uppsvelgia, ef hañ kyñe, eñ hlijtur þo med Skom̃ ad hallda undañ, so sem Jacob seiger: Standid i moote Dioflinum, so flijr hañ fra ydur, Jac. 4. Eñ taker þu til ad letiast i sañre Hlijdne vid þiñ Gud, samt sañre Astundan og Alvørugiefne Bænareñar, þa þiker Satan vænkast Raad sitt, og forsoomar sig þa ecke ad ellta þig, og ad Velle leggia; Fyrer þvi seiger siælfur Sañleikuriñ hier, er slijkt allt best visse, sijnum Læresveinum, sijnum Børnum, hvar fyrer þau skule Vaka og Bidia, sem er: so þau falle ecke i Freistne.

ne. Þetta Ord, Freistne, hefur þu, Guds Barn! vandlega ad athuga, so þu eignir pad ecke Gude, sem honum ecke heyrir til. Vijda kiemur ad señu fram i Heilagre Skrift, ad Gud hafe freistad þess og þess Astvinar sijns, og merker þa þetta Ord so miked, sem Reynslu edur Proofan, hvorrar David og æsker sier af Gude, Ps. 139. Og skiedur hun edur framkiemur optast i Krossi og Mootgaange ymislegum, og þad alltijd i hiñe bestu Meiningu af honum, so hañ reyne siña Barna Trw, Hlijdne og Polinmæde; ecke uppa þad, ad hañ sialfur vite ecke Stærd og Asigkomulag þessara og þvilijkra Dygda, er hañ plantad hefur hia siinum Elskendum, helldur so þær verde ödrum lioosar til Epterdæmis, nær þær skijna fagurt; Eñ nær þær eru nu daprar og lijtt-logande, leider hañ sialfa þa til ad þeckia soddañ siñ hörmulegañ Veikleika, med heitum Taarum, og stirker so sierhvört sitt gott Barn i þeim sijdañ, so þau ad Lokum Lijfsins Coronu ödlast meige. Eñ þu, Christeñ Madur! skallt sterklega varast ad freista þijns Guds,

ds, edur reyna hañs Almætte og Sañleika, med nockrum Oleifelegum Hætte, so og ad vera ødrum Orsøk edur Aeggian þar til, þvi slijkt er hid Hææskasamasta Vogunar-Spil, og er bæde straffad og fyrerboded af Gude. Þetta Ord, ad freista, edur leida i Freistne, merker og Stundum ad koma einum i Skada og Oluckn, og heyrer þad Dioflinum til, eñ alldrei Gude. Og af þvi Satan leitast alltijd vid ad sigta oss, med soddañ Adferd, sem Hveite, þa kallast hañ med riettu eirn Freistare, Matth. 4. Þetta sitt eytrada Skeite feste hañ i Hiarta vorra Fyrstu Forelldra, hvar af þau, og vier med þeim, bidu eirn Obærelegañ Skada og hlutu svijdande Saar, hvør Satan eñ þa Oskalldañ endurnijar, brwkande þar til ymisleg Medøl: Stundum vort eiged Holld og Blood, þess Girnder og Tilhneigingar, þess Istoduleyse og Hofmood, þess Upphefd og Nidurlæging, og Stundum Heimiñ med adskilañlegu þvi, sem þar er iñe; Og Stundum freistar hañ Mañs med Mañe: og hvør kañ hañs Veide-Brøgd upptelia? Hañ

Hañ er Puſundfalldur Viela-Smidur. Gud glæſe vier þecktum ſlijkt! Meñ ſeigia, ad ef einhvor þeckte og viſſe øll Skarfarins Skrimſle, þa mundi hañ ecke i Siooiñ dyfa ſijnum rauſta Fijngri. Være ſo vel, ad þu, Syndug Mañeſkia! þeckter allar Dioſulſins eytradar Veidebrellur, edur villder þeckia þær, ſem þier eru Stundum med Lit og Audkieñe ſyndar, i Orde DRottiñs, þa munder þu, med meire Otta og Andvara, verka þiñar Saaluhiaalpar, helldur eñ nu ſkiedur; þu munder þa, ſeige eg, med meire Aſtundan Vaka og Bidia, ad þijn Trw þrotnade ecke, hvad og JEſus munde þa ſo fws, jaa fwſare, veita þier, ſem þu værer ad þiggia; þvi fyrſt hañs Myſkun leyſer þig og mig wr Snøruñe, þegar vid erum i hana komner, hvad vier aumer og Oþacklaater Daglega reyna faaum; mikilu framar munde hañ fws ad varna oſs vid heñe fyrer-fram, ef ecke være Skortur aa þvi, vid eigum til ad leggia, ſem er: ad VAka og BJdia. Þngvu ad ſijdur laat þier ſagt vera, Guds Barn! ad þegar nockur Freiſtne vill þig iñtaka, vere

hun hvør hun vera vill, ad þu af ollu Hiarta iñilijer til DRottens med Bæniñe, ecke eitt Siñ, helldur alltijd, og seiger: Miñ Gud og Hiaalpare, miñ einaste Hlijfdar=Skiolldur! Eg saarbæne þig i JEsu Nafne, laat mig Aumañ siña þijna Trwfeste, laat mig ecke freistast yfer Megn fram; Laattu þiñ Krapt vera i mier veikum maattugañ, gief Freistingune þañ Enda, ad eg faae Sigureñ; Þvi vijker þu eitt Steinsnar fraa mier, þa er allur miñ Maattur fareñ, Vertu þvi hiaa mier, Lifwfaste HErra, Þviad Kvollda tekur og aa Dageñ lijdur. Jaa, þvi aakaflegar skalltu bidia, sem þu leingra framleiddur verdur i Flood þetta, ad Dæme þijns Lausnara. Þvi meir sem Verolld þesse Mañspillest, þvi meyre Þorf hofum vier aa þessare Bænar=Akiefd. Jaa, i Freistne Gyrndaña hiña vondu, i hvørjar Heimuriñ nu allt ofdiwpt sockeñ er; J Freistne vondra Aeggiana Diofulsins, Heimsins og Holldsins, miñstu, Christeñ Madur! þessa Heilræðis, ad trwa ecke strax hvørium sem einum Anda, helldur ransaka þa vel med

med Guds Orde, hvørt þeir sieu af Gude edur hañs Jnblæstre, edur sieu þeir vondr, og þiñar Saalar Velferd Oholler og skadleiger: Staadu þig vel uñ þetta, aadur þu þeim samþycker, og laattu ecke þeirra glanslega Asynd iñtaka strax þitt Siñe; Veg þu þa helldur gloggt i þeim riettu Metaskaalum. Til alls þessa, og añars goods, er Andeñ reidubwcñ, eñ Hollded er veikt, seiger Endurlausnareñ. Vor Naattura (edur Saalar og Lijkamans Megn og giørvaller Kraptar, so sem er Ville, Gyrnd, Skilningur, og þvilijkt) staklega fordiørfud af Uppruna Syndareñar Spillingu, i hvørre vier vorum olldunges dauder, rijker so sterklega i oss, eñ þo vier sieum af þeim Dauda uppreister, fyrer Almættes Krapt og Mystkun Guds, ad saa ytre Hollds Saurugleike, er Postuleñ Petur umtalar, rijdur opt Slig aa oss, so vier faaum þraaliga ecke þessum aadursogdum og þvilijkum Andlegum Erfidesmunum afkastad, edur þionad Gude og Velferd Saalar vorrar, sem bære; Jafnvel þo Andeñ raade oss slijkum Dofeñleika og Neñingar-

 leyse

leyse iburtu ad brinda, og take oss sterkañ Vara fyrer Syndeñi, lijka eirneñ sañfære oss af Orde DRotteñs, ædurheyrdu og medteknu, ad slijkt Andvaraleyse og Synda-Svefn sie fordæmañlegur. Og þetta er nu þad, sem St. Paall særlega klagar yfer, æsamt mørgum Guds Astvinum, er nockra Karlmeñsku syna vilia i Strijde þessu, Er hañ seiger: Þad Gooda sem eg vil, þad giøre eg ecke, helld ur þad Vonda, sem eg vil ecke, þad giøre eg. Epter þeim iñra Mañe, seigist same Postule, hafa List til Guds Løgmaals, eñ siñe þo añad Løgmaal i sijnum Limum, þad ed moot strijde sijnu Hugskots Løgmaale, og fære sig herteken i Syndariñar Løgmaal, hvørt ad sie i sijnum Limum; Og eñ seigest hañ þioona med Hugskotenu Guds Løgmaale, eñ med Holldinu Syndariñar Løgmaale, Rom 7. Hafe nu þesse Guds Astvinur mætt þetta med Sañe um̃ sig jæta, hvad þa nu sumer af oss Andvaralauser? Fyrer þvi er oss hin stærsta Naudsyn æ, ad strijda, og leggiast ecke strax flater fyrer Fætur Flandans, i hvørt Siñ, er hañ sig upp-

upphefur, jaa, ad Vaka og Vidia, ad þad gooda Verked, sem DRotteñ hefur i og med oss uppbyriad, vilie hañ stirkia, ebla og stadfesta, allt til Tilkomu-Dags JEsu Christi, aa hverium þetta hid Forgeingelega skrijdest Oforgeingelegleikanum, og vier fullkomeñ Madur verdum, saa hañ er i Mæling fullkomlus Alldurs Christi, Eph. 4. Hvad oss veite saa lifande Gud i JEsu Nafne, Añ.

2. Greiniñ, sem oss er af þessum Texta athugandi: høndlar um Fyrst: hvørn Stad þetta holla Raad Frelsarans haft hafi hia Lærisveinunum: hañ fañ þa i heilar þriar Reysur sofandi, nær hañ villdi hafa fundid þa vakandi; Þeir sofnudu þvi framar, sem hañ bad þa og raadlagdi þeim framar ad vaka, hvad hønum var eñ meiri Pijnu Auki; Þeirra Augu voru þrungiñ af Svefni, þeir voru sofandi wt af Hryggd, þeir vissu ecki hveriu þeir svøru du hønum. Hier uppfillist þad nu fyrst, sem Andi DRottiñs seigir hiaa Esajam, undir Christi Persoonu: Eg Foot-tred Vijn-Pressuna (þad er Guds Reidi Prwgu) eirn samañ, og þar er eingiñ af Fool-kinu

kinu medur mier. Es. 63. Hviad JEsus er sa einasti Medalgaangari milli Guds og Maña, sem oss hefur Lijfid og eilijfa Saaluhiaalp utvegad, og ecki er i nockrum ødrum Heilsugief. J Aňaň Stad maa hier siaa þaň riettа Speigil, ecki alleinasta Heimsins, sem allur liggur i þvi Vonda, helldur og vorn, sem heita vilium Christi Born og Lærisveinar, hvoria þaň af Giædsku siñi leidt hefur affijdis fraa Heiminum iñ i Grasgard Christum siñar; uppaa þad vier skylldum vaka, og kuñgiøra Dygdir haňs, sem oss hefur kallad fraa Myrkrunum til sijns daasamlega Liooss, og færa honum sæta Avexti Gudlegs Framferdis; Hvar uppaa vier høfum honum og eirn dijraň Eyd svarid i Skijrn vorri. Nu er þad ecki so stoorlega ad undra, þo Bernska Ungdoomsins, sem ecki veit ad gløra Greinarmun, hvad hægra og vinstra er, svæsi oss nockud frekt, einkaňlega, þegar Mis-brestur verdur aa Christelegum Aga Forelldraña, Guds Uñbods Maña yfer þessu Ungvidi: hvort Uñbod ad verdur svikssamlega stundad af sumum, aa þessum Døgum; þvi gott

væri,

være, ad ecke fiñdest þeir Foreldrar, sem sijna sig i þessu framar Fiandans, eñ Guds, Umbods meñ, nærande framar Born sijn aa Briioosta-Mioolk Dalilæ, matgslags sindsamlegs Giaalijfis, helldur eñ þeirri hreinu Mioolk Guds Ords og Otta, sem þo med sier færer Skilning Saaluhiaalparñar, og reidast þvi eirniñ stundum, ef nockur vill sijna Þeim Veigiñ til Himnariikes edur Dugnadar nockurs, til hvers Þeir meina ad all-tijd mune eitthvad verda, þo faatt sie uñ haft; Hvad ad er stoor Blindne. Hier med eru ecke meinter, Þeir sem Bornum og Hiwum ecke spara Gudrækelega Uñvondun og Aminiñgar, þo eingeñ sie fullkomeñ, og hafa þeir leist Hendur sijnar, hvorniñ sem sijdar fer. Þegar vier drøgunst framar aa Legg, og eigum sialfer ad biggia uppa þañ gooda Grundvoll, sem Gudhrædder Foreldrar vorer lagt hafa, hiaa allmørgum af oss, hvors vier ættum med Packlæte ad miñast, bæde vid Gud og þa; Þa vill þesse Svefneñ Giaalijfesins ecke mynka, þa er Dioflenum oft offrad Bloome

Ueskunar, er eirn Gud ætte, og hefur sier skiled; Pa hefur Roboam oft ad litlu þau goodu Raad Olldunganna, er stodu fyrer Fødur hans Salomone, enn fylger helldur, sier til Ogiæfu, Orræde Ynglinganna, sinna Lijka. 1. Reg. 12. Pa hæder Ungdoomurenn oft þann skøllootta Eliseum, sier til Olucku, þo stundum kome seirna framm. 2. Reg. 2. Pa sefur Astundan Mannkostanna og riettrar Undergiefni vid yferbodna, enn Ohlijdne, Drembis og ymislegt Apaspil vakir aftur i stadinn, og þetta þiker allt fullvel skarta, hvad sem adrir af Guds Orde oss þar um seigia. A þeim fullvaxna Manndooms Alldrinum, þegar Skinsemenn ær ad vera kominn a sitt effsta Sæte, veiter mørgumm af oss hvad tregast ad vaka i þeim Hlutum, sem Guds eru, so hann faai sinna Punda med Abata krafed; Pa eru Augun so þrwngenn af Svefni, ad ofmarger af oss gieta þa ecke, riettara ad seigia, villa þa ecki, siaa, edur skignast efter Veige Saaluhiaalparinnar, med nockri Gudrækelegre Hirduseme sijns Embættis; Pa spaa nockrer af Spaamønn=

mönunum Stoormeñinu Achab Sigur-
Før, hvørsu sem hañ hagar sier i Lifnad-
enum, hañ fær og eirniñ marga Dom-
endur, er strax leggia bæde Eyrun vid
Akiæru hañs i moot Naboth, og hañs
Eign, og leggia aa Alyktunina, efter
sem hañs Magt heimuglega fyrersetur,
jaa, þesser reka hvør efter ødrum, so
þeir meigi fordiarfa hiñ, af Mich. 7.
Þa vilia Gergesenis Meñ, fyrer hvørn
Mun, bijhallda Svijnum sijnum, og
firr maa JEsus vijkia i burt, eñ þau
missest: Eñ hvar Elska til þeirra stijgur
hærra eñ Saalargagnsins, þar er hañs
ecki ad vænta.

Læresveinarner sofnudu þvi meir, sem
Christur aamiñte þa oftar til ad vaka:
Hvar ecke helldur gildte hañs Boon. Ecke
er þvi betur varid fyrer sumum vorra,
nema midur sie: Løgmaals Predikareñ
Michæas verdur nu oft sleigeñ, og Am-
os hefur Leyfe til ad þegia og vijkia i
burtu, so Þeir Onaade oss ecke med
Haavada sijnum; eñ vid Joels sætu Ord
og Bænastad skipast ad Vonum harla
lijted, er hañ og ecke sa eigiñlegi Tift-
unar

unar Meystareñ þessara til Christum; Liossins Birtu hola illa Svefnþrwngiñ Augu: þetta sijner saa um oss saññsagdt vera, sem veit hvad med oss er, Jesus: Liosed kom i Heimiñ, seiger hañ, og Meñerner elskudu meyr Myrkred eñ Liosed, af þvi ad þeirra Verk voru vond, Joh. 3. Ecke er þad nu hier firer Olijklegt, þo marger af oss, sem so erum fast sofandi og forblindadir, glætum þess hardla lijtid, hvoriu vier svorum Christo og trwlyndum Pioonum hañs, bædi med Ordum og Verkum, til þeirra goodfwslegra Aminninga, og viti ecki hvad þeir seigia eigi uñ riettañ Christiñdoom: Eg ætla og, ad þad vilie stundum heita Afsvar, Þøgn eda Reidi, jaa, ad nockrum þyki og, ad hañ meigi fullvel standast, hvørniñ sem þessu og þvilijku er varid, og sitt sie allt og ædur Himnarijki.

Gud upplijwki vorum Augum og leysi slijkt Hæskasamlegt Vandræde vort i JEsu Nafni, so vier ecki med þad i Daudanum wt af sofnum!

Þad 3. Er vier høfum hier ad skoda, er Christi Avijtun, hvoria hañ giordi fyrst Petri, seigiandi: "Simon, sefur þu, formaatter þu ecki eina Stund ad

Vaka

vaka med mier?" Hvar med hañ miñti Petrum a Loford sitt og stoor Uñmæli, ad alldrei skylldi hañ a hønum hneixlast, eñ nu giærti hañ ecki eina Stund med sier vakad; Og undir eins amiñir hañ alla þa seigiandi: "Þvi sofid þier! Þad er noog, Siaid, su Stund nalgast og er komiñ, ad Mañsins Son mun ofurseliast i syndugra Hendur; siaid, saa er mig svijkur hañ er i Nand."

Þessa Amiñing meigum vier og med øllum Rietti til vor taka, aumir og athugalausir; Þvi hvad er oss tijdara, eñ losa Gudi øllu føgru, bædi Aflati Syndaña, og Ydkun Gudrækniñar, sem miøg skamt vill na, þar vier, eptir medtekna Aflausn, gaungum til sømu Synda og adur, optsiñis vijsvitandi: Hvad virdist þier, syndugur Madur! Mun sodd-añ ecki vera hæskasamlegasti Hlutur, ad forsma þaññ Guds sijns Langlundar-Gied og mikla Þoliñmædi? Eñ i slijku Stiñuleysi elur þo margur allañ siñ Alldur, ei olijkt og Achab, er selldi sig ad giøra illt fyrir DRottni, edur þær oforsialu Jomfrwr, hvorra Straff vier heyrt

yrt hofum, eñ raafum þo med þeim i Svefninum, næste faatækir af Vidsiniøri riettrar Trwar, eñ vitum þo ecki nær fyrir slijkum Hyrduleysingium, sem vier erum, til fulls lokad verdur Naadariñar Dyrum; Noogu marga fiñur hañ þa ad søñu, þegar þeir seigia: HErra, HErra! Og gagnar þeim þad ecki mikid til Himnarijkis; Þad eru ecki þeir Kappsmunir, sem þiena til Iñgaungu uñ þad þraungva Portid; Filgi þar ecki meyra med: Heyrum hvad DRottiñ seigir hier uñ, Num. 15. Ef ein Saal giörir nockud af siñi Praakelkni iñlend eda framandi, hun hefur foraktad DRottiñ, soddañ Saal skal afmaad verda fraa sijnu Foolki. Nu villtu seigia: JEsus hefur leyst mig af Løgmaalsins Bølvan. Þad eru ad søñu eilijf Sañindi, eñ þo hefur ecki JEsus giort þad til þess, ad þu skulir blijfa i vitañlegri Þriootsku Syndariñar; Þvi þa Foot-tredur þu Blood hañs, og verdur þa þijn Fyrirdæming þvi stærri; Vid hvoriu hañ lætur vara þig, sem goodur Fad'r, ohlijdid Barn, eñ villt þvi þo ecki sæta; Edur hefur þu ecki

heyrt

heyrt þessi eigiñ Ord hañs: Ad sa Pioon, sem viti Vilia sijns HErra, og tilbwi sig ecki, giøri og ecki þad hañs Herra baud, hañ mun faa mørg Høgg? Luc. 12.

Betra þig nu þar fyrir, betra þig, segi eg, ef þu villt ecki i eilijfañ Elld hrapa, betra þig aa medañ þu eñ lifir, og hefur Tijmañ; Þessi uñlidni Svefn er ærid noogur: þvi sefur þu? Daudiñ hefur mørgum ovart komid; Veitstu þad, hañ kuñi ecki ad giøra þier hid sama, hañ stendur fyrir þijnum Dyrum, og seigir þier ecki fyrir fram, nær edur hvørniñ hañ vilie aa þig rꝏdast; eñ nær hañ hefur banad þier, þa kiemur Doomuriñ aa eptir, hvar Diøfulliñ er til Stadar og reidubuiñ ad draga Sꝏlina i eilijfañ Elld; Hiñ rijki Sælkieri maa øllum hyrdulausum vera eitt Eftirdæmi, so þeir laati sier hañs Vijti ad Varnadi verda. Tøkum nu þar fyrir i Tijma til þeirra riettu Vopna, og iklædum oss Guds Herskrwda, so vier standa kuñum, fyrir Guds Adstod, i giegn Uñsꝏtrum Diøfulsins, hvør nu ædir sem olmt Leon aa þessu Veralldar Kvolldi, og veit

 ad

ad hañ hefur stuttañ Tijma ; Sofum ecki, lijka sem vier siaum hina adra sofa, helldur vøkum og verum sparlijfir, hafandi til Reidu heit Ydrunar Taar, so vier med þeim alltijd væta kiñum Fætur vors blessada JEsu, og holldum fast uñ þær med Høndum Trwariñar, so mun hañ og vaka i vorum Hiortum, med sijnum heilaga Anda, a medañ vor stutti Hiervistar-Tijmi varir, og er þad hin mesta Gledi, og hiñ stærsti Abati, þvi þa eigum vier fulla Von eilijfrar Roosemdar i Himneskum Fognudi eptir þetta Lijf, hvad oss øllum veiti hiñ Lyknarfulli Gud fyrir JEsum Christum alls Mañkynsins Endurlausnara, AMEN.

# V. Cap.

Uñ Gydingaña Komu i Grasgardiñ.

## TEXTINN.

OG jafnsnart sem hañ var eñ ad tala uñ þetta, Sia, eirn af þeim Tolf, sem Judas hiet, þa er hañ hafdi nu til sijn tekid Flock Maña, og Pienara Kieñimaña

Høfd

Hofdingiañа og Phariſæaña, kom hañ þangad, og med hønum Flockur mikill, med Bliſum, Lompum, Sverdum, Staungum og Vopnum, wtſendir af Kieñimaña-Hofdingium, Skriftlærdum og Olldungum; Og hañ gieck fyrir þeim. Sem JEſus viſsi nu allt þad, yfir hañ atti ad koma, gieck hañ fram̃ og ſagde til þeirra: Ad hvørium leitid þier? Peir ſvørudu hønum: Ad JEſu af Nazareth. JEſus ſagdi til þeirra: Eg em hañ: eñ Judas, ſa ed ſveik hañ, ſtood eyrniñ hia þeim; Eñ ſem JEſus ſagdi til Þeirra: Eg em hañ: Hørfudu þeir a Bak aptur og duttu til Jardar. Hañ ſpurdi þa eñ einu ſiñi: Ad hvørium leitid þier? Eñ þeir ſøgdu: Ad JEſu af Nazareth. JEſus ſvaradi: Eg ſagdi ydur þad, eg em hañ. Þar fyrir ef þier leitid ad mier, þa latid þeſsa i burt fara. So ad uppfylltiſt þad Ord, hvad hañ hafdi ſagt: Ad aungvum glatadi eg af þeim, ſem þu gafſt mier.

UTLEGGINGIN.

AF Upphafi þeſsa hellaga Texta verdur þier, Chriſtiñ Saala! ſijndur: 1. Tijmiñ, nær Ovinir Frel-

sarans vors JEsu Christi komid hafi, til ad fanga han og binda, sem var; Þegar han en giørdi sijna hiartnæma Bæn til Fødursins, og aminti hvad mest sijna Læresveina, til ad Vaka og Bidia, og sagde þeim, hvijlijk Hætta a Ferdum være. Þetta Efterdæme leider oss øllum berlega fyrer Siooner, hvørsu ad Laan og Lucka Veralldar þessarar sie hvøriu Hioole valltare: Hvad þeir aller sanad hafa, sem nockurn minelegan Kinheft hafa feinged af henar fliootre Umbreiting, en þo ad Ovorum sier; Og hefur þeim eirna mest bilt vid ordid, hvørium hun sig tied hafde, so nockrum Tijma numde, sem eirn þægan beggia Skauta Byr, nalega i sier hvørtu þvi, er þeir villdu adhafast, og neyttu þess eirnin, En braast þeim loksins, og þad a einu Augnablike, so þar foor allt sijdan ad Olæge, af þvi þeir kunu ecke adur ad hafa sig i Hoofe, þar sem þeir voru henar Svip-Vindi okiender. Reynde þetta Aman Agagiter, sem fra sijnum mikla Uppgange, og fra þeim Konglegu Rjettum var til Galgans

færd-

færdur. Eſt. 7. med fleyrum ødrum, þo ſumra Fall hafe miña orded. Eñ þeir, hvørium Hiool þetta hafde ſkialldañ miøg gledelega geinged, og vered i møргu mootdrægt, hvørier kroſſfeſter hafa vered. Heimenum og Heimureñ þeim, efter Vilia þeſs, ſem alls aa Raad, þeir, ſeigi eg, hafa ecke haft ſo mikla Orſøk, til ad undra ſig ſo ſtoorlega hier yfer: er þad og oftar Skierfur þeirra, ſem JEſus elſkar, og hefur af Heimenum utvaled, ad þeim ſømu hafnar Heimureñ, med ſijnu Medlæte, lijka ſem ſiaalfum hønum, og lijtur ſkialldañ hijrlega til þeirra: Epter þvi þurfum vier og raunar lijted ad ſiaa, firſt ſlijkt er ſo fallvallt og forgeingelegt, þo uñ Stund vara kiñe. Peckium helldur vort Tilſtand af þeſſu i Heimenum: Medañ vier dvelium hier, er oſs ein Baarañ vis, þegar øñur er varla falleñ, þvi hier er ſkialldañ Eymd ein, eitt Vei er varla afroked, adur eñ añad birtiaſt; Pegar þær glooande Pijlur Dioſulſins, þeir vondu Paankarner, lata af, eru þau ogudlegu og Hneixisfullu Efterdæmi

me Verølldariñar strax fyrer Augun komiñ, so ad eitt Olwped er hier fram og añad þar fram, og Vatns-Ølldurnar gaanga lukt yfer. Ps. 42. Þegar Jacob er skileñ vid Laban, mæter hönum Esau. Þegar Job hefur feinged eirn Hrygdar Bodskapiñ, fær hañ añañ og hiñ þridia strax epter; hefur hañ þvi riett talad um þetta Lijf, sem framar mæ Daude eñ Lijf reiknast, þar hañ þvi vid sijfelldañ Bardaga samlijkir. Job. 7.

So leinge sem eg nu vesæll og vanmættugur hrekiast skal i Herbwdum þessa Oyndissama Lijfs, hiñ minste medal allra þiña Strijds-Maña, miñ blessade Herra JEsu! þa bid eg af Hiarta, þu vilier uña mier, og øllum, þiñar gledilegusu Naavistar, þvi þa þarf eg ecke ad hræðast nockra Olucku, þaa þieno mier aller Hluter til hiñs Besta, eirneñ þo eg raafade i mirkvum Dal og Daudans Skugga, þaa mun samt þiñ Vøndur og Stafur Hugsvala mier. Ps. 23.

Giæte nu þessa aller þeir, sem þikiast fast standa, og vel um sig hwed hafa a Hioole Luckuñar, ad þeir falle ecke, jaa, þeir sem yfer añara Mootgaangs Billtum hlacka, og adskillañlegañ Doom leggia a Pioona þa, sem þo standa og falla sijnum HErra, hvøria hañ gietur, og mun eirniñ, vidrietta, þeir sem seigia ;

eg

eg em rijkur, og hefe olldungis noog og þarf einkis: þier kuñed þo bæde fatækir og hwngrader ad verda, þvi þad kañ fyrer Kvølld-Tijmañ odruvijſe ad verda, eñ þad var um Morguneñ, og ſlijkt allt ſkiedur ſnarlega fyrer Gude. Syr. 18.

2. Verdur oſs hier af Textanum ſijnt, hvørier þeſſer Oviner og Offætiendur HErrans Chriſti vered hafe. Hiñ Firſte og fremſte af þeſſium var Judas, eirn af hañs Toolf Læriſveinum, hvøria Jeſus hafde utvaled, og opeñberad ſijna Dijrd med morgum Kraftaverkum og Daaſamlegum Kieñingum, hvøriar ad voru Vitne allra þvilijkra Hluta. J Før med Juda, ſeiger Textiñ og, ad vered hafe Pioonar þeirra ædſtu Kieñimaña, Phariſæaña, og hiña yppurſtu Olldunga Gydinga. Auglooſt er þad hier af, ad øngvum duger þad ſtoora Nafn, ſæ mikle Vijſdoomur og Kuñatta, edur hæ Embætte og Ærutitlar til Saaluhiaalpar, utañ þeſſu ſie filgiande ſu ſaña Gudhræddſla, ſem er til allra Hluta nytſamleg, Og hefur Fyrerheit þeſſa og hins Efterkomanda Lijfs; þvi hvad æu heñar er

haatt hiaa Mönum, þad er svivirde-
legt fyrer Gudi; þad skal ecke miked, ad
bera einunges Christed Nafn, sie þvi ecki
fylgiande Christelegt Framferdi; edur
þo marger bugte sig firer einum kolkud-
um Molldar-Vegg, sem ecke þecker, edur
vill þeckia, Gud og siaalfañ sig: Hvad
skal þeim gagna Herra Nafned, sem
er Prææll Syndariñar, Athuga og Ydru-
narlaus, edur Maalsniøll Twnga, þeim
ecke giefur Gude Dijrdina. Allar þær
goodu Gaafur, sem ofañkomu fraa Fød-
urnum Liossins, villa verda þeim til
stærri Fordæmingar, aa þvi stranga alls-
heriar Dijnge, er þær þaadu og ecke vissu
ad brwka þær, utañ Veitaranum til
Ohooknunar. Meñ kuña vel margar
þær Afbataner siñar vonduRaadsmenſku
hier ad framleggia fyrer Meñina, sem
siaa þad fyrer Augun ber, og ecke kuña
neitt framar, eñ deyda Lijkamañ, hvør-
iar allliijted gillda munu fyrer þeim, er
Hiartad ranſakar, og Saalu og Lijfe
kañ ad tortijna i Helvijte. Allt þetta
maa siaa hier aa Juda og Samlags Bræ-
drum hans; hañ var Læresveirn Christi:
þo

þo ser hañ hier undañ ødrum, til ad letta sijns Meystara og forrꝍda hañ; hañ var eirn af þeim Toolf, og snijr þo fra þeirra Selskap, eñ giefur sig i Flock Ogudlegra: hañ hafde þeigid af Christo margar goodar Velgiørder, margar heilsusamlegar Amiñingar og mørg Heilrꝍde, allt þetta launar hañ illu einu, hañ borgar ecke einasta hinar dijrmꝍtustu Perlur med Ogialldgeingre Vøru, helldur miklu framar med bañvꝍnu Svikſemdar Eytre, og vijsar til, hvørniñ hañ ꝍtle med þad ad høndla, so þiñ saklausa Jesu skuli ad fullu hrijsa: Jesus hafde kiendt hønum ad taka til andlegra Vopna, til Varnar Sꝍlu siñe: eñ hañ brwkar hier lijkamleg, so hañ fꝍe Lijsed sviked af sijnum Velgiørda Herra; so nꝍr þad nu vel til þessa Svikara, og allra hañs svipslijkra Stallbrꝍdra, sem fundist hafa, og eñ nu fiñast kuña, þo efter Maña Doome sie miña vared i þeirra Athafnir, sem Sancte Petur seiger; ad þvijlijkum sie betra ad hafa alldrei þeckt Gøtu Riettlꝍtisins, eñ þad þeir þekte hana, og umvende sier fra þvi heilaga Bodorde, sem

sem þeim er giefed, þvi sanlega hender
þa þad, sem i sønum Ords-Kvid plagar
ad seigiast; ad Hunduriñ etur upp aft-
ur sijna Splju, og þveigid Svijn vellt-
ir sier aftur i Saurnum. 2 Pet. 2. ha-
se Diøfulleñ, Ovinur allrar Riettvijse,
saad slijku Illgresi, sem Judas var, mi-
dt i Akur sialfs Vijngards Herrañs JE-
su Christi, edur medal hañs Skoola Ba-
rna; þa er ecki ad undra, þo hañ nu æ
Døgum reyse Capellu sijna vor æ med-
al, edur i Christelegre Kyrkiu, og fæi
marga Erfidara þar uppa ad biggia, sem
hafa Yferlit gudlegs Athæfes, eñ þess Kr-
afte afneita þeir, hvøria Guds Ord kie-
ñir ad þeckia af þeirra Avøxtum: nockr-
um lijser Paulus med Lit og Audkieñi,
eftir þvi sem nu sumir fiñast, einkanlega
eru þau Audkieñi uppteiknud øndvert i
2. Pistle til Tim. 3. Cap. og hvørn-
iñ su Trigdar-og Dygdasnauda Verølld
laune þær bestu Velgiørdir, þad sijner
Micheas, seigiande: Eingeñ true sijn-
um Næunga, eingeñ treysti æ Høfd-
ingiana, vakta þu Dyr þijns Muñs fyr-
ir þeirre, sem sefur i þijnu Fæange, Son-
ureñ

uriñ foraktar Foduriñ, Dootturiñ setur sig upp i mooti Mooduriñi, og Sonar-Konañ i mooti Moodur-sijns Mañs, og Mañsins Ovinir eru hañs eigid Heima-Foolk. Mich. 7. Eru og þessu samhli-ooda Christi Ord: Matth. 10. Hvar hañ og eirniñ þvi yfirlijsir, ad þeir sem slijkt lasti og fyrer þad awijti, muni ad Hatri hafdir verda; Jaa, þad meira er, saa sem ecki vill filgia þessum, hañ maa bw-ast vid ad verda þeirra Herfaang. Es. 59. Þar hlioota ad vera Flockadrættir ydar aa milli, so ad þeir, sem riettsiñadir eru, opiñberir verdi ydar aa milli; seigir St. Paall; Mun þvi þetta Jllgresi hlioota ad vara til Kornskiern Tiimans aasamt med Hveitinu. Allt og aadur skylldi si-erhvør vorra sem best sitt Raad vanda, og afklædast ecki vijsvitandi Christo, med Gudlausu og Svikfamlegu Framferdi, hv-ørs Hegnari ad DRottiñ er, þvi Raang-læti þess raanglaata mun yfir hañs siaa-lfs Hvirfil falla, og hañs Olucka mun hønum i Koll koma. Ps. 7. Gaunguni i Lioose Guds Sañleiks Orda, hvort oss giefst, so mun Liossins HErrañ JEsus grey-

greyda vorar Fætur fram̃ aa Veg Fridarins.

3. Verdur hier gieted þess Samtals, er Lausnaren̄ hiellt vid sijna Ovine. Af hvørtu vier, Fyrst: siaaum han̄s dioupustu Hlijdne, er han̄ audsynde sijnum Himneska Fodur: Han̄s Guddooms Alvitsku, fyrer hvørre ad eckert er huled, var ad soñu auglioost, hvad margfallt Bryxle, Kvøl og Haadungar yfer han̄ gaanga aattu, so sem Texten̄ hier seiger: ei ad sijdur gieck han̄ siaalfviliugur i moote sijnum Ovinum, og gaf sig i þeirra Hendur, lijka sem Lamb, þad til Draaps er leidt, og Saudur, er þeiger fyrer þeim, er han̄ klipper; Epter Spaadoome Esajæ: hvørre han̄s Omælan̄legre Hlijdne Paulus eirnen̄ hroosar, seigiande: Han̄ Lijtelæckade sig siaalfan̄, og vard hlijdugur allt til Dauda, jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Ydur til Lijfs-Hiaalpar hefur Gud sendt mig hijngad, sagde Joseph fordum vid Brædur sijna, þegar han̄ liet þaa þeckia sig, Gen. 45. So hefur og JEsus laated oss kun̄uga verda sijna Hlijdne, ad vier þar af siaa mætt-

um

um, ad hañ ordeñ være oss Orsøk eilijfs Lijfs, og fullur Betalingur vorrar Oblijdne. Hvilijka vier eigum nu ad audsyna oss hønum aptur i moote, pad er audsied hier af, sem er: hlijduga og audsveipna Elskendur: ecke þaa, sem seigiast vilia fara, þegar hañ skipar, eñ fara þo ecke, þvi þad er Galldra Glæpur; helldur þaa, sem hier epter af Hiarta ydrast siña Mootmæla, og hlijda hañs Befalningu af fremsta Megne, i øllu þvi hañ fyrerseiger. Læresveinarner geingu i burt, og giordu so sem JEsus baud þeim, Matth. 21. Førum, og giørum slijkt hid sama, Þar til hiaalpa oss, O JEsu! Þu sier af þessu Samtale, i Añañ Stad, Guds Barn! Magt þijns og mijns HErra JEsu: Hañ seiger hier til siña Ovina: Ad hvørium leite þier? Og þad Tvijtekur hañ. Þeir svørudu: Ad JEsu af Nazareth. Hañ seiger: Eg em Hañ. Af þessu ræd eg, ad Oviner hañs hafa ecke i þad Siñ visser vered þar uñ, ad hañ være saa, vid hvørn þeir toludu, og hefur hañ þvi hier med aan Efa opnad þeirra Augu, ad þeir mættu hañ þeckia, Lijka eirneñ,

eñ, nær þeir fiellu til Jardariñar, vid ha-
ñs Andsvar, hafde hañ sig hvørge ꝏ Flo-
otta; Helldur beid þeirra Adgiørda vid
sig, og lofade þeim ad giøra sitt hid frek-
asta; So var þad þa Lausnarans livvf-
ur Villie, ꝏn nockrar Þvijngunar O-
vinaña, ad lꝏta sig kvelia i þiñ og miñ
Stad, Christeñ Sꝏla! lijka sem hañ sa-
gt hafde: Eingeñ tekur mitt Lijf af mi-
er, helldur legg eg þad af mier sialfur,
Eg hefe Valld til, þad af ad leggia, og eg
hefe Valld til þad aptur ad taka, Joh.
10. Eg fæ þad og hier af skyniad, ad
þar sem eg er eirn Limur mijns JEsu,
þo veikur sie, þa kuña ecke Oviner mijn-
er, med øllum sijnum Heiptar Huga, ad
skierda eitt Haar ꝏ mijnu Hofde, edur
mier hid minsta Mein viña, nema JE-
sus leife; eñ friꝏlst ꝏ hañ, ad brꝏka
þa Svipu vid mig, sem hañs Millde þock-
nast; Þvi vil eg þessum Davids Ordum
þacklꝏtlega samsiña: Ef DRottеñ være
ecke hiꝏ oss, nær ed Meñerner setia sig
upp i moote oss, þa uppsvelgdu þeir oss
lifande, nær þeirra Reide greñst yfer oss,
Vor Hiꝏlp stendur i Nafne DRott-
eñs,

eñs, þess sem giört hefur Himen og Jörd, Ps. 124. Nu hefur, i Prida Lærge: Christeñ Saala! af þessu Samtale ad draga þier ægiætar Hugganer, þvi þetta Orded Frelsarans: Eg em Hañ: hvört hañs Ovine mest hrelldе, og ad Velle lagde, er þier og mier ein lifande Hugsvølun i hvorskins Neyd og Hörmung; Þvi þetta Orded brwkade hañ opt til ad Hughreista og hugga med sijna Læresvetna i Neyd og Hörmung stadda, sem siaa maa, Matth. 14. Þegar Skiped, er þeir voru aa, hrakteſt i Vilgium Siaafarins i Mootvidrinu, þa kom hañ gæangande aa Sioonum, eñ þeir meintu þad Skrymsl vera, og kølludu af ofur-Hrædslu, eñ hañ baud þeim Hughraustum ad vera og Ottast ecke, Og sagde: Eg em Hañ. Og aptur, Luc. 24. Þegar Læresveinarner voru samañkomner ad luktum Dyrum, miøg hrædder fyrer Aræasum Gydinga, kom JEsus til þeirra, eñ þeir skielfdust og meintu sig siaa Anda nockurn, eñ hañ huggade þaa hryggva og hrædda, seigiande: Siaaed mijnar Hendur og Fætur, ad Eg em þad Siaalfur: J hvoru-

tveggia Siñ urdu þeir miøg glader; Og er þad þvi Oraskañlegur Sañleike, sem Paulus seiger uñ Ord DRottens, ad þad sie Gudhræddum Ilmur Lijffins til Lijffins, eñ Ogudlegum Ilmur Daudans til Daudans, 1. Cor. 2. Þegar vier nu fellum, af saurlegum Holldsins Breiskleika, i Synder og Raanglætingar, hvad t'dt skiedur, med þvi oss vill margt verda ad Foota-Kiefle i þeirre Astrijdu; Og sem DRotteñ, fyrer hvors Riettlæte eckert saurugt kañ ad standast, reidest oss aumnm Jardar-Ormum hier fyrer, og vill þetta vonda Tried upphøggva; þa leggur JEsus sig ꝏ mille og stødvar upptendradañ Loga Hefndareñar, seigiande: Eg er Hañ, sem fullu betalad hefe fyrer Brot þesse vestu Syndara: Eg er Hañ, sem þar hefur endurleyst, med miñe beyskn Pijnu og dirmæta Bloode; Og þetta lietstu þier lijka miñ, Himneske Fader!

Vertu þar fyrir þessari brotlegu Eign miñi lyknsamur, vertu ecki heim Saudum mijnum æfiñlega reidur, hvoria þu hefur mier ꝏdur giefid, þvi þeir eru veikir og vanmættugir, og vita optsiñis ecki hvad þeir giøra.

So er þad þa einungis þiñe Medalgaungu og Myskun ad packa, miñ allra sæt-

sætaste JEsu, ad eg hefe af so margre og saargrætelegre Hrøsun miñe feinged aptur upp ad standa, hefe og þa Von, ad þu muner framveiges af Giædsku þiñe, eñ ecke Verdskulldan miñe, laata mig þeirrar somu Myskunar, aasamt ødrum Saudum þijns Haglendis, niootande verda; eg vil feigeñ, fyrer þiñ Stirk, ydrast og laata af Syndunum þad frekast eg orka. Þegar Diøfulliñ, sem oss tæler til Syndareñar; Syndernar sialfar, sem vier drygium, epter hañs Aeggian; og Samvitskuñar nagande Ormur, sem Illsku=Verkeñ vor fyrer oss upprisiar, og oss fyrer þau aakaflega aatelur, ad Vonum; Þegar nu allt þetta, med þvi sem var ad hnijgur, vill saart kvelia, særa og stijnga Saaler vorar, so þeim er naalega øll Lijfs=Von horfeñ, med þvi øll Skiepnaña Hiaalp og Lækning skal lijted til Grædslu soddañ Saare: Þa kiemur saa einaste Hiaalpareñ, JEsus, oss til Biargar, rietter oss Høndena, og seiger: Snwed ydur til mijn, jeg skal frelsa ydur, eingeñ skal faa ydur slited wr miñe Hende, Vertu Hughraustur Sonur, ver-

tu Hughraust Dootter, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar; Eg afmaae þær sem añad Sky, og sem adra Poku (Es. 44.) Eg afmaae þær miña vegna, og miñest þeirra ecke. O þijnaGiæsku,miñ JEsu! Sæll er sa aa þig vonar, hañ verdur alldrei til Skamar.

Þegar Sootter og Siwkdoomar, edur hvad añad slijkt Holldsins Kvalræde, hitter oss, so ad vier hliootum, med Ezechia, ad tijsta sem Tranañ og Svalañ, og stynia sem Dwfañ, wt af þeirre Angist, og erum med honum uñ Huggun, Lækning og Linun miøg Angurbitner; Pa neitar JEsus oss ecke helldur, sijnum Børnum, siñar Lyknar og Medaumkunarsømu Naalægdar, helldur kiemur hañ þa og eirneñ seigiande, Med naakvæmre Linun og Lækningu: Eg er Hañ, Eg er Grædare allra þiña Meinseinda, Ern Meistare til ad hiaalpa, vil og þad giøra, eñ bijd þu mijn og vert Þolgoodur. Þegar su sorglega Faatækt og Orbirgd mæter oss, og vier hliootum ad liggia wte fyrer Dyrum hiña Rijka og Megtugu, og verdum af þeim foraktader

og meigum seigia med Eckiuñe af Zarep'a: Þetta litla sem eg nu epter hefe, vil eg Matgiora, eta og sijdañ deya, 1. Reg. 17. Þa kiemur JEsus og til vor, stillir vort Hugarvijl, og seigir: JEg Er HAñ, sem hier var ydar vegna fæddur, uppa þad eg wtvegadi ydur eilijfa Audlegd; Eg vil siaa ydur fyrir Braudi hier i Heimi, þar til eg læt mijna Blessan til fulls yfir ydur rigna, med Giøf eilijfrar Audlegdar; Þier sem hier nu Skort lijdid, skulud aa Himnum, þegar eg drycka ydur med Vellystingaña Straumnum, aungvañ Skort hafa aa nockru Goodu; Þeirri Audlegd kañ hvørki Molur nie Rid ad granda, og Þioofar faa ei eptirgrafid nie stoled; Miñist ad eins þoliñmoodir, ad mitt Rijki er ei Matur og Dryckur, helldur Riettlæte, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, Rom. 14. Þegar nockurt Bol edur Asirijda Veralldariñar grætir oss og hrellir, so vier hliootum ad kveina og kvarta undañ slijku med Naemi, og seigia: Kallid oss ei fagra edur lystilega, helldur Mara edur Beyskiu og Mootgangs

Børn, þvi DRottiñ hefur lækad oss, saa almaattugı hrellt oss: Ruth. 1. Þaa kiemur JEsus til vor, og seigir: Eg Em HAñ, sem allañ ydar Missir kañ ad bæta, sem øllu ydar Mootkasti og Astrijdu kañ og vil i Gledi og Fognud snwa, hvørn Fognud eingiñ skal fraa ydur taka; Verid ad eins Hughraustir, jeg skal sijdar afþerra ydar Hrygdar Taar, jeg skal snua allri ydar Olucku ydur til gooda; Eg hefe Heimeñ yfiruñid: Ef hañ hatar ydur og offsækir, þa vitid, hañ hefur mig firri hatad og offsookt; Verid þoliñmoodir, ydar Verdkaup er mikid aa Himnum, Matth. 5. A vorri Dauda-Stundu, lijka og aa þeim sijdasta Doomi, þaa er JEsus oss sijnum Børnum ein endurlijfgandi æskilegasta Huggun, Frelsi, Fognudur og Fegurdar Corona, þvi þaa ytrekar hañ hvad allra best og nauækvæmlegast eftir Þørfiñi þessi hin somu Ordiñ. A Dauda Stunduñi svarar hañ oss hid iñra, fyrir heilagañ Anda, þessu: Eg Em HAñ, sem Daudañ uppsvelgdi i Sigur ydar vegna, mijnir Einglar skulu nu bera ydar Saalir i eillijfañ Fognud.

I Doominum seigir hañ og: Eg Em HAñ, sem upplokid hefi fyrir ydur Dyrum Himnarijkis, komid nu blessud Børn mijns Fødur, og eignist þad Rijki, sem ydur er fyrirbwid fraa Upphafi Veralldariñar, þvi þar sem eg er, þar skulud þier, mijn Børn, mijnir Þienarar! vera. So ferum vier þa hiedañ i Fridi fraa Ofridi Veralldariñar, og komum i eilijfañ Frid og Uunnarfulla Rooseml. Eja værum vier þar!

A medañ vier nu, Guds Barn, dvelium i þessari Utlegd vorri, og heyrum vorn JEsum þetta til vor talandi, bædi i Ordi sijnu og Hiarta voru, þaa andsvørum hønum af fullri Alvøru: Fyrst þu ert miñ, miñ HErra JEsu! Jaa fyrst þu ert mier allt, þa er eg og þiñ, og saa, hvør þu veitst ad elskar þig af øllu Hiarta: og þo mig annañ vilie i þvi Verki margt hindra, þa laattu þad ecki skilia ockur, helldur seigdu af Myskun þiñi aptur aa moot til Saalar miñar: Eg elska þig, mijn Uñusta, eg hefi þig kiæra. Þetta Samtal ockar verdi eilijft og oendanlegt, hier aa Jørduñi uppbyriad, eñ sijdar aa Himnum fullkomnad: heyr þad oa Bænheyr miñ blessadi HErra JEsu! Amen.

# VI. Cap.

Um Judæ Koss, og Christi Fangelse

TEXTINN.

EN Svikareñ hafde giefed þeim Sameigtnlegt Teikn, og sagt: Hvern hellst eg kysse, saa er þad, grijped hañ og leided i burtu vareygdarlega. Og þa hañ kom, næigadist hañ JEsum, ad hañ kyste hañ, og jafnsnart gieck hañ til hañs, og sagde: Heill siertu Rabbi, Rabbi, og kyste hañ. Eñ JEsus sagde til hañs: Vinur, hvar fyrer ertu komeñ? Juda, Svijkur þu Mañsins Son med Kosse? Þa geingu þeir þaangad, og løgdu sijnar Hendur aa JEsum, og gripu hañ.

UTLEGGINGIN.

Skodadu hier fyrst, Christeñ Saala! hvad fyrer Sverd ad Judas brwkar hier til Forrædis vid siñ Herra. Þad er miøg fagurt og forgyllt Asyndum, eñ hylur þo i sier Daudlegt Eytur. Mun þad ecke kalladur Hatttur Gudhræddra, ad kvedia eirn og Oska Heilla og Farsælldar? Mun þad ecke Teikn mikillrar Audmijktar og Undergiefne, ad kalla Aññañ siñ Herra og Meistara? Mun þad ecke stoort Elsku og

Kiær=

Kiærleiks Merke, ad rietta ødrum Hønd-
ina, taka ofañ sitt Høfud-Klæde, og kyssa
hañ? Er þad og allvijda ad siaaſt af Rit-
ninguñe, hvad Elſkufull Alvørugiefne
ad fylgt hafe þessum ytvortes Teiknum
hiaa allmørgum. Eñ øll hier-greind
Fridar, Æru og Elſku-Teikn goodra Ma-
ña, brwkar Judas, til Yferhilmingar
hinum versti Svikum og Flaarædе, ept-
er Ventu þeſs, er hañs Hjarta nu bigde,
sem var Dioſulleñ, hvørium þad tijdaſt
er, ad ſvijkia oſs faavijſar Mañeſkiur aa
ſoddañ Haatt; hañ yfer-klæder i Paan-
ka vorum margar herfelegar Odigder og
ſkadvænuſtu Klæke, med Aſynd hiña feg-
urſtu Digda, þar til hañ fær vort blind-
ad Sambicke, vid hvørju vier græatlega
aumer faaum allopt ecke ſied, eñ epter aa
dregur hañ burt aptur þeñañ Gull-Rod-
ma, og ſyner oſs giørda Leſte med ſijnum
rietta Lit, hvørra Skrijmsleg Aſynd ad
nockrum hefur þa ſo ofboded, ad þeir ha-
fa ſijdañ alldrei Heilſu naad, ſem Judæ
Dæme ſijdar hier audſyner. Þeſſe Slick-
ioótte Høggormur took ſneiña til þeſſara
ſølſku Bragda ſiña, med þvi hañ ſied hef-
F 5 ur

ur, ad sier munde hellst med þeim takast ad audga Capellu sijna; Brwkade hañ þau þar fyrer strax i Paradis vid vora Fyrstu Moodur Evu, þegar hañ þad forbodna Eple so forgyllt giorde fyrer heñar Augum, ad hun einkis gaade, utañ ad sedia sijna bañada Gyrnd med Nautn þess sama, fyrr eñ allt var uñgiort, og var þad of-seint, ad þvi Leite sem heñe og heñar Nidium vidkom. Til Boota þessu Ohappa Aate, mætte þiñ blessade Muñur, O HErra JEsu! Saklaus lijda eirn Fals-Koss, og være þad meir eñ skylldugt, þo þu þar fyrer af oss feinger æ og alla Tijma eirn miwkañ Elsku og Hlijdnis-Koss; Eñ þad er fyrer þier einum ad klaga, ad þiñ og allra vor Ovinur Diofulleñ, er villte For-Moodur vora, viller eñ þa alla Veralldar Kringluna, fra þessum Omeingada Kosse, sem bæde æ þier og Naunganum, epter þijnu Bode, ad veitast; Þvi so geingur þad til æ medal vor, sem eigum ad heita þiñ Arfur og Eigeñdoomur, þo þier sie Mismunureñ þar wti auglioosastur, ad vier lofum þier ad soñu opt ad sia vid Syndunum,
og

og bidiunst þar uppaa Aflausnar, er ofs og veitest, hvar med vier laatum ofs þikia, lijka sem myñtunst vier vel vid þig, epter Raade Davids, Ps. 2. Eñ hvad faaa fær þu þo þa af ofs, sem nockurt Kapp aa leggia, ad laata af vitañlegum firre Syndum, og hiaa hvorium ad ecke verdur þad Sijdara verra hinu Firra; Þeirra Tolu veitst þu sialfur best. Heyra maa þad og siaa, ad ecke brestur ofs þad, ad hallda ofs til þijn med Raust og Muñe, ad kalla þig, HErra, HErra, edur og ad kyssa þig med Medtekningu þijns Blessada Hollds og Bloods i þvi Haaverduga Alltaresins Sacramento, hvor þijn Blessud Moodur-Briooft ad eru lyste legre eñ Vijn, þeim Gudræelega aa þeim liggia. Eñ hvad opt þu fær Hiartad vort samhliooda Raustene; Ottañ og Audmyktena, sem sambioodi Herra-Nafnenu; Edur Riett-trwad ydrande Hiarta, sem þiñ Dauda kuñgiore, er filgia aa riettre Medtekningu þijns Hollds og Bloods; Þad er þier kuñugast. Nu hofum vier þad Bodord af þier, ad hvor sem þig elskar, hañ skale og elska siñ Broodur

ur, 1. Joh. 4. Eñ giefa honum aungvañ Flærdar-Koss: Er þad þvi augliooſt, ad hvør ſem̃ fyrer Moñum vill ſynaſt ad giøra hid, firra, eñ aktar ljited edur eckert uppà hid ſijdara, ſie Lirogare ordeñ, og hañs Gudrækne ſie Hiegoome. Eñ hvørneñ mun nu þeſſu vared à vorum Døgum? Firr aamiñſt Adferd Judæ, er nu loſtud, ſem Von er, lijka vel af þeim̃, ſem þo eru hañs Stall-Brædur i Umgeingniñe vid Naungañ; Pad ſem Fiandeñ kieñde honum, þad kieñer hañ eñ allt oſmørgum; Hañ villde med ytra Vidmootenu ſynaſt alldiggur Vinur DRottens: So hilur nu og margur fijulega Ulfeñ under Saudar-Giæruñe; Margur verdur nu til, med Joab, ad ſeigia: Fridur ſie med þier, miñ Brooder! Par ſem Fridar-Paankarner eru þo harla litler, og varla añad eñ Toñl og Nagan, Aſælne og Kløgu-Maal: Hvillijker laangt eru frà þvi, ad vilie ſiñ Broodur heilañ, þar hvør vill ødrum wr Sæte hrinda, og ſitur naalega epter Gotze, Lijfe og Æru. Ecke er ad klaga yfer ſtooruñ Misbreſte à Æru-Titlunum, edur à Hools og Hroo-

ſunar-

unar=Ordum, þvi soddañ þægelegar og Huñærngs sætar Tungur fæst nu Okeypes um̃ Stunder, eñ þo þad vare ecke alltijd leinge, þvi þegar suwed er vid Hnackanum, heiter þad Stundum ødruvijse, þaer varla nockud neitt i þeirra Fare, sem ædur hetu bestu Meñ: J Dag nefner eirn sig añars Reidubweñ Pienara, sem ad Morgne syner sig hañs argvijtugañ Mootstandara: So er nu þessu viked vid fliootlega, og hier fyrer utañ vantar nu ecki Verølldina fladrandi Kossa-Flens æ ymsar Sijdur, þvi sumir verda nu til ad kyssa sem tijdast æ þa Høndina, sem þeir giarnañ sæi ad af væri høggviñ: Betra væri sliett skafid, eñ so illa grafid: Eñ Satan med sijnum kyndugu Yrmlijngum þikist gieta sier betur fyrirkomid æ soddañ Hætt; Petta Skrimsli, edur Odygd þessi, æ hvørri ad DRottiñ hefur hid mesta Hatur, kallast nu ei ad sijdur Vitska æ sumra Tungu, þo Ord Guds kalli hana Jardlega, Lijkamlega og Diøfullega; Og bañig er nu Nærunganum, af þeim þo sumum, er Guds Børn heita villa, tildruckid af forgyllt=

um

um Flaarædis-Vikar, upp wr hvørium ad giæist eirn Basiliskus, hvad allt augliooft er þeim sem veit, hvad med Mañinum er, þo Skañsijni einfalldra verdi opt þar med dærlega sviküñ. Sieu nu ecki þeßir betur Gud elskandi eñ Naaungañ, og eigi af þvilijkum Avextum ad þeckiast þeirra Gudhrædsla, edur vilie Gud reikna sier þad giørt, sem þeßir giøra hañs Børnum, þa mun Judas med sier faa meiga nockra Stallbrædur sier lijka, er þaangad naa Taanum, sem hañ hafdi Hælana; Þar þeir hafa Yfirlit Gudlegs Nafns, eñ afneita Kraptinum, seigiast þeckia Gud, eñ afneita þvi mz Verkunum.

O JEsu! Hiaalpa oß þijnum Børnum, so hvørki saai Diøfulliñ bleckt oß med sijnum Fagurgala, ei helldur Verølldiñ svikid oß med sijnum Hreckium og Flaarædi; Geym þu Drottiñ vora Æru og Lijf, fyrir Flærd og Aræsum illra Maña, so þeir siaai ecki sijna Lysting aa oß: Foot-trod þu vora Foot-trodendur, og sie þad þiñ Vilie, þa læt þad hier skie, so Ovinaña Saalir hiaalpist aa þijnum Deigi, þvi þeir munu opt ei vita hvad þeir giøra.

Merk hier i añañ Stad, Guds Barn! hvørniñ JEsus took aa moote Juda, sem var, med hiñe mestu Poliñmæde, og, aa moote þvi hañ kallar JEsum siñ Meystarg,

ara, af soddan Hiartalægi sem að dur er sagt, þa kallar JEsus Judam, aftur að moote, siñ Vin, og gierer hønum gooða Aminingu, ef skie mætte hañ þeckta kiñe sitt Vondsku Athæfe og sijdañ leidriettast og aftur snwa. Vin kallar JEsus hier Judam ecki i þañ maata, að sa kuñe að vera Vinur hañs, sem geingur þvert i moot hans blessuðu Orða Aminingum, eñ að=hyllest Diofuliñ og hañs Raad, eñ vill þo samt sijnast dyggur fyrer Mønnunum; þvi Lioosið og Myrkuriñ hafa eckert Samlag. 2. Cor. 6. Helldur kallar JEsus hañ hier Vin, fyrir þa skulld, að hañ hafðe audsynt Juda so margar Velgiorðer, fyrer hvorjar hønum bar að sijna JEsu einlægañ Vinskap og Trwmeñsku: fyrer soddañ Skildu Sakir kallar JEsus Judam hier Vin, og riettilega maa saa Vinsemdar af oss vænta, sem bæde audsijner oss Velgiorðer, og varar oss vid þvi, sem oss kañ til hins mesta Skaða og Olucku að horfa; Og er hønum þa illa golldið, ef hañ fær ecki añað i moote eñ Flærð og Svik, under Vinattu Skine, og

eru þeir, þad giora, i Raun og Saññleika siaalfum sier vester. Eñ hier skalltu læra, Christeñ Madur! af þessu Laufnarans Dæme, ad gialda ecke Ovin þijnum i somu Voru og hañ þier; Ecki Skam̃arord fyrer Skam̃aryrde; laattu þig miklu helldur aangra þad, ad hañ er so forblindadur, og stundadu ad hafa Frid vid hañ og alla Meñ so miked sem mogulegt er. Rom. 12. Gior honum ei ad sijdur til gooda, og aamiñ hañ til goods; So safnar þu Gloodum Ellds yfer Hofud honum: Hañ kañ þa eftiraa siaalfum sier reidur ad verda, þad maa, ef Gud er med, giora bæde þig og hañ goodañ um sijder.

J Pridia lœge hofum vier hier ad athuga, hvad þessu Forrædt Svikarans Judæ hafi efterfilgt, sem voru, þau hordu Fiotur, er Svikarans Filgiarar logdu aa vorn Frelsara JEsum Christum, hvorier jafnsnart og Forræded var fram̃kvæmt, hlupu þangad ad, sem JEsus var, og bundu þad saklausa Lambed Guds aan allrar Vægdar med Myskunarlausre Medferd. O miñ blessade HErra

ra JEsu, hvør var Søk og Efne þessara
þiña hørdu Fiøtra? Eg aumur med mij=
num saarlegum Syndum og Glæpum,
jaa, aller vier sem moote þijnum bless=
udum Bodordum broted høfum, synd=
gad og giørt Oriett. Þesse Illsku Verkeñ
vor allra, voru Fiøtrar þeir, undañ hvø=
rium þad allra helgasta Holld dofnade,
þetta Helsed hiellt øllu Mañlegu Kyne
under eilijfañ Dauda-Doom og Kvala
Urskurd; eñ þu leyster þad, miñ JEsu!
og þesse vor hørdu Bønd hefur þu i sun-
dur slited. Ps. 116. Þeir sem eñ nu i
Dag til þijn snwa, og fyrer þiñ Anda
faa fraa sier hrunded þeim Andlega Si=
ñu og Ydrunarleysis Dofa, sem oftsiñ=
is vill aa vort Hiarta falla, þeim giefur
þu Lausn og Frelse, og eru þeir somu
friaalser. Joh. 8. So hafa þa þijner trw=
ader, af Bøndum og Faangelse þijnu,
blotid eilijfa Miskun, Frid og Frelsi, so
hvørke Synd, Daude Diøfull nie Hel=
vijti fa þijna utvallda aasakad: Þad
þeir lifa nu, þad lifa þeir i Trwñe aa þig, O
Jesu! þu sem þa hefur frelsad og sioalfañ
þig utgiefid fyrer þaa. Gal. 2.

Nu bid eg þig, miñ Liwfaste JEsu, ad Miñing þiña hørdu Banda, verde mier og þijnum Børnum, ad medañ vær hier lifum i Welegd þessare, ad andlegum Fiøtrum, sem hindre og hamle øllum vorum Lidum og Limum, fraa Ydkun Syndaña og øllum glæpugum Giørdum, samt hvørskyns vondu Haattalægi Veralldariñar, sem liggur i þvi Vonda, uppaa þad vier saum med lausum og liduguḿ Anda þier iafnañ þioonad, i søñum Guds Otta allt til Lijfs Enda; þetta veit þu øss, O HErra JEsu! saker þiña saaru Fiøtra og Faangelsis, Amen.

# VII. Cap.

## Um Børn St. Peturs, og Malchus Eyra Saar.

## TEXTINN.

ENN þa þeir, sem hiaa hønum voru, saau hvad verda villde, søgdu þeir til hañs: HErra, skulum vier slaa med Sverdi? og slaa; Ad eirn af þeim, sem med JEsu voru og þar stoodu, Simon Petur, hafde eitt Sverd, rietti ut Høndina, og rickte þvi, og sloo til Presta Høfdingians Þienara, og hioo af hønum hañs hid hægra Eyra: og saa Þienari hiet Malchus. Eñ JEsus svarade og sagde: Leifed þeim ad giøra eñ frekar, og sagdi til Peturs; Stiktu þijnu Sverdi

i

i Slijdrer, hviad hvør Sverdid tekur, skal mun fyrer Sverdi farast. Eda meinar þu, ad eg kuñe ecke nu ad bidia miñ Fødur, þad hañ sende mier meir eñ Tolf Legion Eingla? skal eg ecki drecka þañ Kaleik, hvørn ed miñ Fader hefur mier giefid? Eñ hvørniñ skilldu þaa Ritningarnar uppfylldar verda? Þvi þad hlijtur so ad skie. Og hañ aahrærde hañs Eyra, og læknadi hañ.

## UTLEGGINGEN.

AF Upphafe þessara Textans Orda hefur þu þad

1. Ad læra, Christiiñ Saala! ad þar sem þu villt eitthvad þad aaforma og uppbyria, sem neckud aarijdur, og vilier þu ad þad skule til goods Enda leidast, ad þu þaa raadfærer þig vid adra þier higgnari, einkanlega vid Gudhræddda Meñ, og filg sijdañ þeirra goodum Raadum: þvi þad hefur mørgum ad goodu orded, er þad og vitra Maña Hattur, eñ hitt heyinskra, ad laata sier eckí lijka, nema sijna eigiñ Sldi, sem Salomon seigir. Prov. 12. Og hefur þad

oftstinis vid borid, ad þeir hafa sijdañ
efter a mætt ydrast sijns Einrædis,
ad feingnum Skadanum, eñ feingid hañ
þo ei bættañ, med þvi ad ecki er Raad ne-
ma i Tijma sie teked, eñ þeim ofviñu ko-
ma efter a Raadeñ: þvi hroopar Salo-
mon Vei yfer þeim, sem alleirn er, þvi
þegar hañ dettur, þa er eingiñ sem hañ
uppreyser. Nu er þvi so varid, ad Mañ-
legur Vijsdoomur nær oft skamt, eink-
anlega i mikils hættar Efnum, og kañ
ecki fyrer øll Añes gyrda, þo vel villie:
Þvi er þar eckert betra Raad til, eñ þad
tekid er af hreinu og Omeingudu Guds
Orde; Þad er hiñ Trwaste Raadgiafe,
þvi þad syner oss, bæde þad vier giøra og
fordast eigum, med þvi þad er Lampe Foo-
ta vorra, og Lioos a vorum Vegum,
Ps. 119. og sa Vagn, er ferlar tiñ i sier-
hvørra Hlijdiña Guds Barna Hiørtu
hañ blessada Vijsdooms og Sañleiks-
Anda, Er leider hañ i allañ Sañlei-
ka, Joh. 16.

2. Verdur oss hier syndt Tiltæke Pe-
turs, er ricker Sverde, og høggur hid hæg-
ra Eyra af Presta-Høfdingians Pien-
ara.

ara. Hier af maa raada, ad Petur hefur ei riett skiled þau Ord, er Lausnarenñ Vockru firre talad hafde, og sagt; ad hvør ecke hefde Sverd, hañ skyllde selia Kyrtil siñ og kaupa Sverd, sem Lucas vitnar: (22. C.) Þvi fyrir þad Sverd atte ecke ad skiliast eitt Lijkamlegt Sverd, edur þad Petur wtdroo, helldur þad andlega Sverd Guds Orda, edur Boku og Bænar-Sverded, a hvørin Lausnarenñ skipad hafde bæde Petre og hinum ødrum Læresveinum ad hallda og med þvi ad verjast. So sem nu Petur villtest i Meiningunñe, so villest og margur, eñ þo vitur kallest, og sañast þad a oss, ad vier sieum aller Meñ, og Mañlegum Breiskleika umñvafder. Lijka hender þad sig opt, ad goodar Ameñingar verda a adskiliañlegañ Veg teknar, og skialldnar a betra Veg, og er þad Lasts-eñ ecke Lofs-verdt. Þetta Høgg Peturs hæfde Høfud-Prestsins Þienara, sem filgde sijns Herra Ogudlegre Skipan. Hvar af eirn og sierhvør Undergiefeñ skal taka sier gooda Vid vørun, og hlaupa ecke strax til sierhvørs þess Illvirkis, sem hañs vondur HErra

 rædur

rædur og skipar honum: Þvi þo hañ giete ordid þier ad Skalka=Skioole, hiaa Moñum, hvad þo ecke alltijd tekst, þa kañ hañ ecke ad skioota þier undañ Guds Hegningu, þegar hañ vill laata þig uppskiera Verdlaun þiña Hreckia, til hvorra þu hefur framar hlijdt Moñum, eñ Gude til hins gooda: Hvør Guds Ord og holl Raad þu foraktader og forsmaadet þier til Skada og Olucku, og villder ad øngvu hafa hañs frambodna Lærdooma. So er þa Malchus þesse, med Eyra=Saare sijnu hægrameigeñ, riett Imind þessara, er hafa opna vinstre Hlustina fyrer Hæde, Spotte, Brixle og Bakmælum, samt Lærdoome añars Illvirkis, eñ vilia ecke oped hafa þad hægra Eyrad til Naams og Eptertektar þess Gooda, jafnvel þo þaa vante ecke Gaafu þar til; Samlijker þar voti Eytur=Orme þeim, er David umtalar, Ps. 58. Er sitt Eyra tillstappar, so hañ heyre ecke Hlíood Tofrarans, hvørier Priootsker Guds og hañs Orda Oviner munu um̃ sijder faa sitt Andkieñe og Skalka=Mark, sem Malchus, þegar þeir verda straffader aa þeim sama Lim, med

med hvørium þeir syndgudu, sem Adoni-
besek, Dom. B. 1. Þvi Drottenñ lætur ecke
ad sier hæda: Þad sem hvør eirn nidur-
saaer, þad mun hañ uppskiera; Saa sem
nu nidursaaer i Holldenu, hañ mun af
Holldenu Skadsemd uppskiera, eñ hvør
i Andanum nidursaaer, hañ mun af And-
anum uppskiera eilijft Lijf, Gal. 5. Dro-
tteñ hneig þu vor Hiørtu til þiña Vit-
nisburda, eñ giør þu oss fraasneidda þessu,
og ollu Illu!

3. Høfum vier ad skoda hier Frelsar-
ans Alyktan med sijnum Lærdoomum,
hvørla hañ glefur yfer aamiñst Tiltæke
Peturs. Fyrst seiger hañ hier; " Leifed
þeim ad giøra eñ frekar." Lijka sem hañ
sagt hefde: Oll Magt miña Ovina stend-
ur i miñe Hende, þeir giøra ei meir ad
Verkum, eñ eg vil þeim epterlaata; Fyr-
er þvi þa laated þaa fara sijnu froñ. Hi-
er med aavijsar þu mier, miñ DRotteñ,
ad eg skule med Poleñmæde lijda Moot-
kast Veralldareñar, og laata hana giøra
sitt hid frekasta, þvi þo mier, epter Hollд-
enu, þike þad þvungt ad lijda, þa blijfur
þad þo so vijdt og laangt ad komast, sem

þu eptergiefed og ælyktad hefur. Hvad skal mier þa ad ietia mig æ moote þijnum Vilia ? þijn Hønd er mættugre eñ mijn, mijner Vegferdar-Dagar, so Hrigdareñer sem Gledeñar, eru i þijna Book skrifader, fyrer þvi vil eg þeinkia til þessara Davids Orda, og hiña, er hañ talade uñ Bølf Simei, seigiande : Lææted hañ bølva, þvi DRotteñ baud hønum þad, 2. Sam. 16. Þar næst skipar Lausnareñ Petre, ad stijnga sijnu Sverde i Slijdrir, þvi hvør Sverded take, hañ mune fyrer Sverde farast. So sem þad Sverdsins Nafn verdur hier tvijteked, so hefur þad og Tvøfallda Merkingu. Þad sijdara Sverded, er Lausnareñ nefner hier, er DRotteñs Sverd, hvørt Valldstioorneñ ber, Goodum til Lofs, eñ Vondum til Skielfingar, Rom. 13. Þad añad, edur firra, er Sverd eigeñ Hefndareñar, til hvørs ad taka, og sijn siælfur, moot siñe Embættes-Skylldu, med þvi ad hefna, Christur hier øllum fyrerbijdur, þvi slijkt ad giøra, er eitt af Myrkraña Verkum, sem St. Paall, Rom. 13. bijdur af ad leggia. Þess være Oskande, ad su Veralld-

alldlega Valldstioorneñ villde sijn vandlega giæta i þessu Efne, ad þar sem hun ber DRotteñs Vandlætis-Sverd, ad hun þa ecke græte, edur meide med þvi, hiñ Saklausa, edur skade sig siælfa aa þvi, med þess Oleifelegu Jñehallde i Slijdrunum, nær þad krefur Bloods, helldur stunde, epter Dæme Guds Mañs Moyses, ad afsnijda med þvi Greiner Lastaña, Exod. 32. Hier verdur eirn og sierhvor vor aaminñtur af Christo, ad fordast Eigeñ-Hefnd og Reide, jafnvel þo oss misþirmt verde, þvi þad Bod er marglega itrekad i Orde DRotteñs, þo margur Fool skufullur þad lijtels mete, og ecke fyrer sier virde, ad taka fraũ fyrer Hendur aa Drottne: Vilier þu nu ecke þetta Sverd kirrt bijda laata i Slijdrum, helldur hefner þijn siælfur; þa ræner þu Gud Riette sijnum, og tapar med þvi meir eñ þu aavinñur, þvi þa hefner DRotteñ aa þier, med sijnu Sverde, og lætur þijnu Bloode wthellt verda, fyrer þess Bloods Saker er þu wthellter, Gen. 9. Þvi er nu betra sobwed, eñ verr-bwed; Faaer þu ecke naad Riette þijnum hiaa Moñum, sem hañ

eiga hier ad veita, þa lijd þad aa samt Misgiørdum aññara med Þoleñmæde og Hogværd, og gief þijnum JEsu þitt Maalefne aa Valld, sem best þu kañt: So vill hañ Endurgiallda, og verdur sü Hefnd ecke hin liettasta yfer þeim þijnum Mootstødu-Mañe, sem hæleſt uñ þad, ad hañ hafe þig flatañ lagt under Fætur sier ad Saklitlu, eñ þo þetta kome Stundum seirna frañ, hvad Reynslañ sijnt hefur.

J Þridia Lægi, leidir hier Lausnariñ Petri fyrir Sioonir, ad hañs Vorn hafe lijtid ad seigia, hiaa þeirri, er hañs Fadir, med Skara siña Heilagra Eingla, hønum og øllum þeim veita vilie i Neydiñi, sem hañ þar uñ bidia, og allt sitt Traust aa hañs Almætti setia; Uñ þetta talar Lausnariñ so: "Eda meinar þu ad eg kuñi ecki nu ad bidia miñ Fødur, þad hañ sendi mier meir eñ 12. Legion Eingla." J eiñi Legione er almeñilega reiknad ad sieu 6666. Strijds Meñ, og giøra þa 12. Legiones 79992. Strijds Meñ. Þar sem nu eirn heilagur Eingill DRottiñs sloo i Herbudum þeirra Assyrisku Hundrad Attatiju og Fiñ Þus-

und-

undir aa eirni Nootta, 2. Kong. B.
19. Hvad miklu ofllugri skillde þaa vera
þvilijkur Margfiollde heilagra Engla
Prwsunda? Lærdu nu þar fyrer, af
Dæme þijns Lausnara, Christeñ Saa=
la! Ad setia aavallt alla þijna Von og
Trw, i hvørskins Neyd, til DRottins,
so mun hañ þier ad goodu Athvarfe ver=
da, einkanlega þar sem allar þijnar Bæ=
ner eru Jaa og Amen i JEsu Christo
þijnum Arnadar Mañe: seig þvi af hiar=
ta med David: Eg vona aa DRottiñ,
og kalla til þess allra hædsta Guds, til
Guds sem Enda giorir aa mijnum Eym=
dum, mijn Hiaalp kiemur af DRottni,
þeim sem giort hefur Himin og Jord.
Ps. 121. DRottiñ er mitt Lioos og miñ
Heilsugiafari, fyrir hvørium skal eg ott=
ast? Hañ er miñ Lijffsins Kraftur, fyrir
hvørjum skyllda eg hræddur vera. Ps. 27.
J Fioorda Maata, underviisar Frel=
sariñ Petre, ad þessi hañs Born sie moot=
stædileg þvi Kalle og Embætti, hvørju
hañ, epter Guds aasettu Raade, og hañs
Sognum i Ritninguñi, samt þar iñ
færdum Spaadoomum og Fyrirmynd=
unum

unnum, skylldi og viildi Fullnægiu veita, og fyrir þvi hliti þetta so ad skie, uppaa þad eckert raskadist, og Gud sañordur reynast skylldi. Ord Lausnarans hier uñ eru þessi " Skal eg ecki drecka þañ Kaleik, hvørn ed miñ Fadir hefur mier giefid, eñ hvørniñ skylldu þa Ritningarnar uppfylltar verda? Þvi þad hlijtur so ad skie. " Haf þad nu eptir þijnum Lausnara, Guds Barn! Ad so sem hañ kallar sijna saaru Kvøl og Pijnu, eirn Kaleik, sier af Fødurnum aaskeinktañ og tildrucktñ, so maattu og eirniñ hid sama Nafn giefa Eymdum þijnum og Hørmungum; Þvi DRottiñ hefur þier þeñañ Bikariñ tildruckid, þegar hañ pijndur var þiña vegna, so þu skylldir ecki eilijflega tortijnast: Taktu þvi gladlega i mooti honum, med Lofi og Þackargiørd; Þvi hvørlu skalltu hm̃ ødru endurgiallda, fyrir blessadadar Velgiørdir hañs, helldur eñ þvi, ad veita liwflega Medtøku þessum heilsusamlega Kaleik DRottiñs, og predika hañs Nafn. Ps. 116. Þu maatt og eirniñ hugga þig vid þad; Ad hønum er ecki okuñugur þiñ og miñ Veikleiki,

þvi hañ lætur sier til Hugar koma þad þu siert Dupt. Ps. 103. Og þvi þarft þu ecki ad kvijda fyrir þvi, ad hañ muni ecki so nidurskamta þessa Adryckiu Hørmungaña, sem hañ sier þijnum Veikleika og Vandkvædum hentast vera, uppaa þad þu faair, fyrir hañs Krapt og Tilstyrk, i mooti tekid og undañborid; Þvi þañ Kraptiñ allañ, sem i þijnum Breyskleika er maattugur, hefur þu af hønum, eñ ei sioalfum þier; Minstu þess og, ad þessi Adryckia er ei utañ lijtill Skierfur, þvi þad swrasta og Beiskasta hefur hañ sioalfur druckid. Hier ad auk laattu þier til Hugar koma, ad, so sem Christo byriadi ad lijda, eptir Ritningunum, þvi Gud kañ ecki ad li(u)ga, hañ hafdi fyrirsagt ad Høggormuriñ skylldi bijta Kviñuñar Sædi i Hæliñ, hvar fyrir þad hlaut so eirniñ ad ske; So byriar þier og fyrir margar Hørmungar iñ ad gaanga i Guds Rijki, og med Krossiñ aa Herdunum Christo eptir ad filgia, hvar af þu lærir ad gaanga ut og graata, og bera so aagiætt Sædi, uppaa þad, ad saa Harmur, eptir oraskañlegum Guds Loforðum, verdi aa sijdañ

þerr=

herradur af þijnum Augum, i þeim eilijfu Fridarins Tialldbwdum, Es. 25. Ad sijdustu giefur Lausnariñ Petri og øllum oss eitt agiætt Eptirdæmi, hvorniñ vier skulum tiaa oss vid Ovini vora, þar hañ aahrærdi Eyra Pioonsins og læknadi hañ. Siaa til, Guds Barn! ad þetta Lausnarans Siñi meigi og i þier fiñast, brioot uñ Haals Illsku Hiarta þijns, silg Herrañs Bodi; elskid þier, seigir hañ, Ovini ydar, blessid þa sem ydur bølva, giørid þeim gott sem ydur hata, og bidied fyrir þeim, sem ydur giøra Skada og Ofsookn veita, so þier sieud Børn Fødur ydar, þess aa Himnum er, hvør sijna Sool lætur uppreña yfir vonda og gooda, og rigna lætur yfir riettlaata sem raanglaata: Matth. 5. Athuga og, ad JEsus hefur hier med bætt fyrir þijna og mijna Heipt og Hefndargyrni, sem optar, eñ skylldi, sig auglijsir fyrir litlar Sakir, hvøria, og allt illt þu hier eptir, hønum til Packlætis, fordast skallt, fyrir Hiaalp DRottiñs; Þvi þad er stoort Hroos ad vera HErra Gieds sijns, og stunda Hogværdina, þvi þeir somu munu Jardrijkid erfa.

DRott-

DRottiñ opni vor Eyru til riettrar Medtekningar siña Orda, og hiaalpe oß siñ Kroß-Bikar med Poliñmædi, og aan Møglunar, medtaka, eñ vægi af Myskun siñe Veikleika vorum, þeaar veikiast tøkum, hugge og hughreiste vor veik og Jsisdulaus Hiortu, sier til Dijrdar, eñ oß til hiña æstilegustu Lijfs og Saalar-Nota, fyrir JEsum Christum, Amen.

# VIII. Cap.

Predikun Christi fyrir Gydingum.

## TEXTINN.

Þeim Tijma svaradi JEsus og sagde til Foolksins og þeirra Presta-Høfdingia og Høfuds Maña Musterisins og Olldungaña, sem til haňs voru komner; Þier erud so sem til aňars Ræningia utgeingner, med Sverdum og Stongum, ad grijpa mig. Daglega hef eg hiaa ydur verid, setid og kient i Musterinu, og þier hafed aungvar Hendur aa mig lagt, og ecke gripid mig: helldur er þetta ydar Tijmi og Magt Myrkraña, so ad Ritningarnar uppfylldust. Eñ allt þetta er skied, so ad uppfylltist Ritningar Spaamaňaňa.

## UTLEGGINGIN.

Ho ad þessi Predikun Frelsarans, vors Drottiñs JEsu Christi, hvoria hañ framſetti fyrir Gydinga, hafi marga ägiæta Lærdooma i ſier iñibundna, þa høndlar hun þo einkum og ſierdeilis uñ þetta Preñt epterfylgiandi.

1. Kastar Lausnariñ hier Gydingum i Nasir þeirra Illsku og Oþacklæti, er þeir ſijni hønum ä mooti allri hañs Giædsku og Goodvilia, er hañ þeim veitt og audſijndt hafdi. Fyrir utañ allar adrar Velgiørdir, ſem DRottiñ tiedi Jsraels Lijd, edur Gydingum, ad framañverdu, ber øll Gudſpialleg Historia þar liooſaſt Vitni uñ, hvørſu ad Frelsariñ, ä allañ Hätt, stundad hafi, bædi med Ordi og Verki, ad leida þä ä Gøtu Lijffins og eilijfrar Sälubiälpar, og þeim lijka, ſem Hænañ Ungunum, undir ſijna Vængi ad ſamañſafna, hvad þeir þo ecki þeckiaſt villdu. Matth. 23. Yfer hvørre Orlootſku þeirra hañ og ſiälfur heitum Tärum wthellte, Luc. 19. Audſijnande med þvi ſem øllu ødru, ſitt Bleſſad Giæſku-Gied, og Fødurlega Alvørugiefne, i þvi hañ villde hvørke þeirra nie nockurs

urs aňars Syndugs Maňs Dauda, helldur ad haň lifa og leidriettast mætte, Ezech. 33. Og þo nu Gydingar ofaň a alla adra staklega Illsku sijna, med hvørre þeir launudu honum allaň haňs Good-vilia, þeim veittaň af sijnum Fødur, liete haň hier hid hardwtugasta Fangelse og Fiøtur gista, sem aňaň saňbevijsadaň Mordingia og Illrædes-Maň; Pa lagde JEsus þo ecke hia sier sijna Fødurlega Uňhyggiu, helldur a miňte þa hier eirneň naakvæmlega til Idrunar og Yferbootar.

Hafe nu sa Blessade Guds Sonur JEsus, hiň og miň DRotteň, Christeň Saala! hia hvørium ecke var ad fiňa, utaň einskiæra Giædsku, Good-Vilia og Velgiørder, aan alls Følskva, feinged þesse og þvilijk Laun, og soddaň Packlæte af hiňe Digdasnaudu Verølldu; Pa þarf oss ecki þad so stoorlega ad undra, sem i øllu goodu ofullkomnir erum, so i Veitingu Velgiørdaňa vid Meňina, sem ødru; Po Packlæti sumra hvørra Verølldar Maňa, ru a Degum, sie nærsta ofagurlega stijlad; Einkaňlega þegar
 þeir

þeir hafa sniwid vid oss Bakinu. Nu þo Laun vorra litlu Velgiorda verde Stundum ecke utañ ill ein, af nockrum, edur Lijge og Aaustur, þa er valla añars ad vænta af þeim, er þañeñ, og ecke betur, vanda Vijsuna sialfum Gude; Fer þad og opt samañ: Og mættum vier þvi þeinkia aa þad, ad Læresveirneñ er ecke yfer Meistaranum, og laata oss liggia þad i hægu Rwme, hvorneñ sem þesser muñdæma. Ei ad sijdur skilldu aller, eñ þo eirna hellst þeir, hvorium hættast er vid þessu Soottarferle, laata sier Gydingaña Vijte ad Varnade verda, og med Packlæte þiggia, bæde Guds og goodra Maña Velgiörder, þvi vondum Skaalkum, sem ecke þacka fyrer vel giordt, mun ecke vel gaanga, Syr. 12. Fyrer þvi seiged Packer alla Tijma Gude og Fodur fyrer alla Hlute, i Nafne DRottens vors JEsu Christi, og vered hvor ødrum undergiefner i Guds Otta. Eph. 5.

2. Miñer Lausnariñ hier Gydinga aa sitt Almætti, sem sig medal añars audsijnt hafe i þvi, ad þar sem hañ Daglega, allt þaangad til, hafi hiaa þeim ver-

id, edur uñgeingist midt a medal þeirra, setid og kiendt i Musterinu þeim a heyrandi; Samt hefdu þeir þo ecki kuñad sig ad grijpa, edur Hendur a sig ad leggia, iafnvel þo þeir hefde a adskillañlegañ Hatt alla Vidleitni þar vid haft, bædi leynlega og opinberlega, sem sia ma allvijda af Gudspiall-legri Historiu, eñ komu þvi þo ecki til Vegar, fyrr eñ nu, þegar hañ villde þeim þad sialfur liuflega eftirgiefa, ad utendudum þeim akvardada Tijma sijns Predikunar Embættis, hvørs Leingd hañs Himneskur Fader nidurskamtad hafdi, og vijst Takmark sett, nær þad bitra og þrønga Anaudariñar Ok Pijnuñar skillde yfer hañ ganga og a hañs blessudu Herdar leggiast. So sem þessu var nu varid fyrir sialfu Hofdinu, vorum JEsu Christo, so er þvi og vidlijka hattad fyrir oss Limum hañs: bædi Upphaf og Endir sierhvørra Hørmunga Bilgna, þeirra er yfer oss ganga, ja, allur þeirra Voxtur, Stærd og Mijnkan, er fyrir fram sied, og allt akvardad i Myskunar Forsioon DRottins. Pu visser, miñ Gud!

hvad leinge eg lifa skyllde, aadur eñ eg sieck Lijfed, þaa eg var ecke full skapadur saau þijn Augu mig. Ps. 139. þesse þijn Alvitska mun siaa mier goodañ Farborda, hvar og hverniñ sem eg velkist, þvi eg er þar viss uppaa, ad þu lætur mig alldreiølldungis til Skamar verda, þad hindrar þitt Almætti og stoora Myskunsemi.

3. Seigir Frelsariñ hier sijnum Ovinum: "Ad þetta sie þeirra Tijmi og Magt Myrkraña, so ad Ritningeñ uppfyllist." Þar DRottiñ seigir, ad þetta sie þeirra Tijmi, þaa maa þad HErrans Ordtæki maklega af oss øllum i Miñi leggiast, so þad ei gleymist. Nu stendur yfer vor Naadar Tijmi, hvør oss er giefiñ af oseigianlegri Poliñmædi DRottins, og aa hvørium hañ i Naad bijdur efter vorri Ydran og Afturhvarfi, og lijdur oss, sem goodur Fadir, uppaa þad Brot og Bloodugar Misgiørdir vorar utslettast, kvittast og fyrirgiefast mættu. Þvi er oss stoor Naudsyn aa, ad sleppa ecki þessum Naadar Tijma, helldur miklu framar, þar sem vier i Dag

heyr-

heyrum Rødd DRottins hlioomandi i Ordinu, ad vier lätum hana þa vidoss rꜳda, og ꜳ oss vina, þvi ef vier forsoomum med ſtaklegu Athugaleysi þessa Tijdina, af Gudi oss giefna, þa kiemur og eirnin eptir ſaDRottins Tijmi, er i Bräd-inni aftekur øll Tvijmæli, um hvørn Tijma han ſiꜳlfur ſo talar, fyrir Munn Salomonis: Af þvi eg kalla, og þier villed ecki, eg utrietti mijna Hønd, og einginn gi-efur þar Gaum ad, og þier lætid fara allt mitt Rꜳd, og villed ecki mijna St-roffun, þvi vil eg lijka hlæa i ydarAfelle, og ſpia ydur, þegar þad kiemur, ſem þier otteſt.Ordſkv. V. 1. Er þetta og Vorkun, þu aumur Syndari! Þvi leingur ſem DRotten beded hefur, med bleſſudu Polgiæde og Bidlund ſine, epter Boot og Betran vorre forgiefens, þvi meira Storm-Vedurs hans Grimdar er ad vænta, þegar han ſer ꜳ oss ad hefna ſinar Ovirdingar. Giæt nu þar fyrer ad þier i Guds Nafne, mijn Saal! og huxa ecke; Gud er mieg Myſkunſamur, ecke mun han ꜳ mier hefna, þo eg ſyndge, ſo miked ſem eg vil: Vid hofum noog ad þeſſu giørt, jæ,

allt of-miked ; DRotteñ kañ so snarlega reidur ad verda, sem hañ er nadugur, og hañs Reide yfer Ogudlegum lætur alldrei af. Drøgum þvi ecke undañ, ad snwa ockur til DRotteñs, og skiootum þvi ecke a Frest fra einum Deige til añars. Nu strax i Dag skulum vid skipta um ockar Syndsamlegt Hattalag, og giora sañã Ydran og Yferboot, adur eñ vid sijkiunst og Daudeñ skilur ockur, og hvad vitum vid, nema DRotteñs Nadar-Dyrum verde a þessare Noottu apturlokad.

Æ eg Vesæll Madur, hvør vill Frelsa mig af Lijkama þessa Dauda! Þessara frañsagdra Orda vil eg feigiñ giæta, þad veitst þu miñ JEsu; eñ Hollded er veikt, væg mier og hialpa, Omik sætasti JEsu, og øllum þeim, er þig elska!

J Añañ Stad talar JEsus um MAgt MYrkraña. Athuged þad grant, þier sem Valldstioornareñar Embætte a Hende hafed, edur stioorna elged i Umbode Guds og Kongsins, laated ydur sagt vera, og miñest þess, ad Umdæme þessa Heims stendur a næsta veikum Footum, ia, þier, hvørium Reynslañ sialf hefur þad eñ þa ecke syndt, nema kañskie a odrum, og vited, ad hafa ydur i Hoofe, þvi þo þier sieud

Guds-

Guder kallader, þa munud þier samt deyja sem Meñ. Ps. 82. Stunded til, ad þad meige verda med Æru. So sem þad nu Liooſed hefur þa Verkan, ad þad burtdriifur Myrkureñ, med Liooma ſiñar Byrtu, ſo heyrer ydur og, þañeñ ydar Magt ad brwyka vid Verk Myrkrañа, eñ ecke ad ſkijla þeim i Skugga edur under Kaupu-Lafe ydur lientrar Magtar. Heyred hvad DRotteñ ſeiger, hvørium þier eiged ad ſtanda Reikning aa Sijdaſta Þijnge: Þijn Augu ſkulu ecke vægia hønum (Mañ draaparanum, Skaalkenum) Devt. 19. Og ſiaaed til, ad ei ſie ſijnd Mij-Flugañ eñ ſvelgdur Ulfballdeñ, ad ei ſaurged þier Landed, uppaa þad ad ei wtſkirpe þad oſs. Med þvi þier erud Vitrir, þa munud þier ſkynia þad, og þeſs giæta, ad lokſins dvijnar Magt ydar, þegar þier ſkulud kaña Daudans Myrkur. Þad mun og verda Maala ſañaſt, ad aa þeim Veralldar-Høfdinglum, ſem hrapad hafa, edur hrapa munu i hin ytſtu Myrkur, mun ecke ſkijna þeſſa Heims Magt og Metnadur, og ei adgreinaſt kuña fraa ødrum Fordæmdum. Giæted þeſs, aadur Daudeñ ſvipter

er yður Magteñe, ef þier hana til þess Tijma bered, ad hun er þo samt Myrkrenu lettare fyrer Haatignar-fullre Dyrd DRotteñs, hiá hvørium ad er eckert Mañgreinar-Alit; hañ heyrer þess Bæn, er Orietteñ lijdur, og dæmer so vel þañ Rijka sem þañ Fatæka. Þar sem nu DRotteñ lijker Magt þessa Heims vid Myrkur, þa haf þig i Hoofe, Guds Barn, og reid þig ecke of-miøg uppá Gunst og Hille hiña Rijku, helldur uppá DRotteñ sem er þitt Hiálpræde; þvi þegar þu hefur hañ, þa þarft þu eckert ad ottast, og vit þu, ad Mañaña Gunst, þo megtuger og Rijker kallader sieu, er nærsta Ostødug og Hvoole valltare; Þvi hvad eru þeir? Þeir eru eckert, Mikel-Meñeñ þau bregdast eirneñ, þeir vega miña eñ ecke par, so marger sem þeir eru. Ps. 62.

O HErra JEsu, þu saña Lioos Liissins, lijs þu og leidseig Valldstioornar Møñunum, med Upplijsingar og Visdooms Lioosi þijns heilága Anda, so ad þeir, hvør ia þu hefur yfir oss sett, aukist og eflist i allskonar Dygdum og ofleckadri Gudrækni. Pad sie allra vor Huggun, miñ sæti JEsu, ad med þessum þijnum saarkølldum Kvala Tijma, hefur þu alla oss, sem á þitt Nafn trwum, frelsad af eilijfum Kvala Tijma, eñ afrekad oss Samfielagskap Guds Barna, Eingla og Utvalldra, so ad vier munum gaanga fyrir þier i Lioosi Lifendra, hv-

ad

ad ad eru hin æskileguslu Bijti. Þvi þar fyrir þreyngdi Magtiñ Myrkraña so hardlega ad þier, ad þu leysis oss af Yfirvallde Myrkraña, ja, so ad þu utleidt feingir Sælir vorar af Helviiti, og þvi meiga oss alldrei grauda hiu vtstu og eilijfu Kvalaña Myrkur, er uñ Eilijfd geysa munu og gaanga yfir alla Ogudlega: hier af vilium vier med hærsta Fögnudi siingia, asamt med þeim Konunglega Spaamañi David: miñi Sorgar-Klögun hefur þu snwid i Dans, þu hefur miñ Hrygdar-Seck i sundurslitid, og umgirdt mig med Fögnudi, so þad, mijn Dijrd, siingi þier Lof og þagni ecki, Drottiñ Gud miñ, ad eilijfu vil eg þier Packir giöra! Amen.

# IX. Cap.

Uñ Flootta Lærisveinaña.

## TEXTINN.

Þa Forlietu hañ aller Læresveinarner og flijdu. Og þar var eirn ungur Mañ, sa ed hönum eptersilgde, hañ var med Lijne klæddur yfer bert Hörund, og Ungmeñe gripu hañ. Eñ hañ snarade Lijn-Klædenu, og flijde nakeñ i burt fra þeim. Eñ Flockureñ, og hiñ Ypparste Höfuds-Madur, og Þienarar Gydingaña gripu JEsum og bundu hañ, og leiddu hañ burt.

## UTLEGGINGIN.

Sierhver vare sig vid sijnum Vin, og trwi ecki helldur sijnum Brooдur, þviad eirn Brooðuriñ nidurþryckir hiñ aũaũ, og eirn Vinnriñ svijk-ur hiñ aũaũ, seigir Gud hia Jeremiam 9. Vijst er þad, ad ecki uppfyllist Spaadoomur þessi alltijd med einu Mooti, med al Maña, eñ oftast rœrist han aa einbvørn Haatt, þegar so ber undir. Þo ad Endalok þeirrar trwu Filgdar og Vinaattu komi ecki alltijd af eintoomum Svikum og Hreckvijsi, þa kuña þau samt ad spretta, af ymsum ødrum Tilfellum, so ecki verdi alltijd Endir bundiñ aa fogur Loford og Fastmæli. J Neydiñi lofar margur þvi, sem hañ endir ecki fyrir Deyd siñ, og valldi nu þessu ecki aũad, þa kañ Hrædslañ þvi til Leidar ad koma, þvi ef Mlid glørir aũañ Mañ, þa mun hun ei sijdur giøra Istødulitlum nockur Siña-Skipti; Þad saũast hier aa Flotta Lærisveinaña. Og maa hier siaa eitt fyrir sig hid anglioosasta Merke þar til, hvad skamt ad Mañleg Adstod naai, og hvørsu fallvøllt hun sie, aan Guds Raada, jaa einkis verd maa hun seigiast, þegar i

stoor-

stoorar Raunir rekur, og mest aaliggur; þa þikir hvorium sin Footur hin fegursti, ef sialfur han biargast kan, hvad sem um adra lijdur; Og jafnvel sanast þetta stundum aa Frændum og Vinum, hvorier ecki helldur reynast alltijd Ettræknir; og er þad þvi satt, er fulltreysta maa i þessari Verolldu; So rætast þann aadursogd Ord Jeremiæ. Fyrer stomu voru Lærisveinarnir noogu oruggir, og kvaadust vilia liggia JEsu jafnflatir, hvad sem aageingi, lijka vogadi ein þeirra ad hafa aa Loft Sverdid, medan han var hia þeim; En sem han var fraa þeim tekin, bundin og fiotradur, hvarf þeim oll Daad og Dugur, og sanadist aa þeim hid fornkvedna, sem oftar, ad daudur sie Hofudlaus Her, edur Hofdingialaus. En þess er þo ad giæta, ad naudugum fiell þeim þetta uppaa, þvi fyrir hvorn Mun villdu þeir hallda sijnum Herra, hvad raada er af Joh. 11. Þeir hofdu og Leifi feingid af JEsu, til ad forda Lijfi sijnu, so ad Spaadoomur Zachariæ uppfylltist, aa hvorium Christur stijngur i Rædu sinl til þeirra hiaa Joh. 16. Seigiandi: Su

Stund

Stund kiemur; Og er nu þegar komiñ, ad þier sundurtvijstrist hvør til siña, og laatid mig eftir einsamañ, eñ eg er þo ei einsamañ, þviad Fadiriñ er med mier. Hier staaum vid nu, miñ Broodir og samlijkur Syndari! Ad miklu hriggelegar sie vared ockar Efnum eñ Læresveinaña i þessu: þvi hvad opt høfum vid flwed fraa ockar Elskulegasta HErra, i þvi ad framfilgia Satans og Veralldareñar vondum Aeggingum, samt ockar forspillta Hollds og Bloods Gyrndum og Tilhneigingum, þvert i moote hañs Bodum og Vilia: Hañ hefur ockur foostrad og uppaled, eñ vid høfum falled fraa honum, og synt ockur þar wtilakare ødrum Skiepnum: Fyrer soddañ Athæfe høfum vid forskullda ad, ad fara Land-Floot ta fraa DRottne i ellijfar Kvaler. Eñ saa Blessade Hirdereñ JEsus, hefur, af Naad og Myskun siñe, ad ockur leitad Tijndum og Tøpudum Saudum. Hañ var eirn epterskileñ i Omilldum Høndum siña Ovina, so hañ liete ockur alldrei einsamla, Hiaalpar-edur Fødurlausa vera i nockre Eymda eda Freistingaña Astrijdu: Hañ var af

sijnum

sijnum Vinum yfergiefeñ, og eingeñ fanst
sia, er hañ huggade, so aller Hluter skyll-
du verda oss hañs Børnum til Hugguñ-
ar i vorre Anaud og Mañ-Raunum; Pvi
meigum vier bidia med David, i vissre
Von fullkomeñar Bænheyrslu, og seigia:
Yfergief þu mig ecke DRotteñ Gud miñ,
vertu ecke fiarlægur ad standa hiaa mier,
DRotteñ mitt Hiaalpræde, Ps. 38.

Hier næst hefum vid ad miñast þess
Ungmeñis, er JEsu eftirfilgde, hvern
oñur Ungmeñi ræntu, so hañ hlaut na-
kiñ vid ad skilia. Hañ hefur maaskie so
hastarlega vaknad af Svefni sijnum vid
Haareysti Christi Ovina, ad hañ ei gaad
edur þorad hefur ad taka oñur Klæde,
eñ þetta eina Lijn-Klæde, hvøriu hañ
vard eirniñ ræntur. Eñ hvørniñ sem þvi
hefur varid verid, þaa maa þo þetta Eftir-
dæmi miña oss aa þad, er hiñ vijse
Salomon seigir, ad betra sie lijtid med
riettu, eñ mikil Jñtekt med raungu, og ad
betra sie ad vera lijtilaatlegs Siñis med
Hoogværum, helldur eñ ad skipta miklu
Herfaangi med Dramblaatum, Ordskv.
V. 16. Vijst er þier og mier þad hollara,
vegna

vegna Sælar Gagnsins, Guds Barn! ad vijkia her og snaudur af Audi Veralldariñar, fraa vondum Solli og Synda Selskap Heims þessa, helldur eñ þu lætir eirn skamviñañ og Skarnsverdañ Aviñing so forblinda þitt Hiarta, ad þu þad til hañs viñir, ad giefa þig ur Flocki Guds Barna, þeirra, er JEsum elska, og i Flock og Stallbrædraskap ranglætra, yfir hvøriũm Ritningiñ hroopar Agg og Vei: Betra er ad Okeyptur sie sa raudi Riettur, helldur eñ ad viña þad til hañs, ad læta i Stadiñ Frumgietningu sijna og Oskabarna Riett til eilijfs Lijfs; þvi þær skijnandi Kræsir þessa Heims, (er af sumum sijnast metnar miklu meir eñ su andlega Kvølldmaaltijd) stodudu ecki þeim rijka i hinum eilijfa Elldi, hvar hañ fieck ecki eirn Dropa Vatns ad kæla med Tungu sijna. Luc. 16. So skal mier þa líæst, ville miñ JEsus þad so hafa, ad sjá a Bak Veralldar Kiæti, Vinskapar og Medlætis, hañs vegna: allañ miñ Missir fæ eg meir eñ bættañ i Guds Dijrdar Rijki; hafi eg hier litla Audlegd ad forvara, so hefi eg og ecki eyter

kir miklu ad sia ; Veralldarinnar Doo-
mi, yfir þessu, sinni eg ei ; sa mig þeckir
er i Upphædunum. I Annan Stad ki-
ennir oss þetta Dæmi, ad ecki sie ollum
jafnþungur Kross a Herdar, lagdur i
Heimi þessum, sumir saa Fleyra, sumir
færra, sumer meira, sumer minna, Moot-
læte, sumer meiga med Fagnade lijda
Raan Audæfa sinna ; Hiner adrer meiga
beriast allt til Bloodsins i Strijdenu.
Ebr. 13. Og skamtar DRotten þetta
allt saman hvørium einum. Nu skulum
vier ei øfunda adra af sinne Lucku, edur
hafa nockra Hnijsne umm þad, hvar fyrer
oss midur gange enn ødrum, hvar fyrer
Verølldenn klappe ødrum enn kloore oss ;
Helldur giæta þess, ad DRottenn maa
giøra af sijnu hvad hann vill : Filgium ho-
num ad eins epter med Polenmæde, og
þo vier meigum þad Stundum graatande
giøra, þa tøkum slijkt til Packa, og laate
sierhvør vorra sier sijna Lucku nægia, og
snijst oss þa allt til Lucku og Blessunar.

Ad Sijdustu høfum vier ad athuga þad
hier af Textanum, ad þesse Illrædis-Ma-
nnaFlockur færde þad Saklausa Lambed
Guds

Guds, JEsum Christum, i burt med sier faungeñ og fiøtradañ, og mun aan Efa sii þeirra Medferd vered hafa hin Myskunarlausasta i þvi Natt-Myrkre, med hinum vesta Vidurgiørninge, er nefnast maa. Oss Syndugum Jardar-Ormum hefde med øllum Riette hæft, dregnum ad vera i eilijfar Þijsler, og wr Daudans-Myrkrum kastast i eilijf Fyrerdæmingar Myrkur; Jaa, sama Doom ad heyra yfer oss, uppsagdañ, og saa, er ecke hafde Brwdkaups-Klæded, Matth. 22.

Eñ þu, O sæti HErra JEsu, hefur saklaus tekid vid þvi Straffi, er oss søkudum tilheyrdi; þvi fyrir vorra Misgiørda Sakir ertu særdur: Es. 53. Og hefur þar med tilbwid vorum Saalum þañ saña Lijfsins Veg, og þaa sætu Vist hiñar Himnesku Paradijsar, til hvarrar þær flytiast munu fyrir Hendur skijnandi Guds Eingla, i lioomandi Brwdar Skarti JEsu Riettlætis, vidskildar þetta sorglega Lijkamans Herbergi; hvar fyrir, þegar eg þeinki um slijkt, þaa laangar mig af Hiarta eftir, ad skiliast hier vid, og vera þar sem miñ HErra er; Eg kvijdi þa og ecki vid, ad svara hiñi fornu Vitaskulld, og ecki hrædist eg neitt Daudaus Ofbod, nie nockrar Andlaats Kvalir, þvi Jesus er mitt Lijf, og Daudiñ er miñ Aviñingur; øll mijn Vandrædi hefur hañ bætt; Hañ var hier hraktur og hriaadur af Omilldra Maña Høndum, so Hendur Heilagra Guds Eingla beri mig og bevari aa øllum Vegum þessa mijns Lijfs. Hañ mæddist hier i þeim diñu Nætur Myrkrum, so ad Dird ar-Lioos mijns Himneska Guds og Fødur, Liooma og

lijsa

liisa styldi yfir mier og ollum trwudum a Landi lifandi Maña. Laat nu, miñ allra sætasti HErra JEsu! þessa þijna Kvala-Gaungu vera mier og ollum þijnum Elskendum, eirn audlegañ Hiaalpræðis Krapt og Leydarvijsir, sa er oss Leidseigi a þañ saña Lijssins og Saaluhiaalpariñar Veg, og styrki oss veika til oruggrar Framgaungu a hinum sama, so Diofulliñ faai oss ecki forblindad, edur steypt i nockurn Holldlegañ Dofiñleika, ad ei liaaum vier vora Limi Syndiñi til Rangl'ætis Herklæda, helldur Gudi til Riettlætis Hervopna. Rom. 6. O miñ Drottiñ og miñ Gud! Eg beydi þig af Hiartans yñstu Rootum, asñijr þu Diofulsins aakiesdarfullu Araasum, hvoriar hañ ecki sparar vid oss auma, og hiaalpa oss i þiinum Krofti þær ad yfirviña, Amen.

# X. Cap.

Um Fyrsta Rañsak fyrer Caipha.

TEXTINN.

Og þeir leiddu hañ fyrst burt til Hañam, Saa var Fader Konu Caiphæ, hvor ed þa var þess Ars Ædste Prestur; Og þeir burt-leiddu JEsum faangeñ til Caipham Kieñemaña Hofdingia, eñ Caiphas var saa, sem Gydingum gaf þad Raad, ad betur være ad eirn Madur dæe fyrer Foolked. Og þeir iñleiddu hañ i Hws þess ypparsta Prests, þar ed med honum aller Kieñemaña-Hofdingiar,

Skriftlærder og Olldungar voru samaň komner. Eň Kieňemaňa Høfdingeň spurde JEsum þa ad, uŭ haňs Læresvel- na og haňs Kieňingu. Og JEsus svar- ade hønum: Eg hefe opeňberlega talad i Heimenum, eg hefe og med Jafnade kien- dt i Samkundu-Hwsum, og i Mustere- nu, þar ed Gydingar allstadar ad koma til samans, og eckert hefe eg i Leynum talad, hvad spyr þu mig ad þessu? Spyr þu þaa þar ad, sem heyrt hafa, hvad eg hefe talad til þeirra; Siaa þu, þeir hiner sømu vita, hvad eg hefe sagt. Eň sem haň talade þetta, þa gaf eirn Þienaraňa, sem þar stood hiaa, hønum eirn Kiň-Hest, og sagde: Skalltu so svara Biskupenum? JEsus svarade: Hafe eg illa talad, þa bevijsa þad, ad þad sie Orett, eň hafe eg satt sagt, hvar fyrer slær þu mig? Og Haňas sen- de haň bundeň til Caiphas Kieňemaňa- Hofdingia.

## UTLEGGINGIN.

AF þessum Heilogu Textans Ord- um, er sierdelles hlioda uŭ þad Fyrsta Ransak yfer Christo, fyrer þeim

þeim Andlega Rietti, hvsum vier Priar Hlute ad athuga.

I. Persoonurnar, fyrer hvorium, og af hvorium, þetta Ransak skiede. Hin Fyrsta sem hier verdur nefnd, var Hañas, hvorn Texteñ seiger vered hafa Fodur Konu Caiphæ. Þessu gamla Høfde hafa nu Gydingar, fyrer Æru Skulld, viliad fyrst boda þær Glede-Frietter, ad JEsus nu Loksins faangeñ være, i hvørs Blood hañ og adra hañs Med-Brædur þyrste, aflande sier soleides hañs Vinattu. Eñ med þvi Hañas var nu ecke i þad Siñ sar Ædste Høfud-Prestur, (so sem þa var þvilijkre Skickun hattad a añañ Veg, eñ Guds Logmaal fyrerskilde, Exod. 40. Þar Peningar riedu nu meir fyrer þeim Sesse asamt Vinattañ, (so sem Stundum plagar ad vera) helldur eñ Lijf-Stunda Skeided, hvørt þo rada atte, epter Tilvijsan St. Pauls Ebr. 7.) Þvi vijsade hañ Lausnaranum strax fra sier, so hañ fieck þar aungva Hvijlld nie Rooseme, og sende hañ Magle sijnum Caipha, er ad riettu Nafne kalladest Joseph, og þa var þess Ars Ædste Prestur, edur Kieñema-

ña Høfdinge. Vier med vorum Fyrstu Forelldrum høfdum forskulldad ad wtrekast wr þeim Æskelegasta Hvijldar-Stad Himneskrar Dijrdar; eñ JEsus hefur oss hañ aptur keypt, med þessum Onædissama Hrakninge, er hañ hier leid, hvar fyrer hønum einum ber Heidureñ og Packlæted: Audsynum þad medal añars i þvi, ad laata bæde Hwseñ og Hiörtun vor vera hønum eitt vel tilreidt Herberge, hvar iñe hañ meige Hvijlldir og Naader þiggia; Pad skiedur, ef vier temium oss Christelegt og Ærlegt Frañferde hid ytra, med Jdkun og Gudrækelegre Jhugan hañs Orda, og høfum eitt lijtelaatt, sundurkramed Hiarta hid iñra, fagnande lijka vel yfer þvi þo hañ þess i mille kome eirneñ med siñ Kross, med hvert Slag, sem hañ nu kiemur, jaa, hvert helldur hñ vitiar vor med Med- edur Mootlæte, þa tøkum glader i moote þvi og seigium þad velkomed.

Framar seigir Textiñ, ad Calphas þessi hafi verid saa, sem Gydingum hafi giefid þad Raad ad betur færi ad eirn Madur dæi fyrer Folkid. Johañes talar nockud utþrickilegar um þessa Spaa- sogu

sögn Caiphæ, og seigir, ad eftir þad JEsus hafe Lazarum uppvakid af Dauda, þaa hafe Kieñimaña-Höfdingiar og Phariseri halldid eitt Raad þar um̃, hvad þeir skylldu vid hañ giora, þvi ef þeir sleppti hönum, þar sem hañ giørdi þvilijk Teikn, þa mundu allir aa hañ trwa, og þa mundu Romveriar koma, og taka fraa þeim Lønd og Lijdi; þa seigir Johañes, ad Caiphas þessi hafi andsvarad þeim og sagt: Pier vitid eckert, og hugleidid ecki, ad betra er fyrir oss ad eirn Madur deye fyrir Foolkid, eñ allur Lijdur tapist; eñ þetta hafe Caiphas eigi sagt af sialfum sier, helldur hafi hañ spaad þessu, af þvi hañ var þess Ars ædsti Prestur, og fyrirsagt, ad JEsus skyllდi deya fyrir Foolkid, ecki einasta fyrir þad Foolk, edur Gydinga, helldur þad, hañ samañsafnadi i eitt þeim Guds Børnum er sundur voru dreifd Joh. 11. Og maa hier af siaa, hvad mikla Pocknan ad DRottiñ hafi hafi aa þeirri Kieñimañlegu Skickan, er hañ hafdi Aaroni og Sonum hañs i Hendur feingid, þar Embættis Andiñ þetta mællti fyrir Caipham,

aan sialfs hañs eigiñ Vitundar, aa þvi er hañ sagdi, edur þess Guds Hiaalpræ- dis Peckingar, er hañ veitti øllu Mañ- legu Kyni, fyrir Dauda og Forþienan Jesu Christi: Þar med sinti Caiphas har- la lijtid uñ þeñañ Guds Sañleika og Vijsdooms Raad, hvar uppaa siaa maa eitt lijkt Eptirdæmi aa Balaam, hver- lum og veitt var ein þvilijk Spaadooms Andagipt, af hvørri ad Muñuriñ taladi ut af Christo, samt var hañ Hreckium vafiñ, so hañ huxadi allt añad, þvi hañ mundi hafa bolvad Jsrael, hefdi hañ raa- da maatt, hvar til hañ knwdi Ormur A- gyrndariñar; Þar uñ maa framar le- sa i Fioordu Book Moysis. So kañ nu Gud ad uñsnwa Raadi Ogudlegra, sij- nu heilaga Nafni til Dijrdar, nær hñ vill.

O DRottiñ JEsu! Laattu þiñ heilaga Anda alldrei fraa oss vijkia, helldur leida oss þañ rietta Veg þiña Lijfsins Orda, so bædi Hiartad og Muñuriñ samhlioo- dandi sie i Lofgiørd þijns Heilaga Nafns aan alltar Hr- æsni, Yfirhylmingar og Yerugyrndar, so þier i alla Stadi vel þocknist!

Hier ad auk gietur Textiñ þess, ad i Caiphæ Høllu hafi allir þeir yppurstu Kieñimeñ, Skriptlærdir og Ølldungar

vel-

verid saman̄ komnir, alleinasta til ad samañbera sijn Slægdar-Raad moot Herranum Christo, so hvør legdi þad til, er hañ kiñi, uppteknum Asetningi til Framkvæmdar, ælijka og Refar Samsons fordum Daga æ Hølunum samañfastir. Dom. B. 15.

Gud giæfi ad soddañ Eindrægnis Samkomur til hiñs illa, edur til ad undirþryckia hiñ Saklausa, findust ecki æ vorum Døgum, helldur þær, sem Fridnum og Riettlætinu væri samhuga filgiandi, Gudi til Dijrdar eñ Landi og Lijdum til hiñs besta!

2. Høfum vier þessu nærst ad athuga sialft Rañsakid, hvørt Kieñimaña-Høfdingiñ strax byriar, og spyr JEsum, uñ hañs Lærisveina og Kieñingu, hvar til JEsus svarar hønum, ad hañ hafi opiñberlega, eñ med aungri Leynd, framflutt sijnar Kieñingar i Musterinu og ødrum Samkundu-Hwsum Gydinga, þar fyrir hefdi hañ ecki Ordsøk þar til ad svara, helldur væri sa Maals-Veguriñ riettari, ad hañ lieti adra, sem þær heyrt hefdi, sier þar uñ undirvijsa. Þetta skylldi nu eirn og sierhvør vorra grandvarlega athuga; Þvi hafe nu þad allra helgasta Guds Sonar Lijf og Frañferdi,

di, undir so skarpt Rañsak koma hlotid, þær munum vier stoorlega sekir og synd-ugir ecki þurfa þar vid ad dyliast, ad ein-hvørn Tijma mun vort Lijf og Frañ-ferdi undir Proof og Rañsak leidt verda, og þad opiñberast, sem hier hefur i Myrk-runum Jdrunarlaust hulid verid, þegar vier, a sijdasta Kvølldi þessarar Verall-dar, allir byrtast hliootum, fyrir Doom-stooli DRottiñs, og einum og sierhvør-tum skal endurgolldid verda, eftir sijnum Verkum, lijka vel stræangur Reiknings-skapur heimtast af sierhvøriu Onytiu Or-di, og Raad Hiartnaña opiñberast. Sk-uli nu ecki þetta Rañsak, syndug Mañ-eskia! Verda þier og mier obærelegt, og til Utsnørunar i eilijfañ Elld, vid hvøriu Samvitskuna maklega hrylla maa, þar hun er sier margskonar syndsamlegs og særgrætilegs Athæfis medvitandi; Pa læatum ockur ecki sofa so sem hina adra, helldur leggium fraa ockur, i Guds Naf-ni, alla Fegrun ockar Maalefnis, med-kieñandi lijtilaatlega, med heitum Jd-runar Taarum, ad vid maklega forskull-dad høfum eilijfañ Dauda-Doom; Bid-

ium

ium ockur siidañ Vægdar og Myskunar i JEsu Nafni, med fullkomnum Asetningi ad betra Lifnadiñ fyrir Hiaalp Drottiñs; Reidum ockur svo þar uppaa orugglega i Trwñ, ad þar fyrir hafe JEsus undir þetta skarpa Nañsak komid, ad vid friiast skylldum undañ Guds allsherjar Reidi Nañsaki; Og þetta skylldum vid alltiid giøra, og aa sierhvøriu Kvølldi ockar Æfedaga: so verdur þad Obrygdañlegt, ad ecki verdum vid af DRottni dæmdir, helldur til eilijfs Lijfs Urskurdadir. Peink hier um eirniñ, i Añañ Stad, þu Guds Kieñimadur! Og vit, ad eptir þvi muni verda grenslast, hvørt þu kieñt hafir Guds Ord hreint og klaart, og hvørniñ þu hafir ad þvi farid, hvørt i Tijma og Otijma, edur ecki, edur hagad þier eftir Tijdiñi med Kleñinguna riettilega vid sierhvørn. Spurt mun og verda eptir þeim Saudunum, sem þier voru aa Hendur faldir, og þu lietst, Sakir þijns Hyrduleysis og Hiaahlidrunar, burtvillast, og bliest ecki i Her-Lwduriñ, þegar þu saast Sverdid: hugsa i Tijma, hvar slijkt Gaaleysi muni lenda! JEsus

vill ad þiñi Kjeñingu sie so varid, ad þu talir Ordid hreint og utþryckilega, med hiñi mestu Alvorugiefni og Akiefd, legg-er aungvum Kodda undir Handleggina, og predikir þar ecki af Fridi, edur bodir hañ, þar hañs er ecki ad vænta, og lætir hvørki Vinskap, Aviñing, Persoonu Alit, nie nockud slijkt, hier fra hindra edur hræda þig. Krøftug skal hun eirn-iñ vera, edur Hamar sa, er Hiørtuñ sundurmelur, þar slijks er Þørf, eñ full-miwkrar Grædslu fyrir þa lemstrudu og saru, þar Vijn sem Vijn þienar, þar Vidsmiør sem Vidsmiør hlijdir, allt til þess, ad ecki hindrist Guds Dijrd, nie Sa-lirnar villist. J þessu Erfidi ber þier ad slijta øllum Krøftum, edur giefa þig ut, sem St. Paall, hvørsu lijtt sem þu þar fyrir elskadur verdur af sumum, asamt hønum.

O mig aumañ! hvad marghattud er mijn Vangiæt-sla og Hyrduleysi? O JEsu! Gack ecki i Doom vid mig, hiñ syndugasta Præl þiñ, helldur væg þu mijnum hryg-gilega Veikleika, sem mig angrar og astrijdir, Sakir þiñar miklu Myskunar! þvi þar sem eingiñ Forsoomun er hia þier fundiñ, þa reikna eg mier þad fullkomna Boot miña Avyrdinga; Veit þu, O JEsu, Styrk og Ad-stod øllum þijnum Pioonum!

Hier

Hier verdur og i Pridia Maata øllum Ordsins Tilheyrendum alvarlega bijfalad, ad þeir med allre Astundan, og Kostgiæfne, elske, ydki og læri Ord GUDs, hlijdi sijnum Kieñifedrum, er trwlega vaka yfir þeirra Saalum, so þeir faai giørt sitt Embættis Verk med Gledi, eñ ecki med Andvarpan, þvi þad er Tilheyrendunum ecki gott; Sieu og alltijd reidubunir med einordu Giedi ad medkieña þaa Saaluhiaalplegu Trw, fyrir hvørium, sem þeis Skials vill af þeim krefia, auglijsi hana eirniñ þar fyrir utañ med fastlegu Framhalldi Gudrækilegs Lijfernis og sañarlegs Meinleysis, af fremsta Megni, hvar til Gud þeim, og oss øllum hiaalpi fyrir JEsum Christum!

3. Sem JEsus hafde nu so hooglega svarad til Biskupsins Spurs-Maala, þa gaf eirn Þienarana honum eirn KiñHest, og sagde: Skalltu so svara Biskupenum? Lijka sem Frelsareñ hefde mikels til ofdiarflega og Oskickañlega hagad sier i Andsvørunum, og svipt so helgañ Fodur, sem Caiphas være, þeirre Audmijkt og Æru, er hañ hefde skylldugur vered honum

um ad veita; Og hefur maa skie viliad, ad hañ skyllde strax kyssa hañs Fætur, og medkieña þad hañ villde hellst heyra, eñ ecke Sañleikañ, hvør opt verdur ad Hatre hafdur, einkañlega sie hañ berlega og skijrt i Lioose laateñ. O þessa stooru Ohæfu, bæde fyrer sialfañ Doomarañ, slijkt ad lijda Ostraffad, moot Løgum og øllum Riette, sem og fyrer sialfañ Præleñ, er hier slær siñ HErra og Skapara næsta hardudlega! Prijsa maa hier, sem optar, þijna Blessada Poleñmæde, miñ HErra JEsu! ad þijn Milide leid þad Jørdeñ skyllde þessum Nijding uppe hallda: Eñ, Gud naade! þesse Skaalkur mun eñ þa eiga sier nockra Brædur i Straaka-Stofu þessarar Veralldar: mun þad ecke nærre laata, ad JEsus sie sleigeñ uppaa Kyñ-Vaangañ, þegar Guds Ord og Amiñingar eru et ad eins foraktadar, helldur og, þeir hatader, spottader, og ofsookter med Laste og Mootmælum, er oß Sañyrda, og ecke haga sier edur tala i alla Stade, so sem vor Drambseme heyra vill og hafa? Pad mun og þessum Kyñ-Hest nærre gaanga, þegar saa Saklause Lijtelmagne

maa Riettlaus bijda, og fær ecke Aheyr= slu, er helldur niðurkiærdur, og maa kyssa aa Hondena, faae hañ komest af, aan Hwdstroku og Fieslettingar, med aud= miwkre Fyrerglefningar=Boon, hafande Kiñroda i Aviñingeñ, ad miñsta Koste. Ei bligdast Caiphas þetta ad lijda Orda= laust i siñe Raad=Stofu, med ødru fley= ra þvilijku. Þeir nu sliikt lijda faa, med sijnum Meistara Christo, lære af hønum saña Hoogværd og Poleñmæde, og gledie sig, med Postulanum, yfer þvi, þad þeir faa slijkar Haadungar bera fyrer hañs Nafns Saker, og giefe hønum Hefndena. Hier ad auk, þo þeir skylduger sieu, epter hans Bode, ad rietta þeim þa einu Kiñ= ena, sem þaa hafa sleiged aa hina adra, þa meiga þeir þo augllijsa sitt Sakleyse, og kieña hinum Sañleikañ, hvørn Aviñing sem þad vill þa færa, eñ haga sier i hinu epter Tijdeñe, so Guds Ord og Skipaner hafe alltijd sijna riettu og tilhlijdelegu Æru og Virding aan Misbrwkunar. Þesse Kyñ=Hestur, er Frelsareñ Saklaus leid, giefur oss eirneñ Orsøk ad lijta til þess mikla Pwsturs, er Samvitskañ vei=

tte Adam Ovørum, þa hañ var i Synd-
ena falleñ, hvar vid hañ fieck eirn illañ
Kyñ-Roda, sem Von var ad. Þess veg-
na hlaut nu JEsus ad lijda þañ Hæadung-
arfulla Kyñ-Hest ønduerdlega Pijnu siñ-
ar, so hañ burt tæke hiñs Bligdan og O-
virdingu. Og hefur eirneñ hier med my-
kt og sefad øll svijdande Sløg Samvitsk-
uñar, so Satan fær alldrei Guds Børn,
med sijnum sæaru Freistinga Prøstrum,
yferbugad, eñ þo hañ þar vid æa ymsañ
Hæatt leitest, þvi JEsus er Trwr, og læ-
tur aungvañ yfer Megn freistadañ verda,
slær Satan æa Flootta og lætur siñ Krapt
vera i vorum mikla Breiskleika mæattug-
añ, hreinsande med sijnu Bloode vorar
Samvitskur af daudlegum Verkum, til
ad þioona Gude lifanda.

Fyrir þetta og allt añad Frelsi, er þu, O goodi JEsu!
oss afrekad hefur, sie þier Odaudleg Æra, og sieu
so þijn Sløg og særa Pijna, Bood og Læckning allra
vorra Meina, Eymda og Astrijdu, Amen.

# XI. Cap.

### Um Afneitan Peturs.

### TEXTINN.

Eñ

ENN Simon Petur filgdi Jesu eptir ꜳleingdar, allt i Forstofu Kieñimaña Høfdingians, og eirn añar Lærisveirn; sꜳ same Lærisveirn var kuñugur Kieñimaña-Hefdingianum og gieck iñ med JEsu i Forstofu Kieñimaña Høfdingians, eñ Petur stood þar ute fyrer Dyrunum. Þꜳ gieck ut sꜳ añar Lærisveirn, sem Kieñimaña-Høfdingianum var kuñugur, og talade vid Dyravørdslu Konuna, og leydde Petrum iñ leingra i Forstofu Kieñimaña Høfdingians. og hañ gieck iñ, þviad Þienararnir høfdu Elld kveiktañ i midri Forstofuñi, og setst til samans; eñ Petur setti sig ꜳ millum þeirra, og vermdi sig vid Logañ, ad hañ sæi hvør Ender þar ꜳ yrdi. Eñ Petur sat utar i Forstofuñi, og þar hañ var fram betur i Forstofuñi, kom ein af Ambꜳttum Kieñimaña-Høfdingians; Og þꜳ hun leit Petrum sitia vid Logañ og verma sig, leit hun til hans, og starde ꜳ hañ, gieck til hañs, og sagde: Hvørt ertu og eirn af þess Mañs Lærisveinum? Og þu

varst

varst med JEsu þeim Gallilæiska af Nazareth. Eñ hañ afneitade hønum fyrer øllum, seigiandi: Kona! Ei er eg, eg þecki hañ eigi, og ei veit eg hvad þu seigir: Og hañ gieck ut i Fordyrid, og Haniñ gool. eñ Þrælarner og Þienararner stoodu, sem giørt høfdu Kola Elld, og vermdu sig, þviad Kuldi var: Petur stood þar hiaa þeim og vermdi sig. Eñ þar Ambaattiñ saa Petrum, tok hun aptur til ad seigia þeim, sem þar hiaa stoodu: Þessi er eirn af þeim. Eñ sem hañ gieck ut um Dyrnar, leit hañ ein oñur Ambaatt, og sagde til þeirra, sem þar voru: Þessi var og med JEsu af Nazareth. Og litlu sijdar þar eptir saa hañ eirn añar, og sagdi: þu ert og eirn af þeim. og Simon Petrus stood þar og vermdi sig: Þaa tøludu þeir til hañs: Ertu af hañs Lærisveinum? Og i añad siñ neitade Petur aptur med Eydi, og sagdi: Madur, eigi em eg, ecke þecki eg þañ Mañ. Og litlum Tijma þar eptir, nær eirnri Stundu, styrkti nockur añar þad, og sagdi: Ad søñu var og þessi med hønum, þvi hañ er eirn Gali-

læari. Og aptur geingu þeir ad, er hiaa stoodu, og sogdu til Peturs: Sañarlega ertu af þeim, þviad þitt Twngumaal er samhlioода og opinberar þig. Þaa sagdi eirn af Kieñimaña Høfdingians Þienurum, Frænди þess sem Petur hioo af Eyrad: Saa eg þig ecki i Grasgardinum med hoñum? Þaa neitadi Petur þvi eñ aptur, og sagdi: Madur, eigi veit eg hvad þu seigir: þaa took hañ til ad Formæla sier, og sveria: eigi þecki eg þañ Mañ um hvorn þier talid.

## UTLEGGINGIN.

Esse Hlute Gudspialls-Historiuñar, syner oss þad hier: Fyrst: hvørsu naakvæmlega þeir goodu Guds Astvíner fordum Daga uppteiknad hafe, bæde siñ og añara Sorglegañ Hollds-Veikleika og stooru Misgiørder, og ongvañ Dul þar yfer dreiged, þo ecke i þeirre Meiningu, ad añara Avirdingar rwtbreiddu þeim til Lasts og Van-Æru fyrer Moñum, so sem nu opt plagar ad skie (þvi verr) edur ad sialfum sier Vegsemdar afla villdu, medal Syndugra, hvørre þeir

 lijted

lijted syñtu, Olijker allmorgum Siaalf-Hælingum vorrar Alldar, sem naalega fyrer hvørn Mun hana faa villia: Helld-ur, so Gud skyllde aungvañ Brest lijda aa siñe tilhlijdelegu Æru og Virding, er þaa fallna aftur aa Fætur reisti, og breiddi yfir bloodug Synda Saar þeirra, Skijlu inivokrar Myskunar siñar, so fyrir hañs straanga Riettlæti alldrei framar siaast edur tilreiknast skylldu, og ad eg, hryggi-lega stoorsyndugur, og bloodugum Saa-rum allur-særdur, med hvørium adra hneixla, og hneixlad hefi, læra skylldi, aa-samt edrum, ad ørvænta mier alldrei Myskunar og Vægdar DRottiñs mijns, sem alltijd er sama Giædsku Gieds, og li-et hiña Myskun hreppa, audsijnandi aa þeim alla Poliñmædi, mier (þo olijkur hinum sømu sie i Umvendaniñi) og ed-rum til Eftirdæmis, sem aa hañ trwa, og trwa munu til eilijfs Lijfs, 1. Tim. 1. Hvørium fyrir Lykn sijna, sie Lof og Dijrd ad Eilijfu Amen! Ad þessu un-dañgeingnu, gietur Gudspialls Histor-iañ, ad Petur hafe, ad hinum Lærisvei-nunum burtflwnum, filgt Lausnaranum

eftir

eftir aaleingdar, allt i Forstofu Kieñimaña-Hofdingians, hvar hañ setti sig nidur hiaa Prælunum, og villdi so bijda þess, ad hañ kyñi ad siaa, hvør Ending yrdi aa Christi Maalefnum. So hefur þa Petur tekid sier tveñt fyrir Hendur, sem ecki i þetta Siñ hlijddi: Fyrst Vørnina, uñ hvøria aadur er talad, hver ed var þvert i moot Herrans Vilia; Þar næst Filgd þessa, sem hønum nu ecki af Christo skipud var, ei ad sijdur hefur Elska til JEsum knwd hañ, er fyrr var blønduð med Ofdyrfsku, eñ nu med osmiklum Otta og Hrædslu, og þvi ecki eftir tilhlijdilegri Reglu; Og maa hier siaa vorn rietta Speigil. Hvad framgiørnir vier sieum margur hvør i Ofdyrfskuñi, medañ oss kiemur eingiñ Hneckir, sijna dagleg Dæmi; Er þad og Maalaſañast, ad vier virdum þad þa margt Bleiduskap og Dugnadarleysi, sem kalla maa forsiaallega Framsijni; Vier sprettum oss so Athugalauslega aa Hiooli Luckuñar, lijka sem kyñi þad ecki ad snwast, sem þo er hvøriu Svelli haalara, og biodum Kroftum vorum næsta frekt, sem

 þo

þo eru af siaalfum sier Straas Gylldi (ef ecki mildur) i miklum Stormi, hvad sig auglijsir ei einasta i Strijdum, helldur og stundum jafnvel i hinum minsta moot-Blaasturs og Freystinga Vind-Blæ, so vier reynunst þa oft i Fylgdiñi vid Jesum miklu mildur aa oss komnir, eñ hinir, hvøria vier aadur Vesalmeñi kølludum; Næsta Lundlijkir þeim aa Helluñi, hvørier Ordid medtaka med Fognudi, eñ falla fraa aa Freystingar Tijmanum, Luc. 8. Fyrir þvi, hvør hañ þikist standa, siaai hañ til, ad hañ falli ecki, 1. Cor. 10. Þvi ofdiarfur Madur giørir sier siaalfum mikla Olucku, og stofnar eina Eymd eftir adra, seigir Syrach. Cap. 3.

Miñ goodi JEsu! Eg vil ad søñu, nær þu villt so vera laata, filgia þier eftir aa Veigi Hørmungaña, eñ eg bid þijn mikla Myskun vægi mier og vorkieñi, þo eg nockud aaleingdar eftir verdi, og hørmulegur Holldsins Veikleiki miñ hamli mier, hvør sig oftast auglijsir, nær i nockrar Naudir rekur med staklegu Trwariñar og Poliñmædiñar Maattleysi: Og nær so skiedur, vertu þaa Ogleimiñ, sæti HErra! Þins blessada Firirheitis; riettu mier þijna Hiaalpar-Hønd, og laattu ecki hañ brookada Reyriñ sundurbrotna, edur þañ riwkanda Lijnkveik utslokna. Es. 42.

J Før med Petri, seigir Textiñ og, ad verid hafi eirn aññar Lærisveirn, maa

skie

ſkie ſiaalfur Johañes, þo hñ þeigi hier yfir Natni ſijnu, ſtundandi þar med Dygd Lijtilætiſins. Sa ſami Læriſveirn var kuñugur Kieñimaña Hofdingianum, ei med þeim Kuñingſkap, er ſambyllir edur elſkar hid vonda, helldur audſijnir oſs med ſijnu Eftirdæmi, ad vier eigum, ſo mikid ſem mögulegt er, hafa Frid vid alla Meñ. Þeſſhaattar Frid tillætur Guds Myſkunſama Forſioon trwudum, ſo hañs Börn, hañs Læriſveinar, kuñi faa Tækifæri ad ſnwa vondum Möñum fraa Vegum þeirra Ranglætis, og giöra hañs Börnum til gooda; Eñ ef þad ei luckaſt, þa ad avvljta og ſañfæra þa, ſo ſem Petur og adrir Poſtular ſijdar giördu vid Preſta-Höfdingiana og þeirra Medbrædur. Þvilijkur eiñ var Moyſes, uppaliñ i Höllu Pharaonis, ſem ſijdar vard hönum og hañs Hwſe eitt ſtraangt Refſingar Medal af Guds Haalfu. Þeſs Læriſveirn gieck ecki einaſta ſiaalfur iñ med Jeſu i Forſtofuna, helldur og þar ſem ad Petur, bædi af Blygdun Verks ſijns i Grasgardinum, ſamt Faatæktar og Okuñugleika, ſtood fyrir Dyrum wti,

(hvar hønum hefdi maaskie hentari Samastadur verid) kom honum iñ leingra i Forsiofuna, ad feinganu Leysi Dyravørdslu Konuñar, hvad Petri mun vellijkad hafa, aa medañ hañ þeckti ecki hañ Straaka Stødul er þar var; Maatti og eirniñ af Hendi þeßa Onefnda Lærisveins Velgiørd kallast, med þvi hun framkom af helgum Einfalldleika, og Grañleysi uñ eftirfilgiandi Ohamingiu; Þvi hvørniñ maa saa riettilega reiknast Vijta verdur, er velmeinta Velgiørd hyggur ødrum sijna, þo hinum verdi hun ad misjøfnum Notum, og ecki alltijd eftir þeß Osk er veitti? Til Dæmis: Hvørniñ maa eg skullda Fødurin, sem komid hefur Barni sijnu i Gard meiri Maña, til þeß þad ydkast skylldi i Mentum og goodum Lærdoomi, þo þad læri þar af einhvørium Oraadvandari Ogudleika, sem oftar maaskie skiedur eñ skylldi: Eñ hitt maa seigia med øllum Rietti, bædi uñ hier greindt Efni og añur; Ad nema DRottiñ uppbyggi Hwsid, þa erfida þeir forgiefins, sem þad uppbyggia. Ps. 127.

Sem Petur er nu hier iñkomiñ, settst hañ

hañ nidur hiaa Prælunum, og fer ad vermа sig, vid þeirra kveiktañ Kola Eſld, hvar ein Ambaatt ſproogſetur hañ, og ſijdañ brædir med biſtri Eftirſpurn, hvort hañ ſie eirn af JEſu Lærlſveinum? Hvoriu hañ nu i fyrſta Siñi þverneitar, og i þvi Vili gool Hanñ. Fyrir Forſtofu þeſsa, i hvørri ad Petur nidur ſettiſt, aaſamt og fyrir Ambaattina, er hañ þar ſproogſetti, og ſkielfdi, maa riettilega ſkiliaſt þeſsi Hneixlisfulla og ſpielna Verølld, ſem helldur jafnañ aa Gullkierl Hoorunnar ſiñar, fullu Svijvyrdingar og Ohreinenda, og er Moodir Frillulifnadarins og allrar Svijvirdu aa Jordu, hvørjar Diøfullin vid heñi gietur, heñar Høfdingi. Joh. 16. Þegar nu Guds Þioonar med Amiñingunum, ad Gudi tilſtyrktanda, og hinum, er þar vid miñvendaſt, gaanga undañ heñar Dryckiu-Bordum, og berla Smaabørnum heñar ſoleidis vid hardañ Hellu-Stein, þa er ad bwaſt vid, hun ſproogſetie þa og ygli ſig; og leitiſt vid ad giøra þa ſier ad Herfaangi, þvi þad ſem hun hefur giørt vid HErrañ, þeſs meiga Þioonarnir vænta

ta sier; Jaa, hun hefur so ellt allañ Dug ur morgum koskum, ad þeir hafa ad litlu ordid, hvørium aadur þokti sier fætt vera Omaattugt, sem siaa maa af strax-nefndu Dæmi þessa gooda Guds Mañs, hvør fyrir skiemstu, i Alldingardinum, var fullhuga, og þar fyrir; eñ nu skielfd'st hañ so vid Ord eirnar ouddvirdilegrar Ambaattar, ad hañ datt ur þvi mestverda Sañleikans Sæti so skadvænlega, ad hønum var eilijfur Daudi bwiñ. O hvad mun eg þa, vesæll og vangiætiñ, faa sied vid Svikum og Hreckia Ahlaupum Diøfulsins og þessarar vondu Verralldar!

O JEsu! Styrk þu mig, og sierhvørn þiñ; med þijnum Almættes Krapte, og brynia oss med þijnu Hiaalpræde, moot øllum þeirra Araasum, So bæde Saalu, Lijfe, og Æru sie Ohætt, þu sem af Myskun þiñe, moot Wilia Diøfuls og Veralldar, snwed hefur miñe Hrøsun og Ogiæfu i Blessan, Hallt fram miñ DRotteñ þvi hinu sama Hiaalpræde þijnu; Og skule eg framar sigtadur verda, þa bid, O JEsu! fyrer mier, ad mijn Trw þrotne ecke, So eilijfañ Sigur wr Bitum bere, og þier uñ Allder Lof seige.

Fyrer Pienarana, sem aadur er uñ talad, skiliast aller þeir, sem sig giora ad Hollðsins Skulldunautum, og liaa sijna Limu Raanglætenu til Her-Vopna, ver-

andi

ande að ynsaň Hiartt Syndeñe under-glefner, ytlærder i Villum og False, hvø-rium ad fullu og øllu leite tilheyrer það Nafn að heita Syndareñar Prælar, þo aller þvi Nafne kalleſt, er hana giøra, Joh. 8. Kola-Elldur þeſſara Prælaña eru allar Glæpugar Holldſins Gyrnder og vondar Tilhneigingar, hvøriar i þeirra Hugſkotum breña ſem Elldur, og bægia þeim frá Omeingudum Elſku-Hita til ſijns Guds og Frelſarans JEſu Chriſti; med þvi ſá Himneſke Altar-Elldur Hei-lags Anda, fær ecke iñe hiá þeim, med Fraŭkvæmd ſiña Verkana, Ei helldur Saaluhiaalplegt Naadar-Skyn Guds Orda, ſo það Avørt fære; Eñ Høfud-Glædur þeſſa Kola-Ellds, af hvørium hinar ſinærre lifna, eru Sorger, Audæfe og Gyrnder þeſſarar Veralldar, Luc. 8. Þvi allt ſoddañ, er fiñſt i heñe, Er Fijſn Holldſins, Gyrnd Augnaña, og Dramb-ſamt Lijferne; Þad er ecke af Fødurnum, helldur af þeirre drucknu Hooru Heimen-um er forgeingur med ſiñe Fijſn, 1. Joh. 2. Hvørneñ maa nu ſiá, ſem ſettſt nidur, ed-ur ſamlagar ſig aadur-nefndum Præl-

um, og rietter sijnar Hendur ad hier=nef=ndum Kola=Ellde þeirra, klaklaust, edur burt, af komast? Þvi so sem saa, er snerter Tioruna, kañ ecke hreirn fraa heñe ad gaanga: So er og Einfølldum Mañe, og jafnvel þo sviñur kallest, Slis og Hætta hvweñ medal vondra Skaalka, þvi med Froomum ertu froomur, eñ med Raang=snwnum Raangsnweñ, Ps. 18. Epter skiena hina Fyrstu Afneitan, villde Petur giarnañ aa burt komast, og veik sier i For=Dyred; Eñ siaa! hier mæter hūñ oñur Ambaatt, med sama Yferlit og hin fyrre, hvørrar Maal hiner adrer stirktu, so ad Petur neitade aptur, med Eyde, sijnum HErra. Og litlu þar epter stirktu þetta eñ adrer, ad vissulega være hañ eirn af Christi Læresveinum, þvi hañs Galilæ=iska Tungumaal Opeñberade hañ. Og eñ framar mæter hønum Frænde Malchi, og seiger, ad sañlega mune hañ hafa sied hañ i Grasgardenum. Allt þetta þreyn=gde so hardt ad Petre, ad hañ ecke einasta i Þridia Siñ afneitade JEsu, helldur og formællte sialfum sier þar aa ofañ. Hvad Mañskiad og Hættusom ad sie Or=
usta

uſta þeſſara aumu og briggelegu Mañſins Vegferdar-Daga, þad auglijſer Ord DRotteñs aa marga Vegu. St. Paall ſeiger, ad epter þad hañ med ſijnum Filgiurum komed hafe i Macedoniam, þa hafe þeirra Holld aungva Roo haft, helldur i ollu Hriggd lided, hid ytra Baraattu, hid inra Otta og Hrædſlu, 2. Cor. 7. Epter þad vier komner erum af Preyngſlum Moodur-Lijfſins, þa komum vier ſtrax med Veine i Preyngſle þeſſarar Veralldar, i hvorium ad eru Otal faarlegar Snørur aa ymſa Vegu tilbwnar ſierhvorre Mañſins Athofn; Po Meñ faae eitt Siñ Skada, þa fær þo ſaa Skade hañ ecke ſo vijſañ giort, ad hañ giete fyrer alla adra gyrdt, þo hañ feigeñ vilie; Jaa, þo hañ hafe þar fyrer bæde Umhyggiu og Erfide, hañ maa ei ad ſijdur Kvijdboga bera fyrer odrum meire og þijngre, hvør hañ og eirneñ Stundum hitter. Hvar mun ſaa fiñaſt, ſem ecke hefur aa einhvorn Haatt ſigraſt laated, þar ſem aller eru fraavikner, og hafa Skort aa þeirre Hrooſan, er fyrer Gude gyllder! Eñ þo eirn ſie odrum ſterkare i Strijdenu, og vilie þar fyrer Steine kaſta

kasta aa sier miñe Mañ, þa hafa þo bææd-
er þeiged þad þeir hafa ; Þeß mun og
stóor Munur, hvort eirn er i øndverdre
Filkingu edur aptast, þo bææder sieu i
Orustuñe : Þad vard Lijf-Tioon Uriæ
Hetiters, ad hañ var settur, þar Bardag-
eñ var Mañskiædastur, Ei ad sijdur var
hañ Kappe mikell, og mun einhvor hon-
um mine-hæættar hafa afkomest. Sa-
tan plagar ad hafa þad so ; Þegar hønum
þiker eitt Skeite ei so beitt vera, sem hon-
um lijkar, þa hvetur hañ añad og hid þrid-
ia, so þeirre Vesæluñaneskiu, er hañ
hefur midad til, skule ad fullu rijda, ef
hañ maa rææda ; Ei biladist Job vid þad
Fyrsta og Añad, eñ hid Þridia giørde nock-
ud ad i þvi. Þo hañ hafe eitt Siñ svælt
oß i sijnu Viela-Nete, og komed oß til ad
rietta Hendurnar ad Lastaña-Vææle, þa
lætur hañ sier ecke þar med duga, helldur
fiñur uppaa fleyra, so ad ein Syndeñ skule
safnast aa adra ofañ, og vort hid Sijdara
skule verra verda hinu Fyrra, so sem hier
skiede hañ gooda Guds Mañ Petur, i
Veg fyrer hvorn ad eirn Prælleñ kom ød-
rum verre, þar til hañ fiell og slasadest
herfi-

herfelega, og þad so, ad hañ mist hefde þad eilijfa Lijfed, hefde ecke þad sama beded fyrer honum, so hañs Trw skyllde ecke brotna. So vite þa sierhvør vorra og giære þeßeirneñ, ad hvørke vantar Dioffuleñ vondañ Krapt nie Vilia, ad stofna oß i Olucku Lijfs og Saalar, ef hañ feinge þar Valld a, og DRottneñ tæke af Hendena: og hier fyrer, þad vier støndum, og þad vier fallner uppriisum þad er af Gude: sæktum þvi epter Goodu, so mun oß gott skie, eñ ecke epter Oluckuñe med Diorfsungarsomu Ofstrauste og Forvitne, so hun mæte oß ecke og hallde siidañ: Vondum Ord og Athafner, so Avexterner me'ge Trienu Vitne bera ad gott sie, þvi þad sem ei er faled, fiñst alldrei.

Eñ DRottens Dyrdareñar leide oß i allañ Sañleika, og hiaalpe veikum Kroptum vorum, so stødúger standa kuñum i þeim vonda Solle Veralldareñar, med riettum Guds Barna Forsiaaleika, allt þar til vier komnust wr Eymda og Haaskafullre Myrkva-Stofu þeßare i Lioos, Fognud og Füllsælu Audvaralausrar Roosseme eilijfs Lijfs, og Selskap Utvalldra, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

# XII. Cap.

Um Ydran Peturs.

Text

## TEXTINN.

OG jafnsnart er hañ nu taladi þetta, gool Haniñ i añad siñ. Og DRottiñ sneri sier vid, og leit til Peturs; Og Petur miñtist Ordaña JEsu, er hañ hafdi sagt til hañs: Adur eñ Haniñ galar tvisvar, muntu afneita mier þrisvar. Og hañ gieck ut og griet Beysklega.

## UTLEGGINGIN.

HJER wt af høfum vier fierdeilis tvent ad athuga.

I. Þad, hvad Lausnariñ giørir hier vid þeñañ siñ tijnda Saud Petur, er so falliñ var a Veg eilijfrar Glotunar; sañlega giørir hañ þad hier, er hañ talar um i Gudspiallinu. Luc. 15. þveikir Lioos og soopar Hwsid, leitandi þar til hañ fær hañ fundid, og burt tekid ur Gildru Diøfulsins. Ad søñu hafder þu, miñ DRotteñ! noogsamlega advarad Petur fyrerfram, hvør Skalar Bode ad yfer hønum hlenge, hvøriu Petur þo all-lijtt siñte, hvad oss er eirneñ tijdt blindum og bægræknum; þar a ofañ lietst

þu

þu Hanañ og hañs Hliood, verda honum til eirnrar Amiñingar, ad fyrer þad mætte hañ af Syndareñar Veige til þiin aptur snwa: So þo hañ hefde ecke uñvendast, þa var þo eingeñ Skulld þar wti hiaa þier, helldur hefde hañs Fordæming orded alldeiles makleg, ef i Riett vid hañ geinged hefdir þar uñ. Nu so sem hvørngt af þessu gat Idran æakomid vid Petur, hvørki Advøruniñ nie Hana-Galid, ad hañ riettilega uñvendtist, þar sem so stoort Saar þurfti meiri Græðslu, og miwkari Plaastur, med þvi þad fyrra var nu honum ur Miñi lidid, eñ þad siidara, edur tvø Hana-Gøliñ, ollsudu honum eckt utañ saarlegs Otta og saargrætilegrar Hræðslu, af hvørri hañ skiaalfandi hefur visulega ecki vitad, hvad hañ taladi edur adhafdist; So er þvi og varid fyrir þeirri villtu Mañeskiu. Þegar hun hefur eitt siñ iñdruckid þad bañvæna Eytur Syndariñar, þa tekur Samvitskañ til ad veina og berast illa af hid iñra, med þvi hun hefur hiaa sier hañ deydandi Bookstafiñ, þo Miñing Advørunariñar sie horfiñ: Hun nagar þa so saart

sem añad Leon, og stijngur sem Hoggor-
mur þa sokudu Skiepnu, so heñi er Aung-
vit og Daudi bwiñ : Po hun graati nu
og andvarpi undañ þessum Svida, og
vilie uñflija soddañ nijstandi Hana-Gal
Samvitskuñar, þa fær hun sig samt ecki
vid þad skilid, helldur eñ Fugl saa er i
Snøruñi erfaungiñ, og vill vidleitast, aa
allañ Haatt, i burt ad komast, eñ fær þvi
þo ecki orkad: Po hun eñ framar vilie
helta Boot og Betran, og standa upp,
edur vijkia fraa þeim fyrri vondu Athøf-
num, þa verdur þad ecki alltijd so aud-
velldt, þvi saa iñrætti vondi Vani knijr
hana sem añar Bødull, og leggur Haft
uñ Fætur heñi, so hun fellur ur einum
Vandanum i añañ þijngri, ur Hrædsl-
uñi i Grøfina, ur Grøfiñi i Snøruna,
Jer. 48. Og giørir meira illt eñ aadur
giørdi hun, med þvi hun er so Proottlaus
ordiñ, ad hun gietur eckert gott giørt af
sialfri sier til. 2. Cor. 3. Þegar nu so
er komid i stooruñ Vanda Maalefni
Mañeskiuñar, þa kiemur eptir hid añad
Hana-Gal, þegar Løgmaalid tekur til ad
hroopa og yferlijsa þvi sem DRottiñ bañ-
ad

ad hefur þar iñi; Þetta Hana=Galid, med siñi beyskri Bølvunar Hootan, yfir giørdum Glæpum, lemur, þvijngar, særir og sundurkremur þa sorgfullu syndugu Samvitsku, og aflar heñi eñ meiri Sorgar og Hrellingar, eñ fær hana þo ecki aftur huggad, edur af Bølvaniñi leyst, nie nockurn riettlaatañ giørt fyrir Gudi; hvar fyrir ad Hollðsins Praakielkni uppæsist, so ad iñrættur Syndariñar Vank þrooast æ meyr, hvør sier tekur Tilefni af Bodordunum, og elur upp i Mañinum allshaattadar Gyrndir; samt og aadur er þo Løgmaalid heilagt, riett og gott: Er þa þad sem gott er, ad Dauda ordid? Vijst fiærri, helldur so ad Syndiñ þeckist fyrir Synd, og hvørniñ hun væri Synd, og þa giordi hun Dauda, (hier uñ talar so St. Paall Rom. 7.)

Þar sem nu Alvitska Frelsarans saa, ad et mundi so bwid blijda, ef Petur ætti upp ad vakna, liet hañ ecki bijda ad leggia strax til þad, sem hønum duga skilldi: " Sneri sier vid og leit til hañs, " undir eins og Haniñ galad hafdi i Añad Siñ, audsijnandi, ad hvørttveggia blijddi

iddi Daudlegu Synda Saari til Lækn-
ingar; med þvi firra tilbijr hañ sier Veig-
iñ fyrir þad sijdara, þvi þad hlijtur aad-
ur saart ad verda, og Saarid ad þeckiast,
sem grædast skal. Þetta Tillit Drottins
bætti strax þad brostid var, læknadi,
huggadi og hresti þad sorgfulla Hiartad,
og Leidsagdi þvi aa riettañ Umvendunar
Veg. Þessu Tilliti JEsu filgdi Naad-
argaafa Andans, er burttekur Stein-
Hiartad, og giefur aftur eitt nijtt Kiøt-
legt Hiarta og nijañ Anda, jaa, gíorir eirn
goodañ mañ af illum. Eñ Verkfærid,
sem Heilagur Andi hier til brwkar, er
Ordid Drottins, edur saa ilmsæti Hun-
aangs-Seimur hañs blessadra Naadar
Fyrirheita, sem hugga þañ brellda og
hallda honum vid, so hañ fyrirfarist ecki
i siñi Eymd. Ps. 119. Fyrir þetta
Verkfærid kiemur heilagur Andi þvi og
til Leidar, ad Mañeskiañ fær aftur aa
moot litid med hreinum Trwar Augum
til sijns Græðara JEsu. Fyrir þad rei-
sir hañ hana aa Fætur aftur, leysir ha-
na aadur bundna, endurnærir hana i
Aungvit lidna, og helldur heñi vid i
þvi

þvi gooda allt til Enda; Ecki eru þess-
er Kraptar af Hollde og Bloode; Eckert
fær Madurenn þetta af eigenn Krapte teked,
þo sumer so raunglega meine, er ecke vita,
helldur enn Vijlæte af Trie edur Steine
hoggvid, ad giøra Greinarmun millum
þess Gamla og Nija Manns, edur þess End
urfædda og O-Endurfædda; villa og ecke
Stundum sier þar umm seigiast laata, og
falla þar fyrer opt i hinn argasta Villu-
doom, og villa giøra Gud ad Orsøk Synd-
arennar, fyrer þad, ad þeir af Prioottsku sinne
mootstanda ædur æmtinnstum Verkun-
um JEsu Tillits og Heil. Anda, næsta O-
lijker Petre þar wti, helldur samlijker
Gydingum, þeim Stephanus verdugle-
ga kallade Ounnskorna i Hiarta og Eyr-
um. Act. 7.

Enn hvørnenn munde nu Petur skipast
vid þad Sijdasta Hliood Hanans og Til-
lit DRottens, er þvi strax æ epterfylgde,
þess høfum vier nu, J Odru Lagi, ad minn-
ast. Pannig skipast hann, ad fyrst minnest
hann Ordanna JEsu, edur þeirrar Advørun-
ar, er hann honum giørt hafde fyrerframm,
ad hann munde sier Prisvar afneita, æd-

ur Hanñ Tvisvar galadi. Vel er þeim
varid, er so giora, og laata sig raanka vid
Synd siñi, edur þeckia siñ villta Veg, og
riettlæta ecki Raanglætis Verkiñ, hvor-
ke aa sier nie ødrum, þvi þeim Glæp er var-
la añar verre og sviivirdelegre fyrer Gude.
Po þu siaaer ecke med sama Hætte Aug-
lit DRottens, og Petur i Biskups-Høll-
ene, edur Stephanus i Grioot=Hriidene,
þa fær þo hvørt eitt Guds Barn fyrer
Heil. Anda, sem þvi er giefeñ, er klaar-
ar þeirra Trwar=Augu, ad heyra hañ i
Ordenu af Muñe hañs Pienara, fyrer
hvøria hañ siaalfur talar; Og siaa hañ i
Sacramentunum, so ad þau vissulega
hreppe þa Sælu, er Christur umtalar, ad
þeir ødlest, er ecke siaa hañ Lijkamlega, eñ
trwa þo. Joh. 20. Hvar med hañ lætur
sitt Andlits=Lioos lijsa yfer oss, so hiaalp-
ast og umvendast skulum fraa Satans
Valldeе til Guds Rijkes; Og er slijkt eitt
stoort Naadar=Teikn, epter hvoriu ad
Blessuneñe eirneñ yfer oss lijst verdur af
Guds Haalfu i hañs Hwse, og þar fyrer
utañ, so t oss skapast meige eitt hreint
Hiarta og nijr Ande, er miñi oss aa allt

þad,

þad, JEsus hefur fyrerfram̃ sagt oss, og uppreise af Dauda Syndareñar, til Lifnadarens Endurnijungar. Pu Syndug Mañeskia, tef ecke ad vakna vid slijkt! hvad sesur þu? Edur villtu bijda þess Pridia Hana=Gals, og Reide Til=Lits DRotteñs a Sijdasta Deige, er koma mun sem Pioofur a Noottu, og siaa yfer alla Ogudlega og Ydrunarlausa, þeim til eilijfrar Skielfingar, Kvala og Kyrkingar. Peirre Blindni forde oss Gud fyrer JEsu Christi saaru Kvøl og Pijnu, Amen.

J Aññañ Maata: Jafnsnart og Petur minteft Ordaña JEsu, og fieck þeckt sitt stoora Fall, þa liet hañ af Jllu, og gieck burt wr Synda=Salnum. Siaa til þu giører hid sama, ef þig hender nockur hastarleg Hrøsun, sem þeñañ Guds Mañ, þa aattu þad allt under Myskun Guds, hvort þu fær naad riettre Umvendan; hvar fyrer þu skallt ecke so þeinkia, ad þu hafer noogañ Tijma til Ydrunar, edur ad þu kuñer ad bæta þig, þegar þier synest, hvad leinge sem þu þad undañ dregur, og er slijkt forherdtra Maña Haattur; Gack wt i Tijma af Herberge Syndareñar, og skioot

þvi ecke at Freist, eñ þo ecke til Onijtes, hvad þo skiedur, hafer þu List at til hins sama Herberges aptur ad venda, og vilier þu vellta þier i sömu Glæpum og ædur; Hæd ecke so ad DRottne viliande, og gior eckert Leik=Spil ad hañs Poleñmæde, so sem eiger þu hana med Skylldu, hvad lænigt er fiærre; Helldur, þar sem JEsus synijr ad þier sijnu Astar=Auglite, sem ædur er rædt, og þar ad auke æ margañ añañ Hætt, þa lijt þu og Hiarta=gladur i mooste honum, med hreinre Elsku, og læt af Illu: fyrst hañ erfidar alltijd i þvi fyrra, þa erfida þu og aptur i þvi sijdara, epter þeim Krapte sem hañ hefur giefed þier, og kieñ þad ecke Vanmættenum, sem Prlootskuñe er ad tileigna; Fegra ecke Leste þijna med neinu Dygda=Skyne, og viñ þad ecke til Mañana Vegsemdar, ad missa Vegsemd þa, er þu ætt og mætt i og hiaa Gude hafa, ef þu hlijder honum, og lætur þiñ Vilia hañs Vilia undergiefeñ vera. Giorer þu so, þa formættu alla Hlute i þeim, er þig mættugañ giorer, DRottne JEsu Christo. J Pridia Mæta, Griet Petur sitt hörmulega Fall Beisklega;
Ver=

Verum og, sem hønum eruu ecke ad eins likker i Syndunum, helldur lakare, hañs Epterbreitarar i slijku; so þar sem rekia maa Synda Blood-Fereleñ vorn fraa Modur-Lijfe allt til Grafareñar, þa laatum og rakeñ verda af DRottne, sem veit vorar Andvarpaner, beiskañ Ydrunar og Taara-Ferel vorn, i stødugre Trw aa hañs Myskun, allt til Enda.; Pad Offur mun saa Almaattuge alldrei fyrerlijta, helldur naaduglega aalijta, og þaa hugga, er þad fram bera, og af-þurka sijdañ oll Hrigdar-Taar af þeirra Augum. Opinber. V. 7.

DRotteñ JEsu! Laattu þitt Blessad Andlytis Liioos lijsa yfer oss Syndum særdar Mañeskiur, og bend þu oss, þegar vier hrøsum, hvad opt skiedur, i þiñe miwku Myskunseme: HErra JEsu! Eg lijt opt til þijn grataande Augum, lijt þvi aptur i Naad til þijns Præls, og leys sarsællega oll mijn Vandrœde, Amen. Hvørke þetta nie neitt añad gott, mun mig af þiñe Hende bresta, eñ gief þu mier Naad til, riettelega i moote þvi ad taka, Amen, O JEsu, Amen.

## XIII. Cap.

### Um Caiphas Doom yfir Christo.

### TEXTINN.



NN þeir ædstu Prestar og Olldungar, og allt Radid leitudu Lÿwgvitna ÿ giegn JEsu, so ad þeir giæti honum ÿ Hel komid, og fundu ecki. og þo marger Lÿwgvottar geingi þar fram ad, þa fundu þeir eckert, þvtad margir baaru Falsvitni ÿ mooti honum, eñ þeirra Vitnisburdir voru ecki samhlioodã. Eñ ad sijdurstu stoodu upp og geingu fram nockrir Tveir Fals Vottar, og baaru Lÿwgvitni ÿ moote honum, og søgdu: Vier høfum heirt hañ segia; Eg kañ og vil nidurbrioota þetta Musteri Guds, sem med Hondum er giort, og aa þremur Døgum uppbyggia eitt añad, þad ei er med Hondum giort: Eñ þeirra Vitnisburdir urdu eñ þaa ecki samhlioda. Saa ædsti Prestur stood þaa upp midt aa millum þeirra, spurdi JEsum ad, og sagdi til hañs: Svarar þu aungvu? Hvad vitna þessir aa mooti þier? Eñ JEsus þagdi og svaradi aungvu. Þaa ansadi eñ aptur saa ædsti Prestur, spurdi hañ ad, og sagdi til hañs: Ertu Christur Sonur hins blessada? Eg særi þig

vid

vid lifanda Gud, ad þu seigir oss, ef þu ert Christur Sonur Guds. JEsus sagdi til hans: Þu sagdir þad, eg em: Eñ þoo seigi eg ydur; hier eptir munu þier siaa Mañsins Son sitia til hægri Handar Kraftarins, og komandi i Skyum Himins. Þaa reif Kieñimaña-Hofdingeñ sijn Klædi i sundur, og sagdi: Hañ Gudlastar. Hvad þurfum vier nu framar Vitnaña vid? Siaa, þier heyrdud nu sialfir hañs Gudlastan. Hvad virdest ydur? Eñ þeir fordæmdu hañ allir, svørudu og søgdu: hañ er Daudans sekur.

## UTLEGGINGIN.

Hjer maattu siaa

1. Christiñ Saala! hvørsu aakafir þessir Ulfar verid hafi, i þvi ad deyda þad saklausa Lambid Guds, JEsum Christum; Þeir giefa ecki Værd Augum sijnum aa Noottuñi, helldur stunda af øllu Megni þar uppaa, hvørniñ þeir kuñi uppteknum Hreckium Fullnægiu ad giøra, med Uthellingu þess riettlaata Bloodsins; Samlijkir þeim Ogudlegum, er Diøfulsins Pioonustu so fast framhall-

da, ad þeir hvijlast hvørki Noott nie Dag, so þeir erfidi ecki ꝏ einhvørn Hꝏtt hønum til Villia, ødrum til Skada, eñ siꝏlfum sier mestu Olucku. Sañlega vill Gud lꝏta dꝏma sitt Foolk med Riettvijsi, og þar til hefur hañ Valldid skickad; Eñ Falsvitni og Lygi-Tungur hefur hañ ad mesta Hatri. So illa sem þessi Satans Løstur, Lijgiñ, skartar ꝏ Maalspørtunum, sem hvørium ødrum, þa skartar hañ þo þeim mun verr ꝏ Doomurunum, sem þeir eiga framar hñ ad straffa ꝏ ødrum; Ei ad sijdur beitir hønum mest þetta stoora Gydingaña Raad og Samkvꝏmi, villiandi so þañiñ bijta Høfudid af Skømiñi, þar sem þeir villdu ei til betrillrꝏda grijpa: hvad eñ þa er Hꝏttur sumra vondra Maña, er Ligar og Lastmꝏlgi hafa, og skeita þar uti hvørki Gudi nie Møñum: Fyrir hvørium vondum Høggorma Tungum, ad margir hafa fallid, ei sijdur eñ fyrir Sverds Eggium: Um soddañ Nødrur, er sig fela i Glꝏpa Sorpi þessa Heims, maa þad riett seigia, er Jacob sagdi um Sonu sijna Simeon og Levi: Þeirra

Sverd eru Mordjaarn, Gen. 49. Guds Barna Saal skal ecki koma i þvilijkra Raad, og ei þeirra Æra i slijkra Samkundu, Ps. 15. Þvi þeir munu hvorki Hvijlld faa i DRottins Tialldbwd, nie Jñgaungu i þa Himnesku Jerusalem. Opinb. B. 21. Eñ hvorniñ mundu nu greind Liwgvitni giefast þessum Ligaña Elskurum? Riett sem Von var til, þau urdu ecki samhliooda, þvi þad kañ ecki añars ad vera, eñ soddañ Svika Streingur illa halldi; Þvi lijka sem Sañleikuriñ er alltijd sialfum sier samhliooda, nær hañ er riett skiliñ og tekiñ, so kiemur Lyginñ þar þvert aa mooti alldrei samañ vid sialfa sig, hvorsu sem Meñ hyggia hana ad margþætta, ei sijdur eñ þo neckur villdi sier Lijf-Kadal tilbwa af sinaa Sandkornum; Vill nu þessi Streingur straar vid lijtiñ Gust Sañindaña, þegar hañ hier til kiemur, þaa mun hañ þo miklu verr giefast þeim, sem sig hafa upp aa hañ reidt, fyrir sialfs Sañleikans straungum Reidi Stormi sijdar meir, þegar hañ vill þessum Smidum Laun giefa med Hræsmurum, og þa rekur i eilijfa

Fyr-

Fyrirdæming. Afleggi þvi sierhvør Lygarnar, sem sier hefur þær hingad til ad Athvarfe giørt, og tali Sañleik hvør vid siñ Naunga, med þvi vier erum iñbyrdes, og eigum ad vera, hvør añars Limur. Eph. 4. Filge og aller, hvørt helldur hafa stoort edur lijted Maal ad veria, Jaa, i sierhvørn Stad, hollu Raade Syrachs, er hañ giefur seigiande: Mæl þu ecke aa moote Sañendunum, laattu helldur Snei puna yfer þig gaanga, hafer þu i Sokeñe villt farid, Cap. 1. Þvi Illska og Lygifullur Muñur er sier slikt temur, mun aungva Lucku hafa aa Jørduñi, Ps. 140. Og eckt einasta þad, helldur deydir hañ og Saalu sijna. Spek. V. 1.

Loksins baaru þar tveir Liugvottar þad fram, ad JEsus sagt hefdi, ad hañ kiñi og villdi nidurbriota þad Guds Musteri sem med Høndum være giørdt, og aa þremur Døgum uppbyggia eitt añad, sem ei være med Høndum giørdt: Og foor þetta Vitni aa somu Leid og hin firri, sem Von var ad, þvi þeir umbilltu þar, bædi Christi Ordum og Meyningu, so sem sumum er tijdt, þegar

þeir

þeir vilia añara Ord og Athafnir ijþreka; þar fær þad skialldañ ad standa i sijnum riettu Skordum, og ser þeim i þvi ecki Olijkt og Satan, þegar hañ vitnadi til Ritningariñar fordum, og stal undañ Atridinu. Matth. 4. DRottiñ sagdi ad søñu, þegar hañ rak Seliendur og Kaupendur ur Musterinu, til Juda, þe-ir ed bædu hañ ad sijna Teikn til þess, ad hañ hefdi soddañ Mindugleika: Briotid þetta Musteri, eñ eg vil a Pridia De-gi þad uppreysa; Eñ þar taladi hañ uñ Musteri sijns Lijkama, Joh. 2. Eñ ecki þad Jerusalems Musteri sem med Høndum var giørt, sem þesser søgdu. So uñbilltu þeir þa bæde Ordunum og Meininguñe. Þess er og hier ad giæta, ad ei skipade DRotteñ Gydingum hier med, ad slaa sig i Hel, helldur spaade hañ uñ þeirra Giørder vid sig, er nu framko-mu, samt og uñ sijna Dijrdarfullu Upp-risu. Moote allre þessare Lijge og Raang-Mælum svarade JEsus aungvu; hvar af þu læra skallt, Guds Barn! ef so ber til, ad þu fær slijku ad mæta, ad hepta Reidina og hallda þier i goodu Stilli med hoogværrt Þøgn,

Þogn, er þessu og mørgu goodu til Leid-
ar kiemur; Þvi so giøra vitrir Meñ og
spakir; þeir þeigia so leingt, þeir siaa sier
Tijma, eñ eirn hoftugur Narri kañ Tij-
mans ecki ad bijda, Syr. 20. Og spillir
þar med oftsiñis fyrir sier, eirniñ goodu
Maali. Þar sem nu Frelsariñ vor, Je-
sus Christur, leid þessa megnu Falsvotta
Lygi i giegn sier, saklaus og med allri
Þoliñmædi; þa þurfum vid ecki, Guds
Barn! ad ottast, þvi þad er ockur full-
komiñ Afsøkun, þo allmorg Sañleiks
Vitni vilie ockur fyrir Guds Doomi sek
ka'la; sem eru, Løgmaalid, Samvitsk-
añ, Diøfulliñ, Einglar og allar Skiep-
nur; Þa høfum vid samt Skiool und'r
JEsu Sakleysis Kaapu i giegn allri A-
kløaum: þvi hvor vill aaklaga Guds Ut-
vallda, þar sem Gud sialfur þaa riett-
lætir, þvi er aa þeim eingiñ Fordæming
framar meir. Honum sie Eilijf Æra!

2. Verdur oss hier sijnt, af þessum
Texta, Samtal Christi og Caiphæ.
Þegar Ljugvitniñ duga ecki, stendur
Caiphas upp, midt ur Raadinu, i mik-
lum utvortis Heilagleika, eñ þo iñvort-
is

is fullur Hræsni og Odygda, og spyr, hvert JEsus sie Guds Sonur, og særir hañ vid Gud, ad hañ þar um Sañleik-añ auglijsi; Lijka sem hefdi hañ, med sijnum Medbrædrum, fullañ Vilia til ad þeckia hañ fyrir þañ sama, ef hañ, eptir þessu Særi, þad auglijsti; hvad þo var laangt fiærri, og er þvi med sijnum Lijk-um i þessu fallin i fraaleitt og formirk-vad Siñi., Rom. 2. Þar sem þeir høtudu JEsum fyrir auglijstañ Sañleika um sig, og villdi honum ecki trwa. Joh. 8. Þar næst leggur Caiphas hier so frekt vid, so adrir mættu huxa, ad ei feingist riettur Sañleikur af JEsu Muñi, utañ med stoorri Naudung. Allt þetta vissi nu Lausnariñ ad soñu: Ei ad sijdur svarar hañ Caipha, virdandi þar uti Nafn sijns himneska Fødur, þo hañ ædur Ligum eckert siñti edur svaradi; þvi so sem þar er Tijmi til ad þegia, so er þar og Tijmi til ad tala, Eccl. 7. Einkañlega þad sem Aukning Guds Dijr-rdar, og heñar Auglijsing þiena kañ; hvoriu eingiñ vorra æ iñi hallda, helld-ur, æn Hrædslu vid Meñina, hvoriu sem

sem þeir oss þar fyrir hoota, medkieñā Guds Ord, og vora riettu og Saaluhialplegu Trw, so oss verdi ei sijdar, Sakir Pagnar vorrar hier, afneitad af Drottni. Gleym nu þar firir alldrei, Guds Barn! ad fylgia þessu, bædi leynt og lioost, Dæmi þijns HErra, hvors Medkieñing, hler fyrir Caipha augliist, ad er ein vigtugasta stadfesting Trwar vorrar, ad JEsus sie sañur Gud og sañur Madur, so og um hañs Haatign, ad hañ sitie til Fødursins hægri Handar, þad er, raadi og rijki yfir øllum Hlutum bædi aa Himni og Jørdu, somuleidis um hañs Doomara Embætti yfir Lifendum og Daudum.

Eñ Gud allrar Myskunar giefi oss þessu og øllu ødru Drœngsærdu Ordi DRottins riettilega ad Trwa, einnin ad vier gietum oss skickad, so sem riettir Raads-Meñ marghaattadrar Guds Naadar, er hañ sijdar setia vill ofir allt sitt Goots. Luc. 12.

3. Ad Sijdurstu lagdi Caiphas þañ Doom aa Christi Andsvar, ad hañ fyrst rijfur sijn Klædi i sundur, lijka sem villdi hañ sijnast ad vandlæta so miog Guds vegna, (Hvad og tijtt var medal Gydinga fordum, þegar einhvør stoor Neyd

edur Hiarta=Sorg barst þeim ad Hendinni, og kuñi slijkt Verk alldrei, Gudi Þacknæmilegt ad vera, nema af froomu Hiarta og riettri Vandlætingu hañs Nafns framkiæmi, miklu helldur bijdur hañ, ad Meñ sundurrijsi sijn Hiörtu; edur ydrist riettilega. Þar næst seigir Caiphas, ad JEsus Gudlasti, þad er lijka sem hañ sagt hefdi, ad JEsus villdi giora sig ad Guds Syni, þar sem hañ væri þo ein sliett og riett Mañeskia, lijka sem hver añar; og leggur so hier med strax eirn hastarlegañ Bloods og Dauda Doom yfir JEsum, hvørn hañ vissulega hefur læktist bi ȝgia æ Levit. V. 24 C. Hvar iñi ad Gud skipar, ad sæ skuli deya er lasti Nafn DRottins. Þañ Urskurd hafdir þu alldrei Forskulldad, miñ DRottiñ! helldur, miklu framar, eg, sem Oriett giort hefi, verid Ogudlegur og fallid fraa þier, og vikid so þraalega af þijnum Bodordum, eñ fraa hönum hefur þu mig leyst, miñ Lausnare, med þvi þu leidst saklaus þeñañ Dauda=Doom. Hier eftir fer Caiphas ad leita Urskurdar yfir þessu til Raadsins, eñ þeir fordæmdu

hañ allir, seigiandi: Hañ er Dauda sekur. Sañast hier þad, sem oftar, er Michæas Spaamadur seigir, Cap. 7. Hvad Hofdingiñ vill, þad ælyktar Doomariñ, so hañ giøri hønum eina Pienustu aftur, þeir sem Magtina hafa, raada eftir sijnum eigiñ Villia Skada ad giøra, og snwa þvi so sem þeir villa; Hvad allir froomir Meñ varast skylldu; Athugandi, ad framar ber ad hlijda Gudi eñ Møñum, þvi þeir kuña þa ecki fyrir Gudi ad afsaka, ef þeir rææingt giøra. Hier ut af flijtur mier, eñ sem oftar, miñ JEsu! ein lifandi Vatns Lind, er mig orþlaadañ, i hvørskins Hørmungum, endurnærir og gledur. Pegar vier þijn Børnfaaum eñ i Dag eirn hardañ Afellis Doom, eftir drygdra Synda Maklegleikum, añadhvort iñra, af Samvitskuñar og Satans Aklogun og Freystingum, so þar seigist, þu ert Daudans sekur; Edur og ytra, af Adkasti, Ofsokn og Brijxlum Veralldariñar, er metur oss Afrak og Hreinsunar Offur allra Maña, edur af hveriu ødru saartsvijdandi Hørmunga Sverdi; þa er su Hugguniñ, ad þeinkia strax uñ

þad,

þad, hvad stutt ad þetta Hryggdarfulla Lijf sie, og hvorsu æskileg Umskipti oss veitast, þegar Ostundiñ þessi er uti, og vier komunst til þiñar hægri Handar, hvar ad er Gnoott Fagnadar og gledilegt Lijf eilijflega; Pa erum vier komnir undañ ollum Afellis Doomi, þegar Drottiñ, sokum þess Afellis Dooms, er hañ hier leid, dæmir oss og wrskurdar til eilijfs Lijfs, Fridar og Frelsis, hvorn Nadar-Urskurd allir þeir faa, er honum trwa. Joh. 5. Ad mier asamt odrum þijnum Bornum þetta hlotnast muni, efa eg alldrei, og segi þvi, asamt þeim, ounirædilegri Elsku þiñi, miñ JEsu! af Hiarta Lof, Heidur og Packir, Amen.

## XIV. Cap.

Um Piooñaña Spott vid Christum.

TEXTINN.

HA tooku nockrer ad splyta a hañ, i hañs Asioonu, og bordu hañ med Knefum; Eñ Pienararner, og þeir Meñ, sem hielldu JEsu, dœrudu hañ og sloou, og birgdu hañs Asioonu,

og slogu hañ med Knefum, spurdu hañ, og sǫgdu: Spaa þu oss, hver er sai þig sloo? Og margt añad hæduglegt sǫgdu þeir vid hañ.

## UTLEGGINGIN.

Sem befur i fyrerfaranda Texta kuñgiort vered, hvorsu ad Lausnareñ var æliktadur ad vera eirn Gudlastare, fyrer þad hañ medkiende sig ad vera Guds Eingieteñ Son; Og hvorneñ hañ var hier fyrer af ǫllum til Dauda dæmdur. Eñ hier verdur oss aúglijst, ad hañ hafe Þienurunum i Hendur feingeñ vered til Vǫktunar, ad hinum Lokfins til Hvijlu geingnum. Þesser Þienarar hǫndla nu med hañ, so sem sañ-proofadañ Gudlastara, er allskonar Spott og Hædungar forþienad hefde, hvǫriar þeir og ecke spara verum HErra.

Fimslags Hædunga gieta Gudspialla Meñerner hier sierdeiles, og er so sem þeim rijse Hugur vid fræ fleirum ad skijra, þo hier framkomed hafe af Hende þessara Ogudlegu Maña. 1. SPOTTudu edur dæarudu þeir hañ. Hvad saart ad þetta

Sverd býte, vita þeir best er að því kiendt hafa, so marger hrauster hafa helldur vil-iad deyia en líjda Spott; Þar til er hiñ mikle Kappe Samson, med fleirum, eitt Epterdæme, sem siá mä af hañs Lijf-Sögu. Og Syrach seiger: Þo ad þu allareidu drager wt Sverd ad þijnum Vin, þa giörer þu þad ecke so vondslega, (so sem med Smaaneñe) þviad þid kuñed aptur ad nyu Viner ad verda, þegar þu fordast hañ ei, og talar vid hañ; Þviad Meñ kuña vel allt ad forlijka nema Hæd-ung, Fyrerlitning, Opeñberañ leyndra Hluta, og falskleg Svik: Soddañ Hlut-er burt reka Vineñ. Cap. 22. 2 SP-YTTU þeir i hañs Asioonu: eñ Forsmaa-narlegar er þetta hinu Firra, þvi Meñ hrækia Ogiarnañ af Asetninge, nema að þad, er þeim vidurstiggelegt þiker; Sodd-añ ein Forsmaan vär nu svo allra friid-asta Asiaaña Lausnarans halldeñ, fyrer þessara Gudlausra Skaalka Augum; Soddañ Vidurstigd var þeim þad allra sætasta Himna-Braud, er þadañ kem ad giefa Heimenum Lijf. Joh. 6. 3. BYR-GDU þeir hañs Asioonu, hvoria bæde

Heilager Einglar, og öñur wtvaleñ Gu-
ds Börn af Hiarta gyrnast ad siaa og sko-
da, heidra, dyrdka og tilbidia, hvor og yfer
oss lijser til allra Heilla og Hiaalpræd-
Andlegs og Lijkamlegs. So vendur sem
Absalon var Fordum, þa villde hañ þo
helldur wtvelia Daudañ, eñ hañ feinge
ecke ad siaa sijns Födur Andlit. 2. Sam.
14. Hvad mikls verre honum hafa þa
þesser vered, þvi þeir villdu ecke lijta Asioo-
nu þess Födur, er þeim þo giefed hafde Lijf,
Saal, og allt añad Gott. 4. SLOOu
þeir hañ med Knefum, sem þeim og öllu
Mañlegu Kyne saman safna villde, sem
Hænañ Ungunum, under sijna Vænge,
Jaa, hañ sem wtbreider sijnar Hendur til
alls Skiools og Hæles, til ad frelsa undan
Diofulsins Slögum, til ad frya fraa ei-
lijfre Glötun, til ad Myskuna sig yfer öll
sijn Verk. 5. BAAdu þeir hañ birgdañ
ad SPaa sier, edur gieta riett uppaa, hv-
or þeirra hañ slæge i hvört Siñ, þar sem
hañ hefde sagt sig ad vera Guds Son, hvor
um Alvitskañ tilheyrde; Þvi hañ kiñe
Hiörtun og Nijruñ ad ransaka, og hañs
Andlit stæde yfer þeim sem illa giörde, so
hañ

hañ i burt rætte þeirra Miñing af Jordu-ñe, þvi skyllde hñ nu sliikt audsyna, ef hañ være satt, er hañ sagt hefde. Allar hier-nefndar saarustu Hørdungar, med ødrum fleyre O-nefndum, leid nu þad saklausa Lambid Guds, JEsus Christur, med hiñi diwpustu Þøgn og Poliñmædi.

Huxadu nu uñ þetta allt, Christiñ Madur! og athuga grandt, hvad þu hier ut af hefur framar ad læra. 1. Maattu hier siaa eitt hid auglioosasta Merki til þeirrar Ouñrædilegu Elsku, er DRottiñ Dijrdariñar hafdi til Mañkynsins, þar hañ af þeirri allra stærstu Medaumkan, er hañ hafdi yfir þvi, i eiliisañ Dauda follnu, sparadi ecki siñ eingietiñ Hiartans Son, helldur gaf hañ ut undir þessa skielfilegustu Forsmaan og Fyrirlitningu, er Sooliñ hefur nockru Siñi sied, samt allt añad fleyra Kvalrædi, er hañ, iñ til Daudans, liida fieck aa siinum allra helgasta Lijkama og Saalu, so vier, sem erum af Nattúruñi Reidiñar Børn, kiæmunst i Saatt og Vingan vid hañ. Þetta furdañlega Giædsku Raad Fødursins sampyckti og eirniñ sialfur

 Son-

Sonurinn, JEsus Christur, i þvy hann vil-
iugur, leid allt þetta, Mannlegu Kyni til
Fridar og Frelsis, og tallidist undann aun-
gvu þvi, er til Bota horfa mætti þessu
daudlega Saurlar Meini; Jaa, hann sem
ad øllum Skiepnum hefur Hvijld og
Roo giefid, fieck anngvann Kost ad neck-
ri Værdo edur Linun, i sinni Ognarlegustu
Eymd og Hrelling, helldur fieck hann ad
lijda allt þad illt, er upphugsast kunni, so
þar skylldi eingin Synd finnast, fyrir hv-
eria hann hefdi ei lidid og fullnægt. Un-
der þetta hefur og sú Þridia Guddoms-
sins Persoona, Hellagur Andi, skrifad,
med þvi ad framfilgia vorn Endurlausn-
ar Verki, og hefur lætid oss allt þad
uppteikna til Vitundar, sem oss þiena
mætti til Huggunar og andlegrar Heil-
suboötar, og sett Innsigli Trwar vorrar,
þar undir, hvørin eingin Hlutur kann ad
raska: Rom. 8. 2. Giefur þier og mi-
er allt þetta Orsøk og Efni til, ad athu-
ga þad, hvørninn þvilijk Elska sie af allt
ofmørgum medtekinn og endurgolldinn.
Margir og jafnvel flestir, formæla ad-
urnefndum Hardungarfullum Kvølur-
um

um DRottiñs, og er þad vid sitt Verd, þo þeir þad giori, er ad Hatri hafa og fordast af fremsta Megni Lijti þeirra, edur oñur þeim Svipluijk. Eñ hiñir, er þeim fiñast ad allri Hegdan lijkir, og þad giora, formæla undir eins sialfum sier. Skodi þeir sømu, hvad St. Paall þar uñ talar Rom. 2. Hvad giora þeir, sem henda Gaman ad Ordi DRottiñs, og hallda þad so sem fyrir Spieskap, i þvi sierdeilis, ad þeir lifa eins eftir sem ádur i Løstum og Syndum, þo þeir heyrt soddañ i þvi fyrirbodid, og koma ecki saman til Forbetrunar, helldur til Versnunar; meta þad litla Avirding, þo þeir lastit og forsmaai Guds Pioona, ad so miklu Leiti sem þeir faa giordt, og hallda þa ills verda, fyrir þad, þeir i Umbodi sijns Herra, leitast vid Diofuleñ fraa þeim utreka, eñ JEsum aftur til þeirra iñleida. Hvad giora þeir, sem medtekid hafa Guds Naad og Vidurkieñing Sañleiksins uñ JEsum Christum; þeckia hañ, og skynia aanægianlega, hvad vid Bord liggur ef þar er af Ofvermodsku fra snuid, eñ gaanga þo i Diøfulsins Skoo-
 la

lemstrydu þinn Heil. Lijkama! Þvi þad seiger þu mier sialfur so talande: Mier hefur þu Erfide giørdt med þinum Syndum, og Mædu med þinum Misgiørdum, Es. 43. O minn HErra! hvad skal eg tilgiøra? Eg vil flatur med þeirre Bersyndugu Konu skrijda þier ad Footum, græta mijna Illsku, og bidia þig um Nægd og Myskun, fyrer sialfs þijns Nafns Saker, sem ecke er annad enn Fridur, Huggun og Frelse, øllum Harmþrwngnum, er þangad Hæles leita: Eg veit þu siniár mier ecke Huggunarennar, helldur enn øllum ødrum, er til þijn hafa flwed, enn eg vil, so huggadur af þijnu Hiaalpræde, þvona þier med saunre Hlijdne aptur i moote, fyrer þinna Hiaalp, bæde hier og sijdann Eilijflega. Gief mier þar til þitt Fulltijngi, O HErra!

Fagna nu, Christenn Saala! Fagna og vert glød: vid erum heilbrigd ordenn fyrer Blooded JEsu, hvad stoor sem ockar Synd edur Sorg er, edur vera kann, þa høfum vid hier yferfliootannlega Lækningu, og noog Grædslu-Medøl. Þu, minn DRottenn! Hefur hætt Brot Præls þijns, i þvi þu barst Hirtingar-Hrijs þijns Fødur, so nu høfum vid feinged Glede i Stadenn Hrigadar, Naad og Myskun fyrer Reide og Refsingu, og eilijft Lijf fyrer eilijfann Dauda. O þesse hin æskelegustu Umskipte!

Giætum nu Skylldu ockar aptur i moote, þvi þar fyrer er þesse Naadenn ockur og øllu Mannlegu Kyne giefenn, þvi hefur So-

nur Guds JEsus læknad ockur, ad vid so heilbrigd giørd, skylldum þioona hønum i sañre Trw, Hlijdne og Hollustu, med goodre Astundan ockar Embættes og Kost giæfne goodra Verka, eñ afneita Ogudlegu Athæfe og Veralldlegum Gyrndum, lifande sparlega, riettferduglega og Gudlega i þessum Heime. Tit. 2. Syndgum ecke vijsvitande uppaa Naadena, so ei steipum vid ockur aptur i hin firre Naanglætingaña Fiotur og Faangelse, af hvørium vid erum leyst og frelsud. Docknest nu ockar Frelsara JEsu ad hirta ockur hier i Heime, med sijnum Kross-Vende, hvort helldur med Ørkumslum, Soottum og Siukleika Lijkamans, edur hvørlu ødru Mootlæte, þa tøkum feigens Hende i moote þeim Kaleik, seigiande med Michea Spaamañe: Cap. 7. Eg vil bera Reide DRottēns, þvi eg hefe syndgad aa moote hønum; Og so þetta Hrijsed mætte þoleñmoodlega berast, þegar þad kiemur ad Hendum, þa laatum ockur miñast þessarar svijdande Hrwdstrijkingar, er JEsus leid, ockar vegna, og hvørsu þoleñmoodur hañ var under heñe; Þad mun efla ockur

i Poleñmædeñar=Dygd/þvi hana ad stunda er eitt fegursta Skart a einu Guds Barne. Lattu þier og ecke gleymast / Guds Barn! þegar þiñ HErra giefur þier Medlætes=Stunder hier i Heime / ad þacka hönum þar fyrer af Hiarta ; Varastu þa / ad þikiast upp yfer þeim / sem sveima i Taara=Floode ; Þecktu helldur þar af Guds Poliñmæde yfer þier / og vit / ad hañ hefur bæde Raad og Riett til / ad beygia þig / lijka sem hiñ añañ ; Dæmdu varlega yfer añars Sorgum / og legg ecke Saar til Saara / þvi sierhvør hefur nocg sitt Vøl ad bera ; Þvi þad mun saart svijda þeim Mootlætta / ad heyra Hlaatur og Hædungar añarra / ofañ a añad Vøl sitt : Pike þier Striids=Meñ Pilati hafa vered hardraader vid þiñ HErra i Hwydflettinguñe / þa vert ei þeirra Stall=Brood er ; Lem þu ecke med neinum Hardydgis Svipum þa / sem JEsus / hvør alls a Raad / epter siñe Velþocknan / veina lætur og Bloodrisa glører / undañ sijnum Kröss=Vende / helldur audsyn þig mit wykhiartadañ vid þa hina sømu : Þvi slijker eiga betur Stødu fyrer hañs Augum / hv-

ad sem Verølld þar um̃ dæmer, helldur en̄ þeir hier daatt hlæa, þvi þeir munu yla og æpa. Luc. 6. Hvad skal þier ad glediast, þu illa Verølld! þo eirn ligge þar fallen̄, Þvi han̄ mun upp aptur koma; Þo han̄ sitie i Myrkre, er DRottenn han̄s Lioos, til hvørs han̄ lijtur, og bijdur, epter han̄s Hiaalpræde, saa same mun heyra han̄. Mich. 7. Hvad fagur er Krossen̄ JEsu Christi? Er þar nockur Vegsemd þvilijk til i Heimenum, sem sw, ad lijkiast JEsu Christo? Er ecke han̄s Hrigdar-Myndhier, Heldur og Fegurdar-Corona sijdar? Vissulega. Hvad villtu þa helldur fyrer þig kioosa, en̄ þetta, þu Sorgmædda Guds Barn? Laat Gud raada, han̄ rædur best, þo þetta Hlutskipte sie O-aalitlegt fyrer Virdingu Veralldar og Augum þijns Holldsog Bloods; Þa met slijkt einkes, þvi heñar og þeirra Doomur er Olijkur Guds Doome, Verølldeñ metur þetta fyrer O-Laan og O-Haminglu, en̄ Gud fyrer Sælu og Fognud; Hinu vil eg sleppa, en̄ þessu trwa, og þar fyrer medtaka þan̄ Heilsusama Kaleik DRottens, vegsamande han̄s Nafn bæde hier, og sijdan̄,

fyrir

fyrer JEsum Christum eilijflega, Amen.

## XXIV Cap.

Um Purpuran og Þyrni-Koroonuna.

### TEXTINN.

ENN Strijdsmeñ Landsdoomarans tooku hañ og leiddu hañ med sier iñ i Pijnghwsid; kolludu saman, og søfnudu ad hønum øllu Lidinu, og affklæddu hañ, og færdu hañ i eina Purpura Kaapu, og fliettudu eina Coronu af Þyrnum, og settu hana aa hañs Høfud, og Reir i hañs hægri Hønd, og beigdu Knie fyrir hønum, spiodu hañ, og tooku ad heilsa hønum, og søgdu: Heill siertu Kongur Gydinga! Og hræktu aa hañ, tooku Reirið og børdu um hañs Høfud, fiellu aa Knie og tilbaadu hañ.

### UTLEGGINGIN.

ÞESS voru i heim. 14. Cap. þær Haadungar fyrir Stoonir leiddar, er JEsus lijda fieck i Høllu Caiphæ og af hañs Prælum. Nu framtelia Gudspiallamenñirnir i þessum Texta,

 þær

þær sem Christi voru veittar i Þinghwsi Pilati af hañs ogudlegum Striijdsmøñum.

1.) Stendur hier, ad þeir hafi " Flett JEsum sijnum eigiñ Klædum:" Eñ hvar til þad skilldi, sijnir oss fyrirfarandi Capituli; Sem var, uppaa þad þeir Hwdstrijktu hañ (jafnvel þo þetta sie sijdar sett i Textanum): Adur þeir villdu nu slijkt adhafast, samañsøfnudu þeir ad hønum øllu Lidinu, so Ovyrding Herrans skylldi þvi stærri verda. Þegar vor fyrsti Fadir, Adam, braut af Bodordi sijns Skapara, þa fletti hañ sig og alla sijna Nydia þvi saña Sakleysesins og Heilagleikans Klædi, og villdi, søkum þess, ad ecki auglijstist sijn Blygdan, fela sig aa millum Triaaña i Alldingardinum; þa hañ heyrdi Raust DRottins, fyrir hverri hañ skalf og titradi, Gen. 3. þar sem hañ var i Dauda fallin, samlijkur ordiñ þeim hrasada aa medal Ræningia, hverier hañ Klædum ræntu, og Saarum lemstrudu og lietu sijdañ hailfdaudañ eftirliggia. Luc. 10. Þetta var Arfur vor allra saman. Jaa, vier vesælir

Nyd=

Nydiar Adams, lijſtrdir eckt utañ Forſmaan og Fyrirlitningu, ſem eru Andſtyggilegir Syndaña Larfar, med hvoria vier drøgum oſs eñ þaa i Skugga Myrkraña, hliootum ad ſkamaſt vor og ſtanda raudir af Ovirdingu fyrir Augliti Guds og hañs heilagra Eingla, ſo ſem eñ þa, þegar lijſt verdur ad framdri Illſku vorri, med Ordi ÞRottiñs, i hvoriu hañ eñ kallar oſs fyrir Riett og til Reikningſkapar, lijka ſem Adam, og augliſir i hvørium Haaſka og Vanda vier ſtaddir ſieum. Sakir þeſsa Fatleyſis vors, maatti JEſus hier Klædum flettur vera og nakiñ pijnaſt opiñberlega fyrir allra Augum, ſo hañ bætti fyrir øll Verk Myrkraña, bædi Adams og allra vorra, og þvægi oſs af Bloodi Miſgiørdaña, eñ iſærdi aftur þeim fagra Skrwda Hiaalpræðiſins, Helgunariñar og Riettlætiſins, ſem ſkijna ſkal aa oſs og øllum riett-trwudum fyrir Stooli Guds og Lambſins uñ alla Eilijfd; þvi ſo ſem vier høfum borid Lijking hiñs Jardneſka Adams, ſo munum vier og bera Lijking hiñs Himneſka. 1. Cor. 15. Vorunſt nu ad brwka þeſ-

ſi

si Klædiñ, til Yfirhylmingar Syndiñi; helldur Lifum hier epter Gude, i Drottne vorum JEsu Christo. Rom. 6. v. 2. Færdu þeir JEsu albloodnga Lijkama i eina Purpura Kaapu. Þar uppaa maa siaa eina Fyrirmyndan i Num. 4. ad nær Israels Syner aattu ad svifta Herbuudum, þa skylldi Orkiñ sveipast med Fortialldinu, er giört var af Skarlati og Purpura. Hin saña Saattmaals Ork er JEsus, hvjad i hon-um eru hulldir aller Fiaarsioodir Vitsk-uñar. Col. 2. Guds Ord og Sacra-mentiñ, vil eg skilia fyrir þetta Fortialld edur Purpurañ, þar i maa fiña Saatt-maals Orkina JEsum, bædi albloodugañ og forklaaradañ. Flettu upp þessu For-tialldi, þu Syndum særdi Madur! þvi þad leisist þier nu, og aa medañ þu ert staddur i Herbuudum þessa Lijfs, þa giördu þier kaama Trwar Hendina, i þvi ad þreifa med heñi aa JEsu albloodug-um og Benium þocktum Lijkama; viltu þu læknast, med þeirri Bloodfallssiukdu, af þijnu Bloodfalli, lijka eirnin aa hon-um forklaarudum og uppriisnum, þier til

Rietlætis, so þu, ad sialftum Herbiodum þiña Lijfstunda, meigir med forklaarudum Augum siaa hañ, so sem hañ er uñ Eilijfd.

3. Settu þeir eina Pyrne Koronu aa JEsu Høfud, so ad Bloodid flaut uñ hañs blessudu Asioonu. Gud prijddi Mañiñ med forkostulegu Høfud-Klæddi, þegar hañ skapadi hañ i Heilagleikañs Standi. Su Corona fiell nidur i Adams Falli, eñ komu i Stadiñ Pyrnar Bølvunariñar, hvørri Gud lijsti yfir Jordunñi, og Løgmaal hañs yfir Mañinum. Þetta alltsamañ lagfærdi JEsus hier, og afrekadi Blessan fyrir Bølvan, bædi oss, Jorduñi, og øllum Skiepnum: Hvar fyrir hañ sie lofadur og blessadur eilijflega! Mørgum þikir vel skarta Gullleg Hroosunar og Upphefdar Corona Verølldariñar, eñ hun verdur øllum þeim ad stijngandi Pyrnir, sem meyr virda Vegsemd Mañaña eñ Guds; Þvi vei ydur, nær hvør Madur lofar ydur, því so giørdu og þeirra Fedur vid hiña falsku Spaameñ. Luc. 6. Mooti þessare Coronu tekur þo margur Hyggjulijtell bædum Høndum: Kloos þier helldur Pyrni-

Pirne=Coronu, hvorja Verølldeñ sparar hier ecke, ef þu þioonar Gude med Alvørugiefne og af Hiarta; So færdu siidar þa Gull=leguCoronu Riettlæteſins og eilijfrar Dyrdar a Himnum. 2. Tim. 4. Alldrei dreymde Jacob betur, eñ þegar hañ svaf a Steinenum. Gen. 28. Alldrei fær þu betur leitad DRottens, og alldrei fiñst hier betur til Sætleika hañs Hiarsar, nær hun giefst, helldur eñ þa þu fær þoleñmoodlega leiged a Steine Hørmungaña, hvor optar fiñst ad vera Kodde JEsu elskanda hier i Heime.

4.) "Feingu þeir honum Reirlegg i sijna hægri Hond." Hier med foroktudu þeir hañs Kongs Tign, og hielldu hana næsta veika, sem Reiriñ, hvør snart þrettar þañ, sem sig vill uppa hañ reida, og i þeirri Meiningu verdur Pharaonis Magt lijkt vid eirn Reirstaf Ezch. 29. Slijkt giora þeir Christo eñ i Dag, sem einkis akta Gudlegar Aminiñingar og hallda þær sem fyrir Spieskap. Jer. 6. Lika i Ohlijdni vid Gud, hañs Ord og Þienara, vondslega; þeir og, sem af Asetningi vantreysta Guds Almætti, lijka sem

sem Hønd Drottins sie stutt ordiñ, og seigia, sem Riddari Jorams Israels Kongs, i Hallæris Tijdiñi, þegar Eliſæus spaadi ut af Nægtiñi er verda skilldi: þo Drottiñ giørdi Glugga aa Himinuñ, hvørniñ maa þetta verda? 2. Reg. 7. þeir og, sem olldungis ørvænta sier Guds Myſkunar, sem þo er meiri eñ allar Heimsins Syndir. Breit ecki so, mitt Hiartans Barn! hrædstu Guds Tignar-Velldi, eñ treystu Guds Almætti og Myſkunſemi, og þegar Tru þijn veiklast, þaa riettu soddañ brakadañ Reir, med heitri Bænar Hønd, ad þijnum JEsu, og bid hañ stirkia hañ; þess synlar hañ þier alldrei.

5.) " Fiellu þeir aa Knie, og heilsudu JEsu med Kongs Nafni, gaafu hønum Prostra, hræktu aa hañ, tooku Reiriñ og bordu um hañs Høfud. " Soddañ Kniefall giøra allir Hræsnarar, og þeir, hvørra Gudrækni ad ecki er utañ Hiegooini og utvortis Yfirlitur, hvørier, ad hræsna bædi fyrir Gudi og Møñum, laata blijdt eñ hyra falskt; þeir sem bera aptur Saklleikañ, edur dylia, nær

nær auglijsast skal, Gudi til Dijrdar, og Naungans Æru og Velferd til Adstodar: Munu þeir ecki, med Ligurnum og Lastmælugum, lijkir vera þeim, sem hier lømdu i Lausnarans Asioonu? Slijkir eru ein Anstyggd fyrir Gudi. Þeir hrækia og eñ i Dag i Lausnarans Asioonu, er fremia Kukl og Fiølkingi; þeir og sem viliandi falsklega sveria vid Guds Nafn; og þeir sem af æsettu Rꝗdi hæda Guds Verk æ einhvoriu. Fordastu allt þetta og hvad añad illt, i Guds Nafni, sæalga ecki Sæalu þiñi med þessum Mord=Jaarnum, hlaup ecki þeñañ Helvijtis Veg! Þeink um þad i Tijma, ad sañarlega muni Gud hardlega hefna soddañ Hædunga æ Jdrunarlausum! Þu særdi Syndari! eñ hefur þu hiæ þier Læknarañ JEsum, sem hvørki vantar Viliañ nie Efniñ ad lækna þig og þijna lemstrada Sæaln; siæ til, þu briotist honum ecki ur Fæangi; meina honum ecki ad græda þig; gacktu i hañs Smirsla Hws, eñ þo med Vareyngd og Athygli; þetta Hwsid er Hws Drottins æ medal vor stiptad; vakta þiñ Fo-

ot,

ot, nær þu geingur þar iñ, ad þu komir af Hiartañlegri Eptirlaangan, til ad grædast af þijnum Saalar-Meinum, eñ el af toomum Sidvana: Þu geingur þar fyrir Auglit allrar heilagrar Gud=doomsins Þreñingar. O! vara þig, ad þu giørir þar ecki Gis ad heñi med Lijkamans Hegdun eirnt; helldur beig þig nidur, med hiñ stædstu Lijkama og Hiartans Audmijkt og Lijtilæti, og giefdu Footum Dijrdar=Kongsins JEsu Christi sætañ Bænar Koss af hreirni Elsku: þañig skalltu heilsa þijnum Herra; þvi þad mun næsta illa fara; ad slijkt sie giørt af Hræsni; eñ ecki Alvøru.

Af þessum Hœdungum, er þier voru veittar, miñ goodi JEsu! sie eg giørla, hvør med riettu hefdi ætt ad vera mijn Synda Laun um hina Oendanlegu Eilijfd. O hvad sœr Kvøl var mier fyrirbwiñ, hvøria eg og hreppt hefdi, ef þijn Hørmung, Kvøl og Hœdung, sw er þu hier leidst, hefdi ecki frelsad mig þar i frœ! Blessad sie þitt heilaga Nafn eilijflega! þijn Læging er mijn Upphefd, þijn Hœdung miñ Heidur, þijn Høgg mijn Endurnæring; Er eg hier i Fyrirlitning œ Jørduñi, þad skal ecki stoort hriggia mig; eg veit, ad eg fæ Heidur og Virding œ Himnum; gladur mœ eg þvi þeinkia til miñar Dauda=Stundar, œ hvørri miñ govdi JEsus vill so tala til miñar Sœlar, þegar hwn þœ fellur i Fadm sijns Uñusta: statt upp mijn hin Kiærasta, mijn hin dægilega! og kom hingad, þvi sia

T þu,

þu, Veturiñ þiña Hørmunga er umlidiñ, allt Regn þiñar Hriggdar er nu af og i burtu. Cant. 2, Miñ Jesu! medañ þar er nockur Lijfs Æd heit i mier, þa skal eg prijsa og vegsama þig, og af Hiarta kuñgiøra þitt Lof æ og allstadar: Eg vil feigiñ a þessari miñi Pilagrijms Reisu um Eydimørk Veralldariñar, hlijda þier og filgia i øllu, þar til stirki þiñ Kraptur miñ Veikleika! Amen.

# XXV. Cap.

## Um Utleidslu Christi wr Pijng-Hwsenu.

## TEXTENN.

Nagieck Pilatus wt aptur og sagde til þeirra: Siaaed! Eg leide hañ nu wt hijngad til ydar, so ad þier vited, ad eg fiñ aungva Søk med hønum. So gieck JEsus wt, berande Þirne-Coronu og Purpura-Klæded, og hañ sagde til þeirra: Siaaed Mañeñ. Þa er Kieñemaña-Høfdingiarner og Þienararner saau hañ, Kølludu þeir og søgdu: Krossfestu, Krossfestu! Pilatus sagde til þeirra: Taked þier hañ og Krossfested, þviad eg fiñ aungva Søk med hønum. Þa svørudu hønum Gydingar: Vier høfum Løg, og epter vorum Løgum a hañ ad deya, þviad hañ giørde sig sialfañ ad Guds Syne.

# UTLEGGINGIN.

ANN faaum vid hier, Christen Saala! J þessum Heil. Texta ad heyra, oss Sekum og Syndugum til Huggunar, eirn liooſan og ſkijran Vitnisburd, um̃ hid mikla Sakleyſe vors DRottens JEſu Christi, hvorn hiñ heidne Pilatus eñ ad nÿu ijtrekar i Tvær Reiſur fyrer Gydingum. Hvar med ad uppfylleſt Davids Ord, tolud under Christi Perſoonu, er hañ ſeiger: Þu reyner mitt Hiarta og vitiar þeſs a Naattar-Pelenu, og hreinſar mig og fiñur eckert, eg einſetta mier ad min̄ Muñur ſkyllde ecke afvijkia. Pſ. 17. Þar næſt maa hier af raada, i hvorre Meiningu Pilatus hafe afhendt JEſum Strijds-Moñunum under aadur-ſagda Hwdſtroku og margfalldar Haadungar; Sem er, ef ſkie mætte, ad hañ kiñe þar med ad ſeſa Grim̃d og Offlæke Gydinga, þegar þeir ſæe, hañ ſo herfelega wtleikeñ, og ad ſiaalfur hañ frijaſt kiñe fraa frekare Adgiordum vid hiñ Saklauſa JEſum; Þar fyrer leidde Pilatus JEſum wt med Þirne-Coronuñe og

 Purp=

Purpura-Klædenu, og sagde; SJAAeð MANNeñ; Hvort Asigkomulag Laus-narañs, og þvi medfilgiande Ord Pilati, ad næsta vel uppfiller Ord hins Vijsa Salo-monis; Þar hañ seiger: Pier Dætur-nar Zion (þad er sierhvør Christeñ Saala) gaanged wt og skoded Salomon Kong, (þad er, Fridarens Konungen JEsum) med þeirre Coronu (Þijnuñar) sem hañs Mood-er (þad er Christeleg Kyrkia,) Coronade hañ med aa hañs Brwdkaups-Deige, og aa Gladværdar-Deige hañs Hiarta, Cant. 3. Þad er, þegar hañ Trwlofade sier Christnar Saaler, ad Vilia siins Himneska Fodur, hvørn ad fullgiøra hañ af Hiarta epterlaungade, og stood nu mi-dt i þvi sama Verke og Erfide, hvørs høn-um aflade Brwdareñar Ohreinleike, er hañ hlaut af ad þvo, so ad af Rauda-Hag þeirra yrde. J Þridia Lage verdur oss hier eñ fyrer Sjooner leidd Hardydge Gydinga, hvørra Grimd eñ þa eckert mijktest vid þessa al-blooduga Mind HE-rrans Christi, helldur lietu eñ ad nyju Tvijteked Krossfestingar-Hroop yfer høn-um hlioma, i þvi blindare blindum Pila-

to

to;og hljngad maa heimfæraft bad Jerem
ias feiger : Hirdararner eru vordner ad
Vitleysingum, og hyrda ecke um̃ Drotteñ,
þar fyrer kuña þeir og eirneñ ecke neitt
rietteleigt ad kieña. Cap. 10. Ad Slyd-
uftu affakar Pilatus fig ad vera þeirra
Med-Doomara i þeffu Raunglæte, og
bijdur, þeir take hañ fiaalfer og Kroſs-
feſte, þvi hañ fiñe aungva Sok med hö-
num ; Hvar fyrer þeir laata Lokſins i
Liooſe þa Sok, hvoria þeir aadur, fyrer
ſijnum Riette, Chriſto fært hofdu til
Fordæmingar, ſeigiande :" Vier hofum
Log, og epter vorum Logum aa hañ ad
deya, þvi hañ giorde ſig ſiaalfañ ad Gu-
ds Syne." J Exod. B. 22. Cap. tal-
ar DRotteñ ſo: Hvor ſem Foorner fær-
er odrum Gudum eñ alleinaſta DRott-
ne, hañ ſkal forbañaſt. Og aptur, Levit.
24. Seiger Gud: Hvor ſem laſtar Na-
fn DRotteñs, ſaa ſkal Dauda deya. Og
eñ Devt. 13. verdur ſlijkt ijtrekad; Þeſſe
DRotteñs Log, er liooslega tala um̃ Af-
guda Dyrkara, Gudlaſtara og Fals-
Spaameñ, raungfærdu hier Gydingar
uppaa JEſum Chriſtum, Guds Eingiet-

eñ Son, hiñ mikla Spamañ, um̃ hvørn Moyses so talar, seigiande: Eiñ Spamañ mun Gud DRotteñ uppvekia hier, wt af hier og hijnum Brædrum lijka sem mig, hønum̃ skulu hier hlijda. Deut. 18. Eirneñ siaalfur Gud Fader, med eigeñ Raust vid Jordan, seigiande: Pesse er miñ Elskulegur Sonur, ad hvørium̃ mier Velhocknast. Matth. 3. Og äptur i Christi Forklaaran ijtrekar hañ sömu Ord, Matth. 17. Hvør og i øllu sijnu Framferde stundade sijns Himneska Fødurs Villia. Joh. 5. Pesse Blindne Gydinga skyllde nu so sierhvørium fyrer Sioonum vera, ad aller fordist þetta þeirra og añarra þeirra Lijka vondt Dæme, sierdeiles þeir sem adra aakiæra og dæma, Hugleidande ad Doomara Einbætted er Guds. Deut. 1. Pess ber Vallds-Moñunum vandlega ad giæta; So þo nockur af Heipt og Hefndargirne af-laga vilie, i sijnum Klogu-Maalum hreinañ Sañleika fyrer ødrum, ad hañ so falla meige; Pa skylldu þeir mikiu framar hrædast Gud eñ nockurs Mañs Persoonu; og leggia þad eina iñ i sijna Sañ-

Samvitsku, sem þeir villa fyrer Gude forsvara, lijdande slijkt i aungvañ Maata.

Miñ HErra JEsu! þegar eg heyri hvørsu þu varst hardlega Kvaliñ vegna miña stooru og otal mørgu Illsku Verka, þa mætti maklega dvijna Kiærleiki og Gledskapur mijns Hiarta: eñ allt og ædur, þegar Gudspiølliñ þar i mooti undirvijsa mier uñ þitt mikla Saklejsi, hvørt eg, med øllum Guds Børnum, tilreikna mier fyrir Trwna, þo veik sie; þa fær mitt Hiarta strax aftur Huggun og Gledi i þier mijnum Heilsugiafara.

Maklega meigum vid, Guds Barn! miñast med Athygli hier greindrar Utgaungu Drottins: so vid riettilega ijhugad giætum þa stooru Myskun, sem hañ ockur veitt hefur: hañ er sa Riettlætisins Kleñari og Meystari til ad hiaalpa, sem kiemur af Edom med raudlitudum Klædum. Es. 63. Þvi hañ ber hier, blaar og bloodugur, Þyrni-Coronu og Purpura Klædi. Siaa þu hañ, Guds Barn! Vegna ockar Bloodskulldar, og þeirrar Bølvunar, sem vid høfdum med heñi bakad ockur, heirdi ockur til, eftir Rietti, ad utskwfast fraa Guds Naadar og Dijrdar Augliti, og hrekiast i helvijtskañ Elld, og þar uñ Eillijfd, med Ovi og Tañagnijstran, ad ijklædast Forsmaan og Firirlitningu.

O þu Synd; O þu eytradi Ormur! hvad illt gisr-
ir þu af þier? þu adskilldir Gud og oss, hvørnin kun-
ir þu meira illt ad utrietta? O hvørsu marga Mein-
semd mátti Drottin hier lijda, so han feingi þig af-
mád? Hvad dijrt kostadi þad, Manin ad endurleisa,
þan sakada vid Gud ad sætta? Pegar þijn fladrandi
Flærd sveik mitt forblindad Sini, þá hugdi eg ecki
ad þijnum eitrada Hala, og eftirfilgiandi Straffs
Olucku. O Herra Gud! so geingur þad mörgum en,
þvi verr! Hvad tijdt er athugad i Upphafinu, hvad eft-
ir komi ad endaliktini; ad þad sem so þikir sætt, muni
swrt verda? JEsus vægi og miskuni oss vesølum; JE-
su, kien þu oss ad þeckia hier so Helvijti, ad vier kom-
um alldrei i þan Kvalastad!

Nu med þvi ad Frelsarin var hier utkleid-
dur allur albloodugr, þa vard mier og þier, þu sanydrandi Guds Barn! fyrst hier, lid-
ugur, Jngangur i Guds Naadar-Nijki og sijdan i hus Dijrdar-Nijki anars Heims, edur eilijft Lif; alla ockar Bloodskulld og Bølvan, hefur hin saara Kvolin JEsu Christi burttekid; han hefur þveigid ockur af Syndunum i sijnu Bloodi. Lofadur sie han eilijflega! Han er sw eilijfa Bles-
san; i hønum og fyrir hans Nafn erum vid nu blessud i ockar Jngangi, og blessud i ockar Utgangi, og, þegar vid høfum endad þetta synduga Lijfs Skeid, og han burttekur ockur wr ollum Hærska og Hriggdum, þa verdur Utborinn

ockar framlidni Likami i hans Nafni og lagdur i siñ Fridar og Hvijldar Stad, eñ Saalin fer gladvær i Hendur Drottiñs, hvar eingiñ Pijna snertir hana, og aa Upprisu Deigi alls Holldz, þegar JEsus, hiñ Ædsti Hyrdir, byrtist i siñe Dijrd; þa giefur hañ ockur, med ollum Utvølldum, þaa Ovisnanlegu Coronu Dijrdarinnar, 1. Pet. 5. So og giefur hañ ockur þa og klædir med hvijtum Klædum, sem er saa sami Skrwdiñ hans Riettlætis, og verdum so sijdañ leidd med hiñi mestu Vegsemd af Heilogum Einglum i þaa eilijfu Sælu hiaa þeim sialfum. Þaa munu þeir seigia til hvers eins af oss: SJAlid PENNañ MANN! hvorn allmargar Hormungar ꜳdur beigdu i Heiminum; hañ fieck þar eina Hret-Skwr Mootlætingaña aa adra ofañ, og felldi þar margt Taar; nu er hañ komiñ ur þeim miklu Harmkvælum, og hefur þvegiñ sitt Fat fyrir Lambsins Blood, barist goodri Baraattu, og feingid ꜳgiætañ Sigur. Hier uppꜳ munu vorar Saalir andsvara og seigia, med fogrum Saung-Hlioodum: Lof og Dijrd,

rd, og Spekt og Packir, Heldur, og Kraftur og Styrkleiki, sie vorum Gud og Lausnara fraa Eilifd til Eilijfdar, i hvørs Krafti vier høfum allt yfirunnid!

Sannlega ertu, O JEsu! Sonur hinns allra Hæsta Guds, Gud af sønnum Gudi, vollduglega eftir Andanum auglijstur, þu sanni Son Guds ert JEsus, þad er, Frelsare þijns Foolks, þu eini og eingietni Guds Son, hefur oss Syndugum skeinkt og giefid þinn Sonar Arf, so vier erum med þier Børn ordin, jaa, sannarlega Guds Børn, Erfingiar og Samarfar þijnir til Lifsins, allt þinnar Forþienustu vegna; þier eilijfum Almaattugum og alleina Vijsum sie af øllum Tungum alltijd og allstadar, søgd og samin, Dijrd og Odaudleg Æra, asamt Fødurnum og Heiløgum Anda, Amen!

# XXVI. Cap.

## Samtal Pilati vid Christum.

## TEXTINN.

Þa Pilatus heyrde þad Ord, Ottadest hann enn meir, og gieck aptur i Þijng-Hwsed, og sagdi til JEsum: Hvadann ertu? Enn JEsus gaf hønum eckert Svar. Þa sagde Pilatus til hanns: Talar þu eige vid mig? Veitstu ecke, ad eg hef Raad til ad Krossfesta þig, og eg hefe Raad til ad giefa

giefa þig lausañ? JEsus svarade: Eige hefder þu nockurt Valld yfer mier, nema þier være giefed þad hier ad ofañ; Fyrer þvi hefur sa meire Synd, sem mig ofurseilde þier. Og epter þad leitade Pilatus vid, hvorneñ hañ giæte lated hañ lausañ. Eñ Gydingar hroopudu og sögdu: Ef þu lætur þeñañ lausañ, þa ertu ecke Keysarans Vinur: Hvor sem sig giører ad Konunge, hañ er a mote Keysaranum.

UTLEGGINGIN.

AF Upphafs-Ordum þessa Heilaga Texta, verdur oss hier, Fyrst, fyrer Siooner leidt, hveriu sw nij-uppborna Akiæra Gydinga hafe komed til Vegar hia Pilato, sem er; ad þegar hañ heyrer, JEsus skule hafa giørdt sig ad Guds Syni, ottast hañ eñ meyr. Hañs Samvitska hefur, an Efa, sagdt honum, hvørsu illa hañ høndlad hafi, med hañ, sem hañ visse þo, og jatad hafde, Sakausañ vera, hvør opt vaknar, þo seint sie; Eñ einkañlega hefur þo þessare Pilati Hrædslu ollad hañs Jñbyrling. Hañ hefur

hefur þeinkt, epter sijnum Heidinglegum Hætte, ad JEsus, hvorñ hañ hefde Hæd strikt og spotta lááted, være Sonur ein-hvors þess Af-Guds edur Skwrgods, sem Heidingiarner, hañs Lijkar, tilbáádu, hvør þeir meintu ad Barna mundu afla sem adrer Holldleger Meñ; Hvad siáá máá, medal añars, af Dæme þeirra i Lystris fordum, nær St. Páál læknade hañ sem halltur vered hafde frá Moodur Kvide: Pa søgdu þeir: Godeñ eru Moñum lijk ordeñ, og til vor ofañ stijgeñ; Og þvi kølludu þeir Barnabam Jupiter, eñ St. Páál Mercurium. Act. 14. Hier fyrir hyggur nu Pilatus ad fara sem grand-varlegast og rettast hañ kañ med þetta Máálefne, og þvi hefur hañ sig hier strax aftur i Pijng-Hwsed, og spyr JEsum, hvadañ hañ sie, edur hvors Heidingia Af-Guds Sonur hañ være? Hier af máá augliooslega rááda, med hvad mik-elle Virdingu og Ottaseme ad heidner Meñ þioonad hafe sijnum Skwrgoodum, og hvad hrædder þeir vered hafe vid þeirra Tygn, er þo eingeñ var, þvi þau voru ei añad eñ Silfur og Gull af Mañá-

Hond-

Hondum, þau hofdu Muñ og mælltu ecke, Augu og sau ecke, Eyru og heyrdu ecke, og einginn Andardrættur var i þeim, Ps. 135. Og kuñu þvi alldrei ad hefna sinar Svijvirdu a neinum, so sem Joas, Fader Gedeonis, sagde fordum um̃ Baal og hans Alltare, epter ad þad var af Gedeone nidurbroted, og þeir af Ephron villdu þess hefna: sie Baal Gud, þa hefne hañ siin siælfur. Judic. 6. O hvørsu ættum vier nu þa, Christner Meñ, ad Ottast þañ saña og lifanda Gud, og hrædast ad styggia hañs Tignarfulla Vellde, sem øllum Drambsømum og O-Gudlegum af Stoole hrinder, og vill siins Oriettar hefna a siinum Ovinum, Es. 1. Og svala Reide siñe a þeim, sem honum og hañs Mootstødu velta, þvi hañ lætur ecke ad sier hæda! Hvar fyrer Postuleñ seiger: Ad hrædelegt sie ad falla i hañs Hendur. Ebr. 10. Hvørtier nu i slijku eru Heidingium vere; þeirra Afelok er Fyrerdæmingeñ.

Nu sem Lausnariñ villdi aungvu svara Pilato uppa soddañ Heidinglegt Spursmaal, ad ecki skylldi hañ slijkt hæda, þvi soddañ eirn Natturlegur edur Holldlegur

ur Madur skyniar eckert af Guds Anda; þvi þad er hønum Heimska og hañ fær þad ecki þeckt, 1. Cor. 2. Þa reiddist Pilatus, og seigir: "Talar þu ecki vid mig, eda veitstu ecki ad eg hefi Raad til ad Krossfesta þig, og Raad til ad giefa þig lausañ?" Vissulega ætti og mætti Pilatus brwka Magt sijna, til ad frija hiñ saklausa af Ogudlegra Hendi, og laata hañ riett skie, þvi þar til var hønum, so sem ødrum Valldsmønnum, Valldid giefid, eñ ecki til ad æfella hiñ sama. Eñ þetta Pilati Siñi mæaske eñ þaa siñast meigi i nockrum, hrorier ad reikna sier vera þad leifilegt, ad fæta jafnvel riett Maal aa raangañ Veg, og ad þeir meigi smijda Løgunum þær Meiningar, sem þeim þaa lijkar, og briota þau og beigia eptir siñi Gledþeckni i hvørt Siñ, first þeir hafa haatt Valld og mikla Magt; Hvarmed umkomulitlir meiga sitia: Þessir laata þad af sier heyra, sem David seigir; vor Twnga skal Yfir-Raadiñ hafa, oss ber ad tala, hvør er vor yfir Herra? Ps. 12.

Eñ þessum Raanglætis Hofmood Pilati,

atl, og hans hiergreindra Stallbrædra svarar Lausnarins og seigir " Eigi hefdir þu nockud Walld yfir mier, nema þier væri gitfid þad hier ad ofañ" 1.) Maa hier nu sierhvør af þessu Andsvari liooslega siaa og skilia, hvadañ hvør eirn hafi Magtina, edur af hverium hun sie laanud og þeigiñ, sem er alleina af sialfum Gudi, jafnvel þo hañ adskilianleg Medøl brwki i heñar Utdeiling og Afhendingu; Þvi St. Paall seigir, ad þar sie eingiñ Valldstioorn utañ af Gudi, og hvar hun sie, þar sie hun af Gudi skickud. Rom. 13. Hvør ad er saa Doomariñ, sem nidurlægir eirn, og upphefur hiñ añañ. Ps. 75. So hefur þa sierhvør medtekid sitt Lieni af Guds Hendi, hvert þad sama er hærra edur lægra, meira edur miña; þvi Embættiñ eru marghaattud, eñ eirn er DRottiñ þeirra Giafari; 1. Cor. 12. Fyrir þvi hefur nu sierhvør ad giæta sijn vandlega, og vakta i Guds Otta uppaa þad Embætti, sem hønum er tiltrwad, og aa Hendur fallid; þvi Gud mun aa sijnum Tijma þar Reikning af heimta hiaa hverium einum, so hinum miñsta

sia

ska sem hinum mesta; hañ mun rañsaka
þad hvad skickad er, lijka eirniñ hvørniñ
breitt er, Cap. 6. hvad og sijnir Dæmi
hiñs rangláta Raadsmañs, samt añ-
arra miklu fleyri, er vondrar Raads-
meñsku vegna, af heñi settir verid hafa og
hardlega straffadir. Gud hefur þvi ad eins,
eiñ og sierhvørn til Heidurs settañ, ad hañ
af þeim sømu heidrast skylldi: nioota mei-
ga þeir ad søñu Byrdingar siñar, sem til-
hlijdir, eñ varast þo alla Drambsemi,
Roog, og Ranglæti, og miñast ævallt
þess Syrach seigir: Þvi hærri þu ert, lij-
tilæt þig þvi meir, so mun Drottiñ þier
hollur vera. Syr. 3. Þessa skylldu og
eirniñ giæta þeir Undirgiefnu, og vera
undirgiefnir og hlijdugir i Guds Otta sij-
nu Yfirvalldi, so sem Guds Uñbods-
Møñum, er hañs Sverd i Hendi hafa, og
mun þeim, þad giøra, gott af þvi standa;
þvi Hlijdni er betri eñ Offur, eñ þriost-
skir og þverlyndir hafa sier Straffs og
Olucku ad vænta. Þar sem nu Magt-
iñ er ad ofañ giefiñ, þa er þad øllum
Gudhræddum Yfirmøñum til stoorrar
Huggunar, þvi DRottiñ vill vera þeir-
ra

ra Styrkur, giefa þeim Vijsdooms og Saūleiks Anda, ſaa ed þa leidi aa riettum Veigi, þvi haṅ er med þeim alla Daga, allt til Enda Veralldar; vilie nockur þeim wtſkwfa og lijtils meta, þa wtſkwfa hinir ſømu þeim eckt, helldur Drottni. Þvi meiga þeir ætijd ſeigia: Mitt Maalefni er DRottiṅs, og mitt Embætti er mijns Guds. Eſ. 49.

2. Er þad hier liooſt af HErrans Ordum, ad aadurnefnd Magt naai eckt leingra eṅ Gud vilie, haṅ kaṅ ad auka hana og mijnka eftir ſiṅi Velþocknan; þvi ſeigir Salomon: Hlutføllum verdur kaſtad i Skaut, eṅ þau falla ſem DRotteṅ vill. Prov. 16. So ſtanda þa ſierhvers Tijmar i Guds Hende, Eſ. 31. Þad er æſkeleg Huggun fyrer alla þaa, er offookter verda, þvi þeir hafa eirn Gud, þaṅ er hiaalpar, og þaṅ DRotteṅ DRotteṅ, ſem af Daudanum frelſar. Pſ. 8. Sem bæde kaṅ og vill, ef þeir treyſta hønum og aakalla haṅ, ſetia þeirra Ovinum Hrijng i Naſer, og eirn Vitil i þeirra Muṅ, ſo þeir meiga fara þaṅ Veg, ſem DRotteṅ vill, og ecke alltijd ſem þeir vilia, hvad

miög sem þeir hafa aadur hroosad sier af Magtenñe, med Pilato: Oll Guds Barna Hofud-Haar eru taleñ, og þar fellur ecke eitt af þeim aa Jord aan hañs Villa: So hier uñ maa seigia sem Achior sagde Fordum til Holofernem; eingeñ kañ ad giora þessu Foolke Illt, utañ þad syndgad hafe aa moote sijnum Gude. Jud. 5. Hier þvert aa moote, þo Saul, giegn Guds Bode, vilie laata Agag O-ressitañ, þa er Samuel til, er ecke sparar honum Sverded. 1. Sam. 15.

3. Undirvijsar Frelsariñ hier, ad sierhvør, sem sier meddeillda Magt vanbrwkar, edur hvør saa illa giører, hafi sier Straffs ad vænta eptir Atvikum: fyrir þvi, seigir hañ: " hefur saa meiri Synd er mig ofurselldi þier." Gydingar, hvørium Christur var sierdeilis Fyrirheitiñ, sijndur og sendur, eñ utskwfudu honum hvad mest, syndgudu meyr eñ hiñ Heidni Pilatus, i þvi; samt syndgadi hañ þo stoorlega, þar hañ vijsvitandi, moot Rietti, fordæmdi hiñ saklausa, og liet Gydingaña Ossa og Keysarans Magt (hvøria hañ hræddist meir eñ Guds) sier

þar

þar til koma at moot ſiñi Samvitſku; og komſt þvi ecki helldur, eñ þeir, Straffilauſt undañ. Hier af maa þad ollum auglioost vera, ad eftir þvi ſem ſierhvør misbrijtur, eftir þvi verdur hñ ſtraffadur: ſaa fær ſtærri Refſing ſem meyra hefur til uñid: af þeſs Hwøſi mun Plaagañ ecki ganga, ſem af Prioot ſku ydkar Syndina: þvi ſaa Pioon, ſem veit Vilia ſijns Herra, og tilbioo ſig ecki og ſkeitti hønum ecki, mun faa mørg Høgg. Luc. 12. Hyggi þeir ad þeſſu, ſem ſtrax eru til reidu ad fremia ymſa Illſku, faai þeir þad eitthvad gripid, med hveriu þeir vilia ſijna Skom̃ afſaka fyrir Møñum, þad heitir ad fela Høfudid, og meina ſig þar med huliñ, þo allt ſie añad bert: laat ecki yfirſtijga þig hid vonda, helldur yfirviñ þu þad vonda med goodu.

O DRotteñ! Virdſtu Naadarſamlega ad vardveita alla Yfervallds-Meñ, ſierhvørn i ſiñe Stiett og Kallan, ſo þeir varaſt kuñe allar Odigder, eñ faae fram-filgt ſijnu Embætte i Guds Otta og ſañre Roggſemd; Þeim Undergiefnu gief þu og, ad þeir ſtande i Riettſkickadre Hlijdne vid ſijna Yfirbodara, Sierhvør ſo ſem Skylldañ bijdur, uppaa þad vier mættum hafa ſpakt og Roo ſamt Lijferne i allre Gudrækne og Sidſemi, Amen.

# XXVII. Cap.

Pilati Samtal vid Gydinga a Doom=Stoolnum.

## TEXTINN.

HA Pilatus heyrde þad Ord, leidde hañ JEsum wt, og sette sig a Doom=Stooleñ, i þeim Stad sem kallast hñ Steinlagde, eñ a Ebreskn Gabbatha, eñ þad vaar Adfaanga Dagur Paaska, nærre Siøttu Stundu. Þa seiger hañ og til Gydinga: Siaaed! Þad er ydar Kongur. Eñ þeir kølludu: Burt, Burt med hañ, Krossfestu hañ! Pilatus sagde til þeirra: Skal eg Krossfesta ydar Konung? Kieñemaña=Hofdingiarner svøorudu: Aungvañ Kong hofum vier, utañ Keysarañ.

## UTLEGGINGIN.

HEptiñes hofum vier hijngad til heyrt hroosad Pilati Stadfeste i Medkieñingu Sañleikans uñ Christi Sakleyse, sem og hañs Astundan i, þvi ad frija JEsum fra Krossens Lijf=Straffe; Þo vitnar fyrerfarande Texte, ad hañ

hafe ecke hina minstu Vidleitne þar a lagt, ad afstødnu þeirra sijdarsta Samtale, er næst var um̃ gieted; Eñ hier i Textanum verdur oss sagt, ad epter þad hañ heyrt hafe þad Ord, ad hañ munde med Utlausn Christi, ef hañ filgde heñe fram, afla sier Keysarans Reide, þa hafe hønum øll Riettvijse Maalaña um̃ Hendur fallest, og þar fyrer leidt JEsum strax wt, og sett sig a Doom-Stooleñ. Lausnareñ hafde adur undervijsad Pilato noogsamlega i siñe Loflegu Jaatningu fyrer hønum̃, hvør Mismunur ad være a mille sijns Rijkes og Veralldlegra Rijkia, og siñar Kongs-Tignar, og hiña añara hier i Heime, so hañ maatte skynia, ad Christi Kongdoomur nidrade i aungvu, og var ei mootstædelegur, Keysarans-Tign, þvi Christi Rijke var Andlegt eñ Keysarans Jardneskt; Hier fyrer utañ voru marger Kongar under Keysarans Velldi, og ei þar fyrer i moote hønum. So þar sem Pilatus, sem eirn frañsyñ og forstandigur Madur slijkt athugad hefde, þa hefde hañ ei þurft ad hrædast fyrer adur-nefndu. Eñ þar sem

Lausnarans Ræda var hønum Heimska og fieck ecke hana griped, þa hræddest hañ og þessar Fortolur eiña mest, so þær komu hønum til ad dæma JEsum Saklausañ til Dauda a moote siñe eigeñ Samvitsku, ef ske mætte, ad hañ þar med miñsky kiñe Keysarans Reide, og þad Straff, er hañ kiñe a hañ ad leggia, Ohræddur fyrer sialfs Guds Reide, hvorn hañ ei þeckte nie miñsiñte; Gat þo hvorugt þetta miñkad sijdar, sem ei var Von; Þvi hvad O-Gudhræddur Madur ottast, mun yfer hañ koma; þar þvert i moot, hvad Riettlatur gyrnest, mun hønum giefast; seiger Salomon. Ordskv. V. 10.

Athuge nu sierhvor vorra þetta so, ad vier høfum alltijd Gud fyrir Augum oss i øllum Efnum. O Madur! viñ þu þad alldrei til skamviñar Mañaña Hylli ad hafna Drottins Vinattu, þvi hañ seiger: Bølvadur er sa Madur sem hefur Traust a Mañinum, og helldur Hold:d fyrir siñ Arm, og i burtvijkur fra Drottni med sijnu Hiarta. Jer. 17. Þvi hvad er M:ñaña Hylli? Hun er sem brotiñ Reirsproti, vid hvorn ef-

nock-

nockur sig stidur, þaa geingur hañ inn i hañs Hond og stijngur hana i giegnum. 2. Reg. 18. O þa stooru Blindni margra, ad selia Sañleikañ fyrir Lijgina, eirn oruggvañ Kastala fyrir eitt nidurbællt Moldar-Hreysi, og Nægtina fir ir eirn Braudbita! Slijkir eru ecki Flaars sijns raadandi, er ei betur kaupa eñ so, ad þeir, med Pilato, selia sætt fyrir swrt, Ljoosid fyrir Myrkrid, og Lijfid fyrir Daudañ, snwa sier fraa Himnarijki, eñ halla sier ad Helvijti; Sud fordi oss slijkri Blindni.

J Añañ stad verdur hier gietid Dom-Stoolsins sama stadar, og þar næst Tijmans, aa hverium Pilatus hafe sett sig aa Doomstooliñ. 1). Stadarins, sem nefndst hafi: hiñ Steinlagdi, eñ aa Ebresku Gabbata, edur Hæd. Hier med auglijsist oss Astundan hiña firri Maña, i þvi ad vanda þaa Stadi, hvar dæma atti um Æru Maña, og Bloods-Sakir, er ei voru i Launkofum, helldur opinberum Stad og jafnvel undir berum Himni, so sierhvor mætti siaa Doomarans Persoonu, er þar væri i Augsijn

og Umbodi Guds, og heyra hañs Alykt-
an, sem hañ villdi fyrir Gudi og Moñ-
um forsvara. Eñ þad vor Herra villdi
þar dæmast, skiedi sañlega þar fyrir, ad
øllum opinbert yrdi, ad hañ saklaus og
heilagur dæmdist þar til Dauda, ad hañ
frijadi þar med oss rꜳnglꜳta frꜳ for-
þientum eilijfum Dauda Doomi; hvo-
rn hañ siꜳlfur mun sijdar, af sijnum
Tignarfulla Doomstooli i Skijnunum,
opiñberlega uppseigia, yfir øllum Ogud-
legum og Ydrunarlausum. JEsus var
og þvi sañlega til Dauda-Dæmdur i mꜳ-
rgra Nꜳvist, ad hañ oss vita lieti, ad
hañ burttæki ecki eins Mañs Synd,
helldur allrar Verallдariñar Syndir. 1.
Joh. 1. Hugga þig hier vid, þu særdi
Syndari! sem rꜳsad hefur og rꜳsa blit-
ur, um þad hꜳa og Hala Stein-Stræ-
ti þessarar vondu Veralldar, a hvørin
þu opt rasad hefur og þig slasad; grꜳt
þau Føll, þijn Samvitska þeckir þau
vel; lijt hier eftir ecki so hꜳtt, vert ecki
metnugur helldur ottasleigiñ; vanda þiñ
Veg um þessa Hættu Slood, og haf
JEsum þier fyrir Augum, sem þig fall-
iñ

iñ hefur aa Fœtur reist, treystu hønum, hañ mun þaa bœta øll Þijn Vandrœdi, og greida Fœtur þijnar fram̃ aa Veg Fridarins. 2.) Verdur hier gietid Tijmans, sem var Adfaanga Dagur Paaska, nær siøttu Stundu. A þessum Deigi skilldu Gydingar tilreida þad þeir þirftu um eftirfilgiandi Haatijd. Ex. 16. A Þessum Deigi villdi JEsus lijda, dœmast og deya, jaa, allt vort Lausnar-Giallld tilreida, so þar er eingiñ Brestur aa i nockru. Hvad er vort Lijf i þessum Heimi? mun þad ecki meiga reiknast so sem eirn Adfaanga og Tilreidslu Dagur til hiñar eilijfu Paaska Haatijdar? Þu Guds Vin! hier hlijtur þu ad dœma siaalfañ þig Daglega, hier maattu endilega deya siaalfum þier, vilier þu ecki af Drottni dœmast, vilier þu lika eilijflega: hier skalltu endilega, fyrir Hiaalp Drottins, taka uppaa þad rietta Brwdkaups Klædi, vilier þu vera med þeim Hoopnum, sem Haatijdina helldur, og bidia i þessum þijnum Veikleika, med heitum Taarum, ad JEsus, fyrir siñ Anda, tilreidi þig hier so tijmanlega, so sem

hañ vill, ad þu skulir vera þar eilijflega; Legg og alla Krafta aa, i Guds Nafni, ad vanda Umñ-Hyrding Saalar þiñar, eñ laat Lijkamañ verda so aumlegañ sem verda vill, þad verdur allt gott; þegar hañ forklaaradur upprijs i Vegsemd. O Guds Barn! þeink uppa, hvad þar muni vilia aa eftir koma, ef þessi þijn Tilreidsla framkvæmist ecki, fyrir fullendad Soolarfall þiña Lijfdaga, edur þessa Heims Hiervistar Adfaangadags; þad er þier obærilegt Skadrædi, med þeim oforsiaalu Jomfrum, hvøiar nu margar gioraft, ad sofa so fast i Astundunarleysi þess andlega, sem þær, hvørra Afdrif þu heirt hefur, þar sem þu so tijdt og oft aaminñt verdur af Guds Alfu; Þeir nu ecki, sem sagt er, vakna vilia aa þessum Adfaanga Deigi, til ad stunda nefnda Tilreidslu, eru samlijkir Gydingum, er sögdu hier (þegar Pilatus, so sem bendte þeim til JEsum, seigiande: "Siaa ed þad er ydar Kongur,) Burt, Burt med hañ, Krossfestu hañ", þvi Ydrunarlaus Synda-Ydia er þad Hroop sem hönum Oskar ad n:ju Krossfestingar. Sum

ecke

ecke þaññ Bakenu vid þijnum JEsu, so hañ sinnþe ecke Bakenu vid þier, þegar þier mest aaliggur, Jaa, þegar allt snijr vid þier Bakenu aa þiñe Andlaats Stundu; Tem þier helldur aa medañ þu hiarir, þessa ydrandi Bænar Raust hiña Lijkþraau Mañs: JEsu goodi Meistari, mysskuna þu mier! so vill JEsus heyra þig, og iñtaka Saal þijna vid Lijkamañ skilda, i þa eilijfu Gledi-Saungva Himnesskrar Dijrdar. Ad soñu var JEsus saa fyrirheitni Kongur Gydinga, eñ med þvi þeir afsøgdu hañ, og kvaaduft aungvañ Kong hafa utañ Keysarañ, þa vitnudu þeir sialfir aa sier uppfilltañ vera Spaadoom Oseæ, er so hlioodar: Israelis Born skulu laangañ Tijma vera aan Kongs, aan Høfdingia, aan Offurs, aan Alltaris, aan Lijf-Kyrtils, og aan Helgidooms, þa skulu þau seigia; Vier høfum aungvañ Kong, þvi ad vier Ottustum ecki DRottiñ. Cap. 3. og 10. Sañarlega ertu, O JEsu! eirn Kongur, þvi þu ert Kongur Dijrdariñar, DRottiñ Zebaoth er þitt Heiti, Ps. 24. Kongur Englaña, Ebr. 1. hvorium þu ert miklu ædri;

Kong=

Kongur Christni þiñar, Ps. 2. Edur hiñar Andlegu Zion, allra þeirra sem aa þitt Nafn trwa, i hvørium þeir hafa Endurlausnina fyrir þitt Blood, edur Syndaña Fyrirgiefning; og eiñ almaattugur Kongur, hvørs Haatignar Velldi ad er Omælañlegt og Endalaust: Eñ þar yfir maa eg mig maklega furda; ad þu gafst þijna elskulega Saal i Ovina Hendur, og stoodst hier bundiñ, sem aññar Illvyrki, fyrir syndugra Raadi, þijn Arfleifd grenjar hier i mooti þier sem aññad Leon, og skickar Bod eptir þier og seigir, vier viljum ecki þeña rijkia laata yfir oss. Luc. 19.

O HErra JEsu! þu hefur oss þetta til Frelsis uñid, allt er þad oss til Boota skied: O hvad miøg laangar mijna Saal og Hiarta eftir þier, og til þijn! nær mun su Fagnadar Tijdiñ koma, aa hverri eg fæ ad leysast ur þessum Hryggdum! þad standi þo i þiñi Forsiaa, verdi þiñ eñ ecki miñ Vilie! Eg veit og trwi, ad eg muni um sijdir faa ad nioota þijn, og siaa Goodsemd þijna aa Landi lifandi Maña, jaa, saddur verda, nær eg vakna eftir þiñi Mynd, aa þeim Deigi sem þu, miñ DRottiñ, setur þiñ Dijrdar Doomstool i Skijum Himins, fyrir hvørn eg mun koma, þo frelsadur, og heyra þañ Fagnadar Bodskap, ad eg med ødrum utvølldum sie utvaliñ, til ad vera þeirra Sam-Pioon, i þvi ad losa þig Oaflaataulega: Þessi Tilhuxan skal stytta Stundir miñar Armædu! Þu ert miñ Kongur og HErra, aa hvørs Footskør eg stend, meigi eg ad eins heita þiñ miñsti Præll, jaa, hiñ audvyrdilegasti aa medal þeirra, eñ þo þiñ

eigiñ,

eiginn, þa er mier þad ærid noogur Heydur; liitid skulu øll Veralldar Metord hiaa hønum og Heydur þessa Heims hinn hvikuli og skammvini; þessa vil eg aungvum missinna, hinn vil eg fyrir mig kioosa; hanns giør þu mig verdugann, minn HErra JEsu! þvi þa veit eg, ad hvar sem þu ert, þa verd eg þar og, þinn Præll. DRottinn JEsu! þiina Christni, þijn Børn hier aa Jordunni, laangar eptir þier af Hiarta, sijnum einka Konungi; vitia þu i þinni Naad og Myskun þessa Vijnvidar, og hald hønum vid Magt, hvørn ed þijn hægri Hønd hefur Grood-ursett, so hann ødlist eilijfann Frid himneskrar Dijrdar, Amen.

# XXVIII. Cap.

## Um Pilati Handa Þvott og Doom.

### TEXTINN.

EN Ner Pilatus saa þad, hann kom aungvu til Vegar, helldur þad, ad þar yrdi enn meira Upphlaup af, took hann Vatn og þvodi Hendurnar fyrir Foolkinu, og sagdi: Saklaus em eg af Bloodi þess hinns Riettlaata, siaaid þier til! þaa svaradi allur Lijdur, og sagdi: Hanns Blood komi yfir oss og yfir Børn vor. Enn Pilatus þeinkti Foolkinu Fullnægiu ad giøra, og dæmdi, ad skie skylldi þeirra Beidni.

### UTLEGGINGIN.

Riaar Odygdir verda oss hier fyrir Sioonir settar i þessum heilaga Texta, sem sierhvør Christinn Madur skylldi sterklega varast, Tvær af þeim auglijsast aa Pilato, siaalfum Doomaranum, enn hin Pridia aa þeim Ogudlegu Gydingum.

Su Firsta af þessum Odygdum, er RANGLÆtid. Þegar Pilatus sier, ad hann kiemur aungvu til Vegar, i þvi ad Christur meigi laus laatast, ann þess þar verdi meira Upphlaup af, þa hurar hann ad hlijfa siaalfum sier, koma sier fraa, og vinnur þad til, ad laata Riettinn med Skømm nidurfalla, helldur enn hann hafi Ovilld og Reidi annarra aa sier, fyrir hverri hann meyr ottast enn Guds Doomi, og Aklogun vondrar Samvitsku, aa mooti hvørri hann dæmir hier ranganu Afellis-Doom viliandi; fraa hvøriu hanns vonda Dæmi Gud Myskunsamlega vardveiti einn og sierhvørn! Hvad margur finnst nu sa i þessari Mannspillandi Verelldu, sem lastar og fordæmir Pilatum hier fyrir, enn elskar og ydkar þo siaalfur hvad mest hid sama Illsku-Athæfi hanns, og

finnst

fiüst i sømu Satans Snoru faungiñ mz hønum; hiñ sami Ott i og Hrædsla er Pilatum hier plaagadi og bratt hønum fraa Saũleikans Filgi, plaagar eñ nu, og fellir stundum med sama Slag, suma Yfirdoomara, so þeir naalega ecki þora ad upplifta Augunum fyrir þeirri Ogn, er þeim stendur af eins Magtár-Maũs Persoonu; ef haũ alldrei so lijtid yglir sig, þaa driwpa þeir sem Vax vid Hita, og gleyma so añadhvørt øllum Laga-Greinum, er þeir eiga eftir ad dæma, og i hvørium þeir þoktust aadur fullvitrer, edur og, mz Leisi ad seigia, stinga þeim undir Stool, og dæma med Pilato, ad skie skuli þeirra Beidni, þad er, laata vera sem þeir villia edur hafa fyrirlagt. Nu er þad vid sitt Verd, þo þaa hendi þetta Slis, sem faakiænir eru i þessu Starfi og nijkomnir til Embættis, og alldrei megnuger voru yfir ødrum Doom ad seigia, þo þeir añadhvørt siaalfir, edur adrir, hafi þeim i þeñañ mikla Vanda trodid, fyrer Metorda og Ærugyrndar Saker; Eñ þad er eñ stærre Skom fyrer hina, er fulla Vitsmune hafa þeiged til ad giøra riett,

riett, og afrækia þad samt viliande, sem Pilatus hier, meir hrædder fyrer Ovilld Mañа eñ Guds Obliÿdu. Og hvør er sæ, sem ecki vite, hvørsu ad Peningur, Gialld og Audlegd, æsamt Vinfeingenu, (epter þvi sem hiñ Heidne Horatius sagde) giefur allmørgum nu bæde Ætt og Alit; Pad er breider sig, sem ein fogur Abreida, yfer Skarn og Preck og ymsa Vidurstiggd, so sliÿkt mæ jafnvel siæst, edur heyrast, þar sem þad er þo ecke einasta heim sem allt veit, helldur og eirneñ Moñnmum, liooft og Opeñbert. A þa Audureñ ad þiena til þessa? A hañ ad koma þvi til Leidar, ad hiñ Glæpafulle Barrabas sie fyrer hañs Medalgaungu forsvaradur? Vijst er hañ þar til mætulegur, seiger Verolldeñ; Pa skilst mier orded sie uppvijst, til hvørs Achan hefur sied, gyrnst og stoled Gull-Tunguñe, Silfreñ og Kæpuñe, Jos. 7. Sem er, so hañ giete lagt þetta i Leosañ og teked med þvi Eggena wr Neffsingar-Sverdeñ, og eydest þa so þesse Peningur sem afladest; Afladest med Skoñ og eydd est med Skoñ. Ecke er þess gieted, ad Pilatus hafe þessa Kost ætt uñ Siñ, eñ
hvørt

hvort ecke sie nu Stundum strynged Sverdenu i Baled, sie slijkt i Bode, þad er Gude kuñugast, og þeim er Hondena rietta i moote Mynstuñe, ef nockrer eru; Eñ þiñs mæ eg Oska, ad Gud Myskune þeim Auma og Faatæka, þegar hañ æ fyrer Riette ad skipta vid þañ Rijka; Þvi hægt mun vera ad gieta æ þad, hver þar hefur Sigur vor Bijtum uñ Sluñsaker, sierdeiles ef Doomareñ veit, hvad þeir Ædre vila þar uñ æliktad hafa. Eg vil spyria: Hvør mun vera Orsøk til þeis, ad so margar Odygder fiølga nær þvi Daglega i Lande voru? Andsvar: Uñvondunarleysed er hin hellsta Orsøk þar til, hvorrar vegna ad marger Skælkar hlaupa Oresster, og hælast sijdañ uñ, ad so og so hafe þeir afkomest, soddañ Lucku-Meñ hafe þeir vered; Og af þessu taka sumer adrer sier Stefnu epter æ, fyrst þeir siæ þad, ad þesser melga lifa og læta sem þeir vilia, og hafa aungvum Hardendum mætt, og fæ so þesse Drotteñs-Svik og Skælka-Skiool, Spaklyndes og Myskunar-Nafn hiæ allmorgum. Þar næst er Orsøk þar til, Elska su hin fordiarfada, er Meñ hafa til

sijn sialfra, og siña Gagnsmuna, so ad
þeir añadhvort eru of-brædder fyrer añ-
arra Areitne og Atølum, edur þeir taka
Mwtur til Maala-Filges, sem þo blindar
Augu Vijsra Maña, og umvender Maal-
Efnum Riettferdugra, Devt. 17. Uñ
hvørttveggia þetta er ædur nockud talad.
Eñ hvad stoor Svijvirding þetta sie fyrer
Auglite þess Riettlaata Doomara æ Him-
num, þar æ giører Guds Heil. Ord liooßa
Grein, ef Meñ villdu þvi sæta. J stuttu
Maale: þad hootar þessum og þeirra At-
hæfe Tijmañlegre og eilijfre Bølvan, þvi
Raaunglæted eyder øllum Londum, og
vondur Lifnadur Kollkastar Stoolum
Volldugra. Spek. B. 6. Og so sem Ellds-
Logeñ foreyder Stræenu, og Logeñ burt-
tekur Agnernar, so mun og þessara Root
forrotna, og þeirra Greiner munu upp-
sliwga sem añad Molldar-Rik. Es. 5.
Jaa, þeir munu ecke faa stadest i Doomen-
um sijdar meir: Psalm. 1.

Auñur Odigdeñ, sem Texteñ auglijser
hier, ad i Pilati Fare fundest hafe, er
HRAEsneñ, þvi þegar so er vared Efn-
um hañs, sem ædur er sagt, ad hañ er ko-
meñ

meñ i sialfst Verked ad dæma eirn Alls-Doom yfer Christo, so hañ sefe þar med Ossa Gydinga, þa tekur hañ Vatn og þvær Hendurnar fyrer Foolkenu, og seiger: " Saklaus em eg af Bloode þess Riettlaata, Siaaed þier til!" So vill hañ þa meint hafa, ad þesse sijn Afsøkun, skule ecke einasta fyrer Moñum, helldur og fyrer Gude, gillda, ad hvørki hønum villde ecke verda, þar hañ (epter þvi sem Sagna-Meistareñ Evsebius vottar) Atta Arum sijdar sloo sig sialfañ i Hel af vondre Samvitsku. O hvad stoor Blindne er þetta! Ad syndga og misbriota er ad søñu Straffsverdt; Eñ allt og aadur, so leinge sem eirn þoler Gudrækelegar Amiñingar og Aviitaner, þa er nockur Von goodrar Lagfæringar, og ad sia hiñ same hiaalpast kuñe: Eñ þegar nockur vill ei laata straffa sig framar af Anda DRottens, afsakar Lestena, hroosar þeim, og giefur þeim Dygda-Nafn, þikest bæde og vill laata hallda sig froomañ, hvad mørgum Skømum og Vomum sem hañ er augltooslega vafeñ, þa gietur þess Mañs Gudleyse varla hærra stijged; Hañs hid

 sijdara

sijdara er þa verra orded hinu firra; So vandsied er, hvørt hañ hætter vid, fyrr eñ hañ hrapar aa Stig eilijfrar Fyrerdæmingar, þvi slijkt kañ DRotteñ i aungvañ Maata ad lijda. Tak þier O, Madur, Vara vid slijku, i Guds Nafne! Þo þu fæer villt Mañaña Siooner, þa sier þo og rañsakar Gud þitt Hiarta, hañ kantu ecke ad villa; Pad þu glorer Illt heimuglega vill hañ opeñberlega þier endurgiallda; Hafe David, sa goode Guds-Madur, feinged aa slijku ad kieña, þeink, hvad þa mune villa verda um̃ þig Olijkañ honum ad Um̃vendaneñe, og være gott, Refsingeñ bide ecke þar til veft glegner. Viller þu hreinsa þig, þa hreinsa aan allrar Hræine þitt Hiarta, eñ ecke sem Pilatus og Pharisæi; Hreinsa þig, seige eg eñ, med heitum Ydrunar Taarum, Graat beisklega Synder þijnar, lauga þig sijdañ med Hondum sañrar Truar og alvarlegrar Um̃vendunar i Bloodenu JEsu, set allt þitt Traust aa hañs Pijnu og Forþienustu, og efa alldrei hañs Myskun; Pad mun þa eilijfrar Heillsu-Bootar afla Saalu þiñe, hvørn Doom sem DRotteñ villl

vilt leggia, hier i Tijmanum, at þitt Maal-Efne; Þvi tak þu med Þockum og Þoleñmæde.

Þridia Odygdiñ, uñ hvoria hier verdur talad, og at Gydingum auglyͤstist, eru OVRENirnar, er þeir, blindu Meñ, løgdu yfir sig og sijna Nydia, óskandi, ad Blood hins saklausa skilldi koma yfir sig og þa; og framkom þad eirniñ 40. Arum sidar, i hiñi hrædilegustu Foreydslu Jerusalems Borgar, og framkiemur eñ i Dag. Þessu og ødru illu kiemur svo orjettferduga Reidi til Leidar, sem bædi þetta og fleiri Dæmi audsijna; þo þeir þad lijtt athugi, sem þeñañ Eytur Orm ala i Hiarta sier, og verda so Stundum tvøfalldir Mañdrapar, bædi sijn og añara; Þeir læta, ei ad eins, eckert Illt Ogiort, sem kuña med Verkunum edur þora, helldur formæla þeir bæde sier og ødrum og nalega øllu þvi þeir vidkoma: Forþijsa Heil. Anda vor Hiarta sijnu, eñ biggia Dioflenum iñ aptur, og, ad Overum sier, bidia þeir, ad Gud vilie steypa sier i Helvijte, edr aptrhallda sier sijnar Synder, Oskandi sier og sijnum margrar Olucku,

Andlegrar og Ljkamlegrar. J einu Orde ad seigia : ollu þessu klemur sa Olme Hundur Reidenn af Stad. Pad kann and-velldlega ad ske, ad Satan suge þessu Jll-Kvikende að þig; enn sia til, Guds Barn! ad þu faer þvi sem allra skiotast wthlijst wr þijnu Hiarta; Pike þier illt ad umm-gaangast med þeim sinn Vite firrtur er, med Lioonum og Byrnum, þa er þo enn verra, at vissann Hatt, ad umgaangast med einum Foolsku-fullum Manne, sem framar maa Vargur enn Madur kallast, þvi hann er, seig-er Chrysostomus, Leik-Spil Diofulsins. Stunde þvi sierhvor ., ad vera Herra Gieds sijns, og vande alltijd Ord og At-hafner, enn einkannlega naer þetta Atvik vill yfer koma; Laattu ecke yfersttjga þig hid Vonda, helldur yfervinn þu þad Von-da med Goodu; Vardveiter þu vel þinn Munn og Tungu, þa vardveiter þu Saal þijna fra Angist, seiger Salomon, Pro. 21.

O Þu Riettlaate Dyrdarennar Konungur, JEsu Chri-ste! sem hier varst daemdur, og munt snarlega aptur koma, til ad daema Lifendur og Dauda, Gief þijna Raad oll-um Doomendum, ad þeir vande sijna Dooma, so þijn-verde Dijrdenn, enn þeirra Velferdenn: Þvo þu oss alla, O JEsu! af ollum vorum Syndum, med þinu dijr-maeta Bloode, er hreinsar vorar Samvitskur af Daud-

legum

legum Verkum, til ad hioona Gude lifanda, so vier Fridþægder, fyrer Trwna a þig, mættum med vorum Børnum frelsader komast til eilijfs Fridar, fyrer þitt wiheilta Flecklausa Blood a Krossenum, Amen.

# XXIX. Cap.

Um Barrabas Frelsi.

## TEXTINN.

Da gaf hañ þeim Barrabam lausañ, þañ er iñ var settur fyrir Upphlaup og Mañdraap i Myrkvastofu, um hvorn þeir badu. Eñ JEsum hwdstrijktañ framsellde hañ þeim, eptir þeirra Vilia, ad hañ krossfestur yrdi.

## UTLEGGINGIN.

Ut af þessum heilaga Texta mæ draga eina merkilega Þijdingu, uppa Mañkynsins Eymdarfulla Neyd, og hormulegt Tilstand, sem og þess Fagnadarfulla Lausn og Frelsi; þar ed JEsus, hiñ heilagi og riettferdugi, mætti til Dauda dæmast, hvar af þeim Upphlaupsama Mordingia, Barrabas, hlotnadist Lijf og Lausn af sijnu Fangelsi. Þetta Ord, Barrabas, merkir eftir

ir lærdra Mañа Utleggingu, so mikid sem Son edur Nidia sijns Fodur; þar fyrir maa honum samlijkia vid Adam og alla hañs Eftirkomendur, hvor aasamt sijnum giorvøllum Nydium fiell i eilijfañ Dauda og Fyrirdæming. Þeñañ fyrsta Mañ og Fodur vorn Adam, skapadi Drottiñ nærsta frijdañ og fagrañ, þar hañ myndadi hañ og giordi, eftir sini eigiñ Mynd og Lijking, er iñifaliñ var i sañarlegu Riettlæti og Heilagleika, so hañ kuñi ad veita Gudi, sijnum Skapara, fullkomna Hlijdni og Þioonustu, og sijdañ setti DRottiñ hañ i þañ lystilega Alldingard Eden, og gaf honum Herradæmi yfir øllum Skiepnum aa Jørduñi. Med þetta nægdist hañ ecki, og villdi, eftir Aeggian Diøfulsins i Høggorminum, komast til eñ ædra Tignar-Sætis, og verda Gudi lijkur, so hañ vard eirn Upphlaups-Madur i mooti sijnum Herra, fyrerleit hañs Bodord, og braut af þvi med Nautn þess forbodna Avaxtar af Skilnings Trienu goods og ills, uñ hvørt DRottiñ þo sagt hafdi: Þu skallt ecki þar af eta, og aa hvørium Degi sem þu

etur

etur þar af, skalltu Dauda deya; med og i slijku Upphlaupi deyddi, sa fyrsti Madur, Adam, sig og allt Mañlegt Kyn med sier, þvi hañ gat Børn eftir þessa-ri so asigkomiñi Mynd og Lijking siñi, edur spillt og fordiørfud; hvør Olisian sijdañ er til allra Maña iñruñiñ, af þvi ad allir hafa syndgad; og var so Adam fastur halldiñ i þessum Diøfulsins Fiøt-rum, edur Syndiñi, og iñilucktur i Myr-kvastofu allskonar Eymda og Hørmun-ga, asamt med øllum sijnum Nydium, og Eftirkomendum, hvar hañ og þeir bij-da attu, eftir eilijfs Dauda Dooms Urskurdi, ef eingiñ Hialp edur Utlausn feingist hefdi. Nu sem sa añar Adam, JEsus Christur, sa einasti Madur i Naadiñi, heilagur og i allañ Maata ri-ettlaatur, var af heydnu og raanglaatu Yfirvalldi saklaus til Dauda Urskurdad-ur, þa fieck sa faangadi Upphlaups Ma-dur Adam, Frijun og Frelsi af adur-nefndum Fiøtrum og Faangelsi, asamt med sijnu Heimkyñi, sem sig þar yfir gled-ur, og alla Tijma med stærsta Fognudi, af hvilijku dijrmætasta Lausnargialldi,

sier hrooşar, eñ þo alldrei so sem verdt er, þvi so sem Syndiñ rijkti til Daudans, so rijkir nu Naadiñ fyrir Riettlætid til eilijfs Lijfs, fyrir vorn DRottiñ JEsum Christum. Rom. 5.

Med þvi nu, Christiñ Madur! ad vier erum einir af Adams Nidium og Eptirkomendum, þa nær og eiñig aadursagdt Dæmi til vor, sem añarra; so vier. høfum og hier vxt af, eiñ saññan Lærdoom, eftir hvørium vier gior hyggia skulum, og oss hañ aavallt fyrir Sioonir setia. O! hvad opt høfum vier aumir, veikir, vesælir og þverbrotnir Syndarar giørt Uppreist og Mootblaastur i mooti vorum Gudi og Skapara, og hañs heilaga Anda, hvorn vier høfum ecki viliad laata oss straffa edur hlijda hañs Aminñingum, eftir Skylldu vors Christiñdooms, i þvi, ad þioona DRottni og laata af Syndum og Raanglætingum. O, hvad vilium vier seigia! ef þar er eingiñ ostraffanlegur fyrir Gudi, aa medal hañs heilagra, og Himnarnir eru ecki hreinir fyrir hañs skiæra Augliti; hvørsu faafeingir og andstyggilegir munum vier þa vera, sem

Raang=

Naunglætid inndreckum so sem annad Vatn, Job. 15. Vier þurfum og ecki ad ætla oss frija vera fyrir Manndraapinu, þar sem vier so þraatt og oft deydum Saalir vorar, og þar ad auk høfum vier med vondum Eftirdæmum, er vier høfum af oss giefid, leidt vorn Naunga i marga Neyd og Voda, þvi vond Eftirdæmi villa og fordiarfa þad gooda, og su aahvetiandi Lyst mmsuijr Hiortum saklausra, Sap. 4. So ad vier erum, sokum alls vors Illskir Athæfis, nærsta Ofrægir ordnir, hvar um allar Skiepnur Guds meiga maklega Vitni bera, jaa, Steinarnir i Veggiunum utþroopa slijkt, og Bitarnir undir Sperrunum svara þar uppaa og sampickia þad. Hab. 3. Hvada Frelsi siest oss þaa faaraadum Sakamonnum? Munum vier ecki faa ad gista Fiotur og Faangelsi? Vissulega hafa Bondinn Helvijtis umkrijngt oss, og Daudans Snerur yfirbugad oss. Ps. 18. Vier liggium hier bundnir i Myrkvastofu vorrar Hiervistar, hvar Lijfdagarnir eru fullir Leida og Laangsemi, hormuleigir og fullir Onaada, Otta-Vonar og Mootgaangs adskil-

skilliañlegs, og bijdum so Daudañs, jin all tijd meir og meir naalægist, hvørium ad eftirfilgir hiñ straangi og sijdasti Doomur, fyrir hvørn allir Giørningar, illir og goodir, verda framleiddir; þetta allt uppvekur strijdañ Harm, hiaa øllum þeim, sem ecki lifa fyrir utañ christilega Ahyggiu, helldur giefa sier Stundir nockud umm slijkt ad heinkia. Hvørsu aumlega sem nu øllu þessu lijdur, fyrst vid faaum nu hier ad heyra, miñ Brooder og Systir! þañ Fagnadarfulla Bodskap, ad ockar sætasti Lausnari og Lijfgiafari, JEsus, hafi saklaus lidid, fyrir ockur, Oforskulldadañ Dauda Doom, og þar med Fridkeypt ockur; þa utdrijfur su heilaga Aflausn, og maa maklega utdrijfa, fraa ockur alla Hiartans Hryggd, og Angursemi, þvi hun leysir af ockur þau hørdu Syndaña Fiøtur, og utleidir sijdañ ur þvi hørmulega Myrkraña Faangelsi til Lioossins; þvi JEsus er su Hella Hiaalpræðisins, yfir hvøria vid erum byggd, so ad Port Helvijtaña megna eckert aa mooti ockur. Matth. 16. Hañ hefur oss vøludum Frelsid predikad, og bodad oss her-

herteknum Lausnina, og þad Yndissamasta Fagnadar Ar eilijfrar Saaluhiaalpar. Es. 61. So ad allt hvad Dauda verdugt var aa ockur fundid, þad var allt aa honum til Dauda dæmt; fyrir ockar Sakir helgadi hañ sialfañ sig, so vid yrdum og heiløg i Sañleikanum. Joh. 17. Fyrir þvi þurfum vid nu ecki hiedañ af ad kvijda fyrir Doominum, þvi vid komum ecki fyrir hañ, helldur þreyngiumst vid i giegnum fraa Daudanum til Lijfsins. Joh. 5. Laatum ockur nu þeckia soddañ Omælañlega Myskun hañs oss audsijnda, so og lofum hañ af øllum Lijfs og Saalar Kroftum, þad hañ so milldilega ockur leyst og frelsad hefur fraa Daudans og Diøfulsins Fiøtrum og Faangelsi; so ad hvørt sem vid lifum eda deyum, þaa er þad ockar obrigdul Von og Trw, ad vid sieum, fyrir þetta Frelsid ockur veitt af JEsu Christo, hañs Eign og Eigiñdoomur tijmañlega og eilijflega. Af þessu meigum vid ockur nu gledia hier i Tijmanum ad nockru leiti, eñ sijdar aa þeirri himnesku Paaska-Haatijd til fulls, þegar vid ad øllu leiti leyst erum,

og

og komiñ ur Hiervistar Myrkvastofuñi i Flock og Selskap Utvalldra, hvar eiñ Sabbats Dagur kiemur eftir añañ, til ad lofa og vegsama DRottiñ aan allrar Hindrunar, hvar elliif Gledi mun vera yfir vorum Høfdum, eñ øll Hryggd og Angursemi hlijtur burtu ad riima.

So er þa Barrabas ordeñ Laus og Lidugur, edur Adam og vier hañs Nidiar aller, sem aa JEsum trwum; Lofum þar fyrer DRotteñ i hañs Helgedoome, Lofum hañ i Festingu hañs Magtar, Lofum hañ i siinum Verkum, Lofum hañ i siñe mikellre Diird! Allt hvad Andardraatt hefur Lofe og Vegsame DRotteñ Oaflaatañlega! Haleluja.

# XXX. Cap.

## Um Christi Krossburd.

### TEXTINN.

NA tooku þeir JEsum, epter þad þeir høfdu spottad hañ, færdu hañ wr Purpura Kaapuñe, og færdu hañ i siin eigeñ Klæde, og leiddu hañ wt, ad þeir Krossfestu hañ, og hañ bar siñ Kross og gieck wt. Eñ i þvi þeir geingu og leiddu hañ wt, fundu þeir eirn Mañ, sem fram hiaa gieck, af Cyrene, Simonem ad Nafne,

hvør

hvor ed komeñ var af Akre Fødur þeirra Alexandri og Ruffi; Hañ houdludu þeir, og þreyngdu hønum, ad hañ bære hañs Kross, og løgdu Krosseñ uppaa hañ, ad hañ bære hañ epter JEsu.

U T L E G G I N G I N.

Jaa hier, Christeñ Saala! lioost Epterdæme eins hardudugs Hreckia-Sixes, og hrædelegs Myskunarleysis, þar Grimd og Osse þessara Ogudlegu Tyraña, kuñe ecke sefast, vid allt þad Spott og Kvalræde, sem JEsus lided hafde af þeim, helldur auka þeir þad nu med þvi, ad strax sem hañ er til Dauda dæmdur, færa þeir hañ wr Purpura-Klædenu, hvort þeir lagt høfdu yfer hañs Allbloodüga Lijkama, epter Hwdstrijkinguna, og i sijn eigeñ Klæde; Fyrst uppaa þad, ad hañs Under skylldu Endurnyast til eñ meire Svida og Saarenda, sem og, ad hañ skyllde þvi andkiendare vera af sijnum eigeñ Bwninge, og framar foraktadur af ødrum. Þessara Stall-Brædur eru þeir eñ i Dag, sem af Þverwd vid Gud og hañs Ord, lifa i mootþrooañlegum Løstum, þvert i moote Samvitskuñe, og gaanga

ga fraa einu Raanglæte til añars: Pvl-
lijkar Ydrunarlausar Mañeskiur særa
JEsum ad niju, Krossfesta hañ og fyrer
Skiump hallda, og eru so su Jord, sem ber
Pirna og Pistla, hvor ad er Bølvaneñe
nær, og ad Siiduslu verdur uppbrend.
Ebr. 6. Siaa þu til, blindur Syndare!
mun þier ei svijda, ef ill Laun fær fyrer tie-
da Velgiørd? Sañlega: Merk þar af,
hvad miøg þad særa mune Myskunar-
Gied DRottens, sem so Oteliañlega mar-
ga Myskun og Velgiørd veiter þier, og
veitt hefur, faae hañ ecke þar fyrer af þier
añañ Betaling eñ braalega Illsku, og
mootþrooañlegt Framhalld i Hreckvijs-
iñe? Huxa uñ þad fyrer þier, hvar slijkt
mune lenda! Eñ þu Guds Barn! Gack
wt fraa þessum Flocke, so þu verder ecke
Hluttakare i hañs Syndum og Straffe:
Pad er ad søñu satt, ad ecke gietum vier
aan Synda lifad, þessar Under gieta ei so
uñ heillt grooed, ad þær ysest ecke upp apt-
ur aa hvørre Stundu; Þesse Saarlegu
Svida-Mein gieta ecke ad Heilu grooed,
so leinge sem vier berum epter oss Lij-
kama þessa Dauda: Þar fyrer er Sam-
vitskañ

vitſkañ opt ſo hrigg og Hrædſlufull, kvijdande vid forþientu Straffe og Refſingu. Hvar mun nu Boot faaſt vid ſlijkri Aſtrijdu? Booteñ er noog i JEſu Bloodugu Undum og Benium, þvi hañs Bloodhreinſar alla Beiktrwada og Sañ-yd-rande af ollum Syndum. Leitum oſs þeſſara Smyrſla Daglega vid þeſſu Daglegu Daudans Meine: Ecke vill JEſus oſs þeirra ſynia, ef med hreirne Trwar-Hende er i moote teked, þvi mikell er ad ſoñu ver aaſtrijdande Beikleike, eñ meire er hañs Myſkunſeme: Vid hana ſkulum vier hugga oſs i Life og Dauda.

Eñ framar ſeiger oſs Texteñ: Ad JEſus hafe ſiaalfur feinged ad bera ſiñ Kroſs aa ſijnum alſærdu Herdum, uppfyllande ſo þa Fyrermyndan, þegar Iſaac Fordum hlaut ſiaalfur Foornar-Videñ bera, yfer hvorium hañs Lijkame ſkyllde breñaſt, epter DRotteñs Bijſalningu til Abrahams. Gen. 22. Liooſt Dæme er þetta uppaa O-þacklæte Verall darenar: JEſus gieck um krijng, giorde Gott, og græddealla, þaa ſem af Dioflenum voru undirþrickter, Act. 10. Po kom nu eingeñ

sa fram̃, er hønum villde Lid leggia og under hans Kross lietta. So er ad lijsa epter Verølldu þessare: Þegar eirn er i Þreingingu nockre staddur, þa lætse han̄ allt vilia til vin̄a, ad han̄ faae Hiaalp, en̄, ad hen̄e feingen̄e, er hun opt verr en̄ gley-md, hvi margur lifer verr, epter þad Gud, af Giædsku sin̄e, hefur leyst han̄ af ymsum Vandrædum og stoorre Hørmung, helld-ur en̄ kan̄ skie aadur hefur han̄ lifad: So skamman̄ Alldur eiga hans Velgiørder hiaa oss, og þetrra Packlæte! Og er þvi ecke ad undra, þo Packlæte voru sumra hvørra vid Men̄ena, þa er oss Gott giøra, sie vidlijka fared: Er þad og Stundum so, ad þo eirn hafe af ødrum Goodgiørd þeiged, i Neyd sin̄e, vill han̄ ecke heyra han̄ edur siaa, þa hønum geingur nockud aa moote; So ad i Naud er vanfeingen̄ Vinur; Þan̄ sem Gud hafde aadur fyrer Medal ad biarga hønum og Lidsin̄a, þa han̄ Biargþrota og vesæll var, þer han̄, styrkur orden̄, ecke Kienslí aa, og seiger, hvad heiter þu? Þan̄-en̄ mijr margur breckviis og vanþack-laatur Bakenu vid sijnum Velgiørda-Man̄e: Varast slijkt! Þvi þo vier nu

sadder

sadder sieum, þa kuñum vier snarlega aptur hwngrader ad verda, og þurfa bæde Guds og Maña Lidsemdar, og er þa Raun ad kalla, og verda ecke bænheyrdur; hvad þo ecke er órvænt ad hitte þaa, er Hand-Verk giora af O-packlætenu. Under þessara og þvilijkra Hreckia-Oke laat þu þig alldrei fiña, drag ecke þessara Taum, helldur laat þier þeirra Glæpa-Maña Vijte ad Varnade verda: Nær þeir vilia locka þig, filg þeim ecke epter; Haf Gaat aa þier og þijnum Verkum; Yðka þig i sañre Ydran, Bæn, Trw og Packlæte alla þijna Daga; Tem þier Hoof og Maata i øllum Efnum, frem goodañ Riddaraskap, so þu faaer þier vijslega skickad i þessare Hreckia-Ølld: Miñstu, Guds Barn! aa þiñ Frelsara JEsum, sem Mootmæle og Piaaning hefur fyrer þig þolad, og elskad meir eñ siaalfañ sig; Hañ bar Krossen fyrer þig og undañ þier, og bard su Birde hønum næsta Erfidessom, so hun skyllde mier og þier epter aa liettbærare verda; Jaa, so hañ kyñe Sam-Pijning og Vorkunseme ad hafa vid ockur, þegar vid Piaaning lijdum og Hreck-

Skwrer Mañraunaña yfer ockur gaun-ga. Giætum þess, sem JEsus seigir: Hvor ei tekur siñ Kross uppa sig, og filger mier epter, saa er mijn ecke verdugur, Matth. 10. Hier sier þu, ad hañ vill, ad sijner Elskendur skule hier swrt med sier lijda, sem epteraa skulu hañs Sætleika niota. Æ hvad gott er þad þa, ad bera hañs Krossmark, og vera audkiendur Saudur hañs, fraa Kidum Veralldareñ-ar! Hvorneñ kañtu ad skipta betur vid mig, miñ HErra JEsu! eñ so, ad þu typt-ar mig hier Ostijrelaataň, og þad þo med mestu Myskun og Medaumkan, styrker og leikur vid mig, sem beste Fader vid Ba-rn sitt, eñ giefur mier sijdañ med þier ei-lijfa Roo og Unun, þegar mier leidast vesæler Lijfdagar mijner, og su Mæda, sem aa moote Hollldenu rijs, eykur mier Obolinmædi; þa svarar þu mier og seiger: Miñ Son! Þetta er ei laangur Tijme, muñstu aa þad sem eg leid fyrer þig, giæt þess hvad þwngt eg hefe lagt uppaa adra, hiaa þvi litla, sem þu hefur ad lijda, og vil eg þo mijkia þad og hiaalpa þier yfer allt þad sem i Veigeñ vill setiast. Þessa Hiarta-

Hiarta-Glædſku mijns og þijns HErra, muntu og, Guds Barn! hafa med mier reyna feinged: Skyllde þad þa ecke, med ollu odrn Otellañlegu, uppørfa ockur ad elſka JEſum, og, af Elſkuñe til hañs, ad gaanga under þañ og þvillijkañ Kroſs-Þwnga, ſem hañs Millde vill ockur til-ſett og afmælt hafa, og þacka hønum ſijd-añ þar fyrer af Hiarta? Eda hvar fyrer ſkylldum vid ecke þacka høuum ſo fyrer Mootlæted ſem Medlæted? Medlæted hefur aungvu ſijdur þurft Mañ aa moote ſier eñ Mootlæted, ſo vel fære; Eg heyre David ſeigia: Ad þad hafe ſier fyrer beſtu orded, ad DRotteñ hafe tiptad ſig edur lijtelæckad, þvi aadur hafe hañ fared villt, eñ þetta hafe kiendt ſier ad læra hañs Riettinde. Pſ. 119. Eg ſie þad og af Epterdæmunum, ad ſier Hiartkiæra hef-ur hañ ecke ſijdſt agad, og lated þaa ecke alltijd bada i Rooſum, eñ yfergiefed þaa þo alldrei, ſo hañs Hiaalp hafe ecke vered hvad næſt og naakvæmuſt, þegar Neydeñ hefur gelnged ſem hædſt. Og hvad ſkal eg ſeigia? Skadañ hefur hañ hier Stun-dum Tvøfelldum Bootum bætt, og ſijd-

añ i ødrum Heime med Gløfeillijfs Lijfs, og veit eg, ad sꜳ þikest þa bestu bættur, siñ mest hefr hier hüs vegna lided, og lꜳted ꜳ moote Hollde sijnu. Þar fyrer, þegar þu, Guds Barn! ert leidt af Christo under Krossen, og þitt Moglunarsama Hollld og Blood vill mala þar i moote, epter vondum Vana sijnum, lꜳttu þa so sem þu sier JEsum gꜳnga undañ þier, eñ þu eiger, so sem er, ad gꜳnga epter hønum og i hañs Skoole; Slijk Huggun mun verka med þier sañа Poleñmæde, og giøra þier hid swra sætt smackande.

O sætasti JEsu! þo vier vilium, eftir þvi sem Skylldañ bijdur, feignir feta þijn Footspor, þa er þo sꜳ Vilie nærsta veikur og vort Holld og Blood so sꜳrgrætilega tregt ad gꜳnga eftir þier Stig Hørmungaña, ad vier Mꜳttlausir verdum; þvi hlijtur þu ad rietta oss þijna Hiꜳlpar Hønd. Eg veit ad þiinu Elskugiedi er so varid, ad þu villt þeim alldrei þijns Lids synia, sem þiꜳdir og vanmꜳttuger eru, þvi soddañ hefur þu lofad og sagt: Ottastu ecki, eg em med þier, vijktu ecki, eg em þiñ Gud, eg stirki þig og hiꜳlpa þier eirniñ, fyrir þa hægri Høndina mijns Riettlætis. Es. 41. Flijttu þier þvi ad standa hiꜳ oss fꜳrꜳdum og naudstøddum, og lꜳttu oss ecki einsamla i Hørmunguñi, helldur kañastu vid oss, DRottiñ vort Hiꜳlprædi! so vilium vier hroosa oss og gladir vera i þier alla vora Lijfdaga.

Ad sijdurstu verdur hier gietid Simonis, eins framandi Mañs af Cyrene,

og

og hañs tveggia Sona. Þessum Simone var naudgad ad bera Krossen eftir JEsu. Þad er ein merkeleg Þijding uppaa oss, sem af Heidingium erum komnir, hvorium Gud, af Naad siñi, hefur eirniñ uñt Jdranar til Lijffsins, og gliefid saña Kiñing sijns elskulega Sonar, þo hañ i marga Stadi hefdi þar mikid Erfidi fyrir, og þyrfti ad naudga oss iñ ad gaanga til siñar miklu Kvolldmaaltijdar, og eñ þa, þvi verr og midur, naudga þurfe; fær og eingiñ til JEsum komid, nema Fadiriñ dragi hañ. Joh. 6. Siaa nu hier Myskun DRottiñs, Guds Barn! hvorri þu aatt og maatt hroosa alla Daga! þeir naatturlegu Kvistirnir brotnudu af, eñ vier, Villuvidar Greinirnar, erum iñsettir i þeirra Stad; sem Lausnariñ sagdi til Gydinga: Guds Rijki mun fraa ydur takast, og Heidingium giefast, þeim sem þar af Avoxt færa, Matth. 21. Gud giæfi, ad so mætti vera; eñ, æ þvi verr! þessu hnignar, so uggvænlegt er hañ þyrmi oss leingur, þvi flest geingur nu aflaga; hañ fær marga beyska og storra Avexti hiaa oss, sem nu kollunst

hans Unusta, en vorum ædur i Fiarska; Þvi hvor er hans Elska hia oss? Hver er Lifnadurin? Hvor er Truin? Elskan er koolnud, Lifnadurен er liootur, Truin dopur, og þo er Brudguminn alla reidu kominn, og klappar a Dyrnar. Voknum upp svefnugir, voknum upp, seigi eg, og giorum Boot! Þvi nær han kiemur, ætlum vier han mune finna Tru a Jordu? Ad jaata Truna, þad gietum vier ad nockru leiti, en þad er ei noog; laatum henne filgia sanna Gudrækni, sem er ad vita Eckna og Fodurlausra i þeirra Hormung, og sig sialfan flecklausan geyma fraa þessum Heimi, þaa mun DRottinn frelsa oss a þeirri vondu Tijd. Jac. 1.

O JEsu! minstu mijn og minna i þinni Fodurlegri Forsioon og Mystunsemi, og leys mig og þaa af ollum Vandrædum: laat þeirra, sem mitt Nafn, standa a þinni Lijfs Book skrifad, og alldrei utsliett verda; þid sama veit þu og ollum þijnum Bornum, Amen.

## XXXI. Cap.

Predikun Christi fyrir Kvinnunum.

TEXTINN.

ENN

ENN hönum filgdi eftir mikill Fiölldi Foolks og Kvena, hvortar ed grietu og hörmudu hañ. Eñ JEsus sneriſt til þeirra og ſagdi: Þier Dætur af Jeruſalem! grꝍatid eigi yfir mier, helldur grꝍatid yfir ydur ſialfum, og yfir Börnum ydar. Þvi ſiaid! þeir Dagar munu koma, ꝍ hvörium þeir ſeigia: Sælar eru Obyriur, og þeir Kvidir er ei hafa fædt, og þañ Briooſt er ei voru myllkt. Þꝍ munu þeir taka ad ſeigia, Fiöllunum: hrynied yfir oſs; og Hꝍalſunum: hylied oſs.

## UTLEGGINGIN.

AF þeſsum Texta höfum vier 1. Ad athuga, hvad fallvöllt ad ſie Virding þeſsarar Veralldar. Þar uppꝍ mꝍ ſiꝍ liooſt Eftirdæmi ꝍ ſialfum Frelſara vorum JEſu Chriſto. Fyrir ſkömu, edur ꝍ Pꝍalma-Dag, iñreid hañ i Borgina Jeruſalem, og þad med ſtoorri Æru, er hönum veittu bædi hañs Læriſveinar og Foolkid, i þvi ad breida ſijn Klædi ꝍ Veigiñ og dreifa þar

 yfir

yfir fögrum Paalmviðar Greinum, sem=
inuleidis ad medtaka hañ med lystilegum
Lofsaungvum, er so klijngdu bædi bak og
fyrir: Hosiaña Syne Davids, blessadur
sie saa, sem kiemur i Nafne DRottiñs!
Hosiaña i Hædstum Hædum! Matth. 21.
Eñ nu, faaeinum Dögum sijdar, maa
hañ alsærdur og Bloodrisa utgaunga,
med Krossiñ aa Herdunum til Aftöku=
Stadarins, hvar uppaa hñs Vinir maat-
tu horfa med hiñi saarustu Sorg og Hi-
artans Angist. Hafi nu þessi vendaVe=
rolld, verid so vollt og svikul sijnum Her=
ra, og sialfum Hwss-Fodurnum JEsu
Christo, þeink þu þa med þier, Guds Ba=
rn! hvoruiñ hun muni utleika hañs Hey=
mameñ, jaa, hvorra Kosta Pioonar ha-
ñs hafi ad vænta sier af heñi, þvi ecki er
Lærisveirniñ yfir Meystaranum; hafi hun
offsokt hañ, so mun hun og offsækia þaa.
Joh. 15. Þegar hun tekur til ad brosa
uppaa eirn, klappa hönum og laata hañ
daatt, þaa er þeim hinum sama bwiñ
hin mesta Sorg og Svik af heñi; i Dag
ber hun hañ aa Handbnöckum, sem hun
kreistir og kloorar aa Morgun, i Dag sit=
ur

ur hañ i haau Sæti, eñ i Kvolld maaſkie hañ komiñ ſie undir Skerina og liggi þar flatur; þad heyrum vier, ad Saul Kongur hafi giefid David Doottur ſijna, eñ þo til þeſs, ad hañ feingi hañ audvelldlegar ſvikid, og var hañ þoo eiñ hañs beſti Penari. 1. Sam. 18. Soddañ Haatt hefur Verelldiñ haft ſtundum, vid þaa þoo, ſem heñi hafa verid hvad þarfaſtir, þvi þaa hatar hun meſt; þvi er nu, Guds Barn! illt ad leggia Aſt vid hana, og feſta Hugañ ſiñ vid hana, þar ſem hun er ſo ſvikul, og ſkal eirniñ med allre ſiñi Fijſn forgaanga, er og ecki i þeim þad giora Kiærleiki Fodurſins. 1. Joh. 2. Pad laati Gud þig, nie mig, alldrei henda!

2. Hofdu nu beſsir Aſtvinir Herrans JEſu fulla Orſok til ad graata, þar þeir ſaau ſiñ Velgiørda HErra ſo hormulega utleikiñ, er ſig hafdi maattugañ audſijndt i Verkum og Ordum fyrir Gudi og ollu Foolki, og hiñ Myſkunſamaſta Grædara allra Meina, aungvum ſyniandt ſiñar Lyknar. Peim bar og noog til ad graata yfir Olucku ſiña Ættingia, þar þeir afklæddust Mañlegri Naatturu, allri

Myſkun

Myskun og Medaumkan (er Gud vill og bijdur ad Naaunganum skuli veitast, jafnvel þo Stoorbrotamadur sie); þvi hv-
er hana ei hefur, hañ veit og ei ad elska Gud siñ: So griet og Lausnariñ siaalf-
ur yfir Vondsku Gydinga. Luc. 19. Og ad vijsu er þad graatlegt ad vita, ad saa sem Christi Limur aa ad heita, fellur so
i fraaleitt Siñi, ad hañ metur einkis hv-
orki Gud nie goodra Maña Raad og A-
miñingar, eñ veit þo, ad þar filgir eftir tijmañleg og eilijf Refsing, nema hañ i Tijma gialdi Varhuga vid: Naadi stijkt Gud! þad skiedur þo tijdt og oft aa þess-
um Dogum, hvor fær þar vid raadid? þeir faa marga Hønd i mooti sier er þar vid leitast: Søkum Sañleikans seigist St. Paall vera ordiñ Ovinur þeirra i Galatia. Veit þad Gud, ad so vill þad nu gaanga sumum, og er þad fyrir honum einum ad klaga. Þegar nu JEsus saa Graat Kveñaña, seigir hañ: "graatid eigi yfir mier, helldur graatid yfir ydur og Børnum ydar". Hier med undirvijs-
ar Lausnariñ, ad þo Meñ bædi eigi og meigi graata yfir añarra Skada og Mootgaan-

gaangi, eftir þvi sem Postulin̄ bijdur oss, ad fagna med Fagnendum, og graata med Grætendum, þa byrie oss þo ei sijdur ad laata oss til Hiarta gaanga siaalfra vor Hørmung; vitandi þad, ad þegar Naaungans Veggur bren̄ur, þa sie og vorum hætt; Jaa, þegar vier siaaum adra verda af Gudi, med Hørmung adskilanlegri, heimsookta, sem kan̄skie øllu betur hafa lifad og Gudi þioonad en̄ vier, hvørium hn̄ bliifir, ad vier þa þeckium þar vor forþient Syndalaun og graatum yfir þeim øllu framar en̄ hinum, sem medtaka hier i Lijfi siinu hid vonda; og athugum, hvørju Drottin̄ svaradi Lærisveinunum, er spurdu: hvørt han̄, sem blindur var, borin̄, hefde syndgad, edur han̄s Foreldrar? Hvørki syndgadi han̄ nie han̄s Foreldrar, sagdi han̄, helldur so ad Guds Verk edur Dijrd opinber yrdi aa hønum; Joh. 9. En̄ hier med kien̄di JEsus, ad hvørki hefdi saa blindi, nie Foreldrar han̄s, syndugri verid, og meir til þeirrar Refsingar un̄id, en̄ margir adrir, hvøria þvilijkt ecki hittir. Vitum og þad, sem Postulin̄ seigir, ad Gud sparar Stundum,

um, med mikilli Poliñmædi, þau Reidinar Kier, sem bwiñ eru til Fordæmingar, til þess ad betri sig, þecki siñ Vitiunar Tijma, og læti hañs Poliñmædi leida sig til Yfirbeotar. Þu faadijs Madur! þeink hier aa, sem inetur hañ Olaansamari, og þier kañskie syndugri, sem hier lijdur; hvør þo er þier glaaliffium og erefstum Luckulegri, lijdi hañ añars Poliñmoodlega.

Miñ Herra JEsu! ofs væri ad sønu skylldugt ad graata yfir þiñi saarnslu Eymd og Hørmung, eñ þar med er þier eingiñ Pienusta giørd, þvi fraa Angistiñi og Doominum ertu i burtnumiñ, og i eilijfa Hæatign iñgeingiñ. Þvi maa vor Samvitska helldur þar vid aangrast, ad vier vorum Sok og Efni til allrar þiñar saaru Hørmungar: vier høfum þier Erfidi auk med vorum Syndum: þeirra Glæpaña, sem vier framid høfum, galdstu aa þijnum helgasta Lijkama, so vier meigum þad maklega hrædast, ad ofs sie ætlud hin strangasta Hefnd og Refsing, þvi vier høfum til eilijfra Kvala uñid, ef ofs skiedi eptir Rietti. Þar i moot gledur ofs hiñ Saaluhiaalpleigi Averxtur, er ofs siendur af þijnum Kvølum, þvi fyrir hañ ødlunst vier Frid, Frelsi og Fyrgiefning allra vorra Synda og Misgiørda, so vier meigum uppirtaka med hinum Heilaga David; og seigia: miñe Sorgar Klogun hefur þu snwid i Dans, þu hefur miñ Hriadar Seck i sundurslitid, og umgirdt mig med Fagnadi, so ad miin Diird (mijn Twnga og Harpa) sijngi þier Lof og þagni ecki, Drottiñ Gud miñ, ad eilijfu vil eg þier Packir giøra. Ps. 30.

3. Hofum vier hier ad athuga þær Orsakir er Lausnarinn færir til þess ad Jerusalems Dætur grææta skuli yfir sier og Børnum sijnum. 1). Seigir hann, ad "þeir Dagar muni koma æ hvorium sagt verdur: Sælar eru Obyriur og þeir Kvider er ei hafa fædt, og þau Brioost, hvor eigi voru mylkt." Ad Barnann edur Lijfsins Avextur, eftir Guds Bodi afladur, sie ein ægiæt Gaafa Drottins, þad sijna oss Ord Guds til Adams og Evu tølud, þar hann seigir: auktist og margfalldist, og uppfyllid Jordina og leggid hana undir ydkur. Gen. 1. Og Forfadirinn Abraham æliktar, ad hiaa þessare Gaafu sieu binar adrar lijtils verdar, þaa hann so talar: Hvad villtu giefa mier? Eg fer hiedann Barnlaus. Gen. 15. Hier ad auk vottar Spaamadurinn Oseas, ad Lijfsins Ofrioofsemi sie ein sierleg Bending af Gudi uppaalögd, og seigir: Eftir þvi þeir hafa yfirgiefid Gud, og geingid til Baal Peor, þess skammarlega Af-Guds, þar fyrir skulu þier hvorki fæda nie bera, ecki helldur þrungadir edur frioofsamir verda. Os. 9. Hvar af kiemur

ur þad þaa, ad Lausnariñ seigir hier, ad þeir Kvidir muni sælir kallast, sem ei fæda, og ecki eru frioossamir? Par til svarast med hans eigiñ Ordum, sem hañ brwkadi i Utmaalan Jerusalems Borgar Nidur-Brots, seigiandi: Vei þwng udum og Briooſtmylkingum aa þeim Dogum, þvi þa mun verda so stoer Hørmung, hvylijk ad ecki hefur verid fraa Uppþhafi Veralldar allt til þessarar Stundar, og ecki helldur mun verda. Matth. 24. Med hvørium Ordum ad sijnd verdur Orsokiñ hier til, sem er, sw stoora og hrædilega Eymd, er kom yfir Gydinga i Jerusalems Borgar Eydileggingu, i hvørri ad Mædurnar aatu sitt eigid Fooſtur, sem Josephus Sagna-Meystari skrifar, So hafdi og sw Kviña, sem hlaut ad horfa uppaa þad, ad heñar Sio Synir voru hørmulega lijflaatnir, undir þeim vonda Tyraña Antiocho, 2. Macc. 7. eñ meyri Hiarta Sorg, helldur eñ sw, sem ei hafdi Børn fædt.

2). Seigir Lausnariñ: "þaa munu þeir taka ad seigia; Fiøllunum, fallid yfir oss; og til Hææſaña: hylied oss." Hier brwkar

kat Christur sonnu Ord og Oseas Spaa-Madur fyrir-sagdi fordum Daga Gydingum vegna þeirra Afgudadijrdkunar; hañ sagdi: ad þeirra Hormung mundi verda so stoor, ad þeir seigia skylldu: Þier Fioll! hylied oss, og, þier Hæalsar! fallid yfir oss. Cap. 10. Et ad nockur kuñi þar med ad uñflija Reidi Guds, edur hans Hefndar Straff, þvi þar kañ einginn Madr ad skijlast edr flija fyrir hans Andliti, Ps. 139. og þeir, nu eru i Jordunni birgdir, hliota ad koma fyrir hans Doomstool; helldur talar Herrañ hier uñ eftir þeirra Plagsid, sem staddir eru i stoorri Neyd og Hiarta-Sorg; hvorier sier oska ad vera daudum, undir Jordina og i hana komnum. Uñ hina Pridiu Orsokina, sem Lausnariñ færir til ađurnefnds Graats, edur uñ þad græna og visnada Trie, verdur talad i eftirfilgiandi Capitula.

Miñ Drottiñ! þu sem lofad hefur, ad Sonuriñ skuli ecki bera Fødursins Misgiørdir, Devt. 24. og ei Fadiriñ Sonarins. Ezech. 18. Eg bid þig, miñ allra sætasti HErra! sem fullu bætt hefur fyrir mijnar og allar Veralldariñar Syndir og Misgiørdir, laattu aungvañ eftir mig giallda miña Jllsku Verka! þad virdstu ad Bænheyra, milldi JEsu! Amen.

# XXXII. Cap.

Um̃ þad Grœna og Visna Trie.

TEXTINN.



F þeir giøra þetta vid þad Bloomgada Tried, hvad mun þa skie vid hid Þurra?

UTLEGGINGIN.

Jer kiemur nu fram̃ hin Þridia Orsøken̄, hvoria Lausnaren̄ og til þess fœrer, ad Jerusalems Dœtur meige maklega grœta yfer sier siœlfum og siinum Bornum; Hvoria vier hofum nu ad athuga med siinum Lœrdoomum, er hun i sier in̄ebindur, edur hvad fyrer þad grœna og þurra Trie merkiast eige i þessum Stad.

Fyrer þad grœna Tried œ ad skilliast og merkiast eckert an̄ad, en̄ siœlfur JEsus Christur, hvorium og vijda i Heil. Ritningu samlijkt verdur vid eitt œvaxtarsamt Trie, hvar fyrer han̄ kallast af Johan̄e þad Lijffins-Trie, hvørs Laufs-Blød ad duga til Heilsubootar Heidingiunum. Apoc. 22. Og siœlfur Christur seigest vera eirn san̄ur Vijn-Vidur, sem siin=

sijnum Kvistuin giefe Saft og Vokva, Joh. 15. Þegar nu Guds Eingleteñ Sonur JEsus Christur Iklæddest voru Hollde, og giørdest oss ad ollu lijkur, Syndeñe fraatekeñe, þa auglijstest þesse hin sama Frioofgunar=Eykeñ, og stood al=bloomgud med grænum og lystelegum Laufum, hvar um Esajas hafde fyrerspaad, seigiande: Þar mun eirn Vøndur uppreña af Kyne Jesse, og eirn Kvistur af hañs Root mun Avøxt færa, yfer hvørium ad hvijla mun Ande DRotteñs. Es. 11. Þesse blessada Eykeñ, JEsus, bar, aa medañ hun stood hier aa Jørduñe, veglega Lijffins Averte; Þar hañ gieck um kring, giørdi Gott og grædde alla þaa, sem af Djøflenum voru underþrickter; Þa feingu Blinder Syn, Hallter gelagn, Lijkþraaer hreinsuduft, Daufer heyrdu, Dauder uppristu og Faatækum urdu Gudspiøllen bodud. Matth. 11. So ad af hvørre Grein þessarar Blessudu Eykar draup hid sætasta Hunaang; Vor Frelsare var hiñ Frijdaste og Dægelegaste aa medal Mañaña Sona; Varer hañs voru aastudlegar, af hvørium fraumgeingu Lær=

doomar Hiaalpræðesins, hvørier æsamt med allre hañs ununarsamre Uñgeingne ad Hiartañlega gloddu og endurnærdu allar æangradar og Sorgbitnar Sæler og Samvitskur; hañ gaf af sier þad lifanda Vatn, sem vard og verdur, i øllum þeim þad drecka, sæ Vatns-Bruñur, sem flijtur til eilijfs Lijfs. Joh. 4. Þetta græna og al-bloomgada Tried, JEsus, var sialfum Gude næsta þeckt og þægelegt; Jørdeñ og Himnarner gloddust yfer þvi sama. Ad þad Gude þeckt være, þad augl jistest i Christi Skijrn og Forklaran, þar ed i hvørttveggia Siñ hroopade Røddeñ af Himne ofañ, seigiande: Þesse er miñ Elskulegur Sonur, ad hvørium mier velþooknast. Ad Himnarner og Jørdeñ hafe gladist yfer þvi, þad vitnadest i Lausnarans Fæðingu, þegar þær Himneskú Hersveiter birtust Fiaar-Hyrdurunum, og sungu hiñ sæta Lof-Saung hier nidre æ Jørduñe, seigiande: Dijrd sie Gude i Upphædum, og Fridur æ Jørdu, og Møñum goodur Vilie! J einu Orde: var þesse Eykeñ øll al-þakeñ Averte Riettlætesins, Saklaus, Hrein, Heiløg og Syndurun-
um

um fraaskilen, Hoogvær, Lijtelaat, og Polennmood in til Krossens Dauda, med Diwpyustu Hlijdne. Nu þo þessi Eykeñ være so vegleg aa allar Sijdur, og framar en seigiast kañ, þa maatte hun samt ecke Angurs og Areitnislaus vera i þessare Verølldu, þvi Pruma, Hagl, Elldingar og Stormur Guds Grimdar-Reide gieck yfer hana; og hriaade og hriste hana aa allar Sijdur; Bønden Helviistes umkriingdu hana, og Daudans Snørur yferbugudu hana; hennar Viner stoodu laangt fraa, og sumer flijdu.

Nu villtu spyrja, hvør vered hafe Orsok til þess, ad Gud liet þetta listelega Tried, sin Eingieteñ Son JEsum Christum, i alla Stade Saklausañ, falla i so stoora Eymd og Anaud, hvør honum var þo Hiartkiær og Elskulegur? Fyrst skalltu nu vita, ad þad visnada Tried, sem aadur er umgieted, var allt Mañlegt Kyn aa Jørdune: þetta Tried var uppvisnad allt ad Rootum, og gaf ecke af sier neina Avøxt Illskuñar og Raanglætesins; þar fyrer reiddest DRotteñ þvi, og skipade ad þad skyllde upphøggvast, so þad være ecke til

Hindrunar og spilltte ecke Akurlendenu·
Eñ saa riette Vijngards-Madureñ, JE-
sus, bad þvi Vægdar, og sagde: HErra!
Lofa þvi ad standa þetta Ared, þar til eg
gref um̃ þad og læt ad þvi Myke, ef þad
villde so Avøxt færa, eñ ef ecke, þa høgg
þad epteraa af. Eñ þessa aatte hañ aung-
vañ Kost, nema þvi ad eins hañ tæke sjaalf-
ur uppaa sig þau hriggelegu Giølld þess
Avaxtarleysis, og bijtalade so allt þad
Skadræde, sem þad giørde og giort hafde:
Hier fyrer þa Jklæddest hañ Mañlegu
Hollde, og stie hijngad nidur aa Jordena.
Strax sem hañ liet nu hier vthella sijnu
Saklausa Bloode, þa vøkvadest og endur-
nærdest þesse þurra og visnada Eykeñ, jaa,
þvi leid hañ Syndlaus og Heilagur saar-
lega Sorg, Spott og Hædne, ad þad
synduga og raanglaata Mañkyn fiña skyll
de Naad, Heidur, Huggun og Mijskun:
Hañ, sem ad var þad Græna og Avaxtar-
fulla Tried, maatte Hriaadur og Hra-
keñ vera, til þess þad þurra og visna bloom-
gast mætti; Og ei maatte Guds Sonur
hefia siñ uppaatekeñ Mañdoom i sitt Gud-
doomlega Tignar-Sæte, firr eñ hañ hafde
lidid

lided hier i Heime þa beyſku Piijnu og Forſmaanarlega Kroſsens Dauda, epter þvi ſem ſiaalfur hañ vitnar, Luc. 24. So nærkvæmlega hefur JEſus rækiad og vekiad þetta viſuada Trie, Mañeñ; ei ad ſijdur er hañs Priootſkufulla Holld og Blood ſo ſaarlega forblindad, ad þad hlær og leikur ſier ad Syndunum, Jaa, vellter ſier i þeim viljvitandi; fyrſt þar kiemur ecke ſkiootur og haſtarlegur Doomur, Straff og Hegning yfer hvoria þeſs Vondſku, þa brwkar hañ ſoddañ Guds Poleñmæde til eñ frekare Synda Yrkunar; og ætlar ad Drotteñ mune þa ſirax hafa gleymt Syndunum, þegar þær eru Mañenum wr Miñe lidnar, og mune þa ecke framar ſiaa edur ſtraffa. O hvad hrædeleg Blindne er þetta! Hvad fyrer Paanke er ſlijkt! Fyrſt þvi gooda Trienu var ecke vægt, hvad mun þa vilia verda um̃ hid þurra? Sañarlega; Hvert þad Trie ſem ecke giører good an Avøxt, mun upphøggvaſt og i Eldiñ kaſtaſt; ſeiger ſiaalfur Sañleikureñ, ſem ecke kañ ad liwga. Matth. 7. Fyrſt Fadereñ þyrmde ecke ſijnum Syne, helldur liet hañ kvelia fyrer añara Saker, hvad

mun þa verda uñ þañ Rangláta sialf-
añ, sem ei vill fara ad Sonarens Rad-
um og foraktar hañ: Jaa, ef saa Riett-
láte verdur varla hoolpeñ, hvad mun þa
verda uñ hiñ Omillda? 1. Pet. 4. Ef
nu, Saal mijn! Millden DRottens lijd-
ur þig Stoor-synduga Oresstа, þecktu þa
soddañs hañs Þoleñmæde ad vera þier eitt
Hiaalpræedes-Medal, til þess af henum
gleßed, ad þu betrer þig, og safner þier ecke
æ meire og meire Sekt og Reide uppaa
Reideñar-Dag, þvi vijst hefur hañ þig opt
sparad, med næsta miklu Laanglundar-
Giede.

Æ miñ JEsu! Vised, þurt og Avaxtarlaust Trie er
eg aum Mañeskia, eñ væg þu mier og myskuna, geim
þu mig hræddañ og skiaalfande under Skugga þiñar
Blessadrar Forþienustu! J þetta Skioolid flij eg, hreck
þu mig ecke þadañ alsærdañ! Eñ hitt undrast eg ecke,
þo mier meige margt mootfalled til Handa bera, þvi
þar til hefe eg uñed, kañ og ei aan Hørmunga ad iñ-
gaanga i Guds Rijke: Daudañ veit eg og, ad eg fæ ecke
uñflwed, helldur mun Eg reña lijka sem Vatn i Jørd-
ena; Samt treyste eg so þiñe Millde, ad eg, sem þijn
leita og aa þig vona, mune ecke af þier utrekeñ verda:
Eingeñ ytri Glede stodar mijnu Hiarta, eñ þegar eg
med miñe veikreTrwar-Hende þreifa aa þijnum Saarum,
og Heil. Ande dreyper aa Saalu mijna Hunange þiñ-
ar Blessudu Forþienustu og Naadar Fyrerheita, þa
huggast eg og Endurnærest, þvi þo mitt Lijf og Saal
vanmegnest; þa ertu samt mitt Hiartans Trausti og

Hlut-

Hlutskipte. Mær sem eg nu hier rata i nockrar Naudet, sny Þier þa til mijn, miñ JEsu! Og vertu mier Myskunsamur, þvi eg em Einmana og Faraædur; Svolun þiñar Nadar og Giædsku hresse ætijd og Endurnære miñ Hug og Hiarta, Samt allra þiña Barna, Amen, O JEsu! Amen.

## XXXIII. Cap.

### Um Christi Krossfesting.

### TEXTINN.



ENN Tveir Spillvirkiar adrer leidduſt og wt, ad þeir være aftekner med hønum. Og þeir leiddu hañ wt i þañ Stad, sem kallaſt a Ebresku Golgatha, hvad ed þijdest Hausaskielia-Stadur; Og þeir gafu hønum ad drecka, i Vijne, Myrru og Edik, Galle blandad, og hañ took þad eige til sijn, þvi, þa hañ smackade þad, villde hañ eige drecka. Og sem þeir komu i þañ Stad, sem kalladest Høfud-Skielia-Stadur, þar Krossfestu þeir hañ, og med hønum Tvo adra Ræningia a bædar Sijdur, Eirn til hægre Handar og Añañ til hiñar vinstre, eñ JEsum i Midiu. Eñ þad var nær um Þridiu Stund, er þeir krossfestu hañ. Þa vard su Rit-

ning uppfylld, sem seiger: Medur Jlvirkium er hañ reiknadur.

UTLEGGINGIN.

Hiñ vijsi Lamuel bijfálar ad gefa þeim sterkañ Dryck, sem aflijfast skulu, og Vijn syrgendum Saalum, so þeir drecki og gleymi Eymd siñi og hurt ecki framar til siñar Olucku. Prov. 31. Þessu, sem stier hvöriu ödru er mijkia hefdi maatt Kvöl Frelsarans, gleymdu hinir Gudlausu Kvalarar DRottins. Og hvad mundu þeir þessu siña, er juku hana med öllu mooti, sem mest maattu þeir? hvad augliooст er medal añars af þvi, ad þeir byrla hönum hier örþiaadum eirn Dryck, af hinum verñustu Hlutum, er fiñast kuñu. Uñ þessa Hardydgi þeirra talar David Kongungur undir Christi Persoonu, seigiandi: Þeir gaafu mier Gall ad eta og Edik ad drecka i mijnum mikla Þorsta. Ps. 69. Þo ad nu siaalfañ Heilagleikañ hrillti vid so vidbioodslegu Samfulli, þar var ad ecki ad undra: Eñ hvad viljum vier, igia? Óskandi væri, ad ecki fiñdist þeir

ir medal vor, sem so Gall=ramar Dreggtar bidi hønum, sem þessar voru, edur aungvu betri: Ei ad sijdur giøra þad eñ i Dag ei ad eins þeir, sem falskañ Lærdoom kieña, helldur og þeir, er sig Christna kalla, eñ eru þo fullir Fylu og Ofecktar vijsvitandi Synda, berandi Trwarlausa Jdran; þad er þesshaattar Kyn, sem þykist hreiñt, eñ er þo ofþveigid af sijnum Saur, hefur Skyn Gudhrædslunar, eñ afneitar heñar Krafti, blyndt og briootskufullt: þeir eru og þessarra Brædur, er tala fagurt, eñ hyggia flaatt, laatast Vinir vera, eñ eru Refar i Reyndiñi. Hvad fagurt sem þetta blandada Svika=Vijn er nu aa ad lijta fyrir ofs skaunsijnum, þaa mun þeim (er allt sier, og bañad hefur ad saa siñ Akur med bløndudu edur tveñslags Korni, og ad bera Klædi giørd af Ullu og Lijni, Levit. 19.), bikia eingtñ Snilli aa þui: Hañ giefur yfir þad þeñañ Doom: Eg veit þijn Verk, þu lifir og ert daudur, eg kiori þu værir añadhvort heitur eda kalldur; eñ med þvi þu ert hvorugt, helldur volgur, mun eg utskirpa þier af mij=

num

mum Muñi. Oplñb. B. 3.

Miñ Herra JEsu! þegar þu villt eg skuli med þier nockurn swrañ Sorgar-Drÿck drecka, þa vil eg hañ glaður medtaka, eñ eg bid audmiuklega, þu straffir mig ei i þiñe Reidi, þvo eg hafe til þess uñid! Lættu þijna Myskun, uppa hveria eg vona, vera med mier i øllum mijnum Mañraunum og Mootgængi, og gief, ad eg beri þier alldrei nie þijnum Limum nockurn Hræsnis Bikar, helldur hreint Vijn sañrar Trwar, og Omeingadrar Elsku!

Þessu nærst villium vid nu reña Hugskots og Saalar Augum ockar, Christiñ Saala! til siaalfrar Krossfestingariñar vors DRottiñs JEsu Christi, hveria Gudspiallameñirnir, Lucas og Johañes, ockur skijrlega uppmaala og seigia: Ad eftir þad Kvalarar DRottiñs hafi komid med hañ i þañ Stad, sem kalladist Golgatha, edur Høfud-Skielia Stadur, (sem so hefur nefndur verid vegna uppþornadra Beina þeirra, er þar hafa aa Lijfinu straffast), þar krossfestu þeir hañ, edur negldu aa Høndum og Footum nakiñ vid Krossiñ, og þaa Spillvirkia, siñ aa hvoria Hlid hønum, er med hønum voru uthafdir. Med þessum Hætti uppfylltist Spaadoomur Heil. Esaiæ, er seigir: Hañ er greftradur, eins lijka sem þeir

þeir Ogudlegu, og reiknadur; lijka sem Spillvirki. Cap. 53. Her giefst oß nu first, eñ sem optar, Orsok til ad miñast a vora firstu Forelldra, Adam og Evu, og þeirra hrædelegt Syndafall, þegar þau, ad drigdri Syndiñe, stoodu nakiñ vid Tried med stærstu Hørmung og Hiarta-Sorg, og, med þvi þeirra Verk voru vond, hugdu ad koma ecke i Lioos, og føldu sig af þeirri iñvertis Kvøl og Angist, er þau baru, millum Triaña i Allдiñgardinum, firir Augliti DRottens, þegar hañs Raust gieck þar um. Gen. 3. Fyrir þessa Skulld, og heñi til Boota, kom Frelsariñ vor, JEsus, i þessa Verolld, og þvi stood hañ hier nu alsnakiñ, med hvøssum Jarngoddum nidurnegldur a einu Trie, eftir þad ad hañ var ædur hrakiñ, hæddur, pijndur og Hrydstrijktur, og þo hafdi hañ allt vel giørdt, og eingiñ Synda-Lijti voru a honum; samt maatti hañ þetta lijda, med hiñi saarustu Hiartans Angist; hañ faldist ecki, hñ maattu allir siaa, hñ kvaldist opiñberlega. Svo sem nu ad hiñs fyrra Adams gallt allt Mañlegt Kyn, so naut þad og aftur þessarra saarustu Hertans

rans Kvala og Angistar; þvi eins og fyrir eins Mañs Ohlijdni eru margir syndugir vordnir, so verda og fyrir eins Hlijdni margir riettlætir. Rom. 5.

Nu so sem þad Augu Pienaraña hor- fa uppa Hendur siña Lanardrottna, og Augu Ambattariñar a Hendur siñ- ar Hwsmoodur, Ps. 123. So skulum vid nu, Saala mijn! reña og mæna ock- ar taarudum Trwar og Hugskots Aug- um uppa þær giegnumstungnu og al- bloodugu Hendur ockar Frelsara JEsu Christi; þvi þar fyrir leid hañ a þeim þessar Meinsemdir og stooru Kvalir, ad hañ teiknadi ockur þar med i sijnum Hønd- dum. Ydar Hendur, seigir DRottiñ hia Spaamañinum, eru med Bloodi saurgadar, og ydar Fijngur med Illgi- ørdum, Es. 59. Ja, sañarlega høfum vid margt illt Verk framid med ockar Høndum, hvad ei er oliooft Gudi og Sam- vitskuñi; eñ sa Lijknarfulli Grædariñ JEsus, bvodi og hreinsadi af ockur, med sijnu Bloodi, alla Sarugan, sem añars ockur leidt hefdi i Obætanlegt Vandrædi. I Añañ Stad høfum vid med ockar Foot- um

num, ætijd getnged raanga og skadsamlega Vegu, og raafad vonda Glæpa og Villu Stigu, en af Veige DRottens hefum vid ecke vitad. Spek. V. 5. Pe is urdu nu ad giallda Fætur Endurlausnarans; Ockur til Lyknar hefur han laated þar giegnum grafa, og iundur=slited so ockar Fiötur; O hvad skilldug erum vid her um hier fyrir um Heydur og Packir! bidium han af Hiarta, so mun han hier eptir, firir Stioornan sijns Ords og Anda, greida ockar Fætur fram aa Veg Fridarins, allar ockar Æfi=Stundir, hvar sem vid erum edur forum.

So sem nu þad Moyses, eftir Drottins Bijfalningu, upphoof Eyrormin fordum Daga i Eydimorkinni, hvor ed var aan Eiturs, so allir þeir aa han liti læknast skylldu, af Eytur=Orma Bitinu og hielldi Lijfi sijnu; Num. 21. So er og JEsus aan alls Synda Eyturs, aa Krossins Gaalga uppheingdur; þaangad bar hn Synder Veralldarinnar, og han negldi þar þa Handskriftena, sem i mooti oss var. Col. 2. Hvør sem nu þenan JEsum lytur hreinum Trwar=Augum, saa samu

# mt læknast af Biti hins slæga Hoggs-vrms Diøfulsins (er hañ veitti fyrstu Forelldrum vorum, og veitir oss sijdañ daglega) frijast fraa øllum Syndum; og fær Eilijft Lijf. Joh. 3.

Gud giæfi! eg giæti af illu laatid, Gud giæfi eg mætti krossfestast med þier, miñ JEsu! fraa øllum illum Athøfnum! Gud giæfi, eg giæti daaid fraa Syndunum daglega! þvi þad er Dagleg Ost og Girnd mijns Hiarta: þad veistu, miñ Herra! þvi þu veist alla Hluti; eñ Magnleysi mitt hid mikla nœdi þijn Myskun! eg villde ad mijn Saal og Hiarta og allir iñri og ytri Kraftar, kiñu ohindradir ad þioona þiñi Giædsku i hreiñri Trw og Gudlegu Framferdi allt til mijns Lijfs Enda! Miñ Good i Herra JEsu! þu sem varst heilagur og hreinferdugur i allañ Maata; komiñ af Himnum i þessa Verølld; þu varst hier reiknadur i Bland hiña versta Illrædis Maña, þessa hef eg syndugur notid, þar firir fæ eg þañ Ærv-Titil, asamt mørgum ødrum, ad eg heiti og nefnist þitt Barn, og utvaliñ Samarfi til Eilijfs Lijfs; Eñ Gud giæfi, eg kiñi þvi riettilega ad svara! Gud giæfi eg væri ecki þriootskt Barn, helldur hier eftirlaatt og hlijdid, hvert ed Astundunarsamt sie ad giøra þiñ Vilia, miñ JEsu! alla þa Tijd, eg hrekst i Hneixlunarfullri Verølld þessari, so sem Trie fyrir Straumi, i hvørri ad þijnir Elskendur reiknast sem Roos a medal Þyrnaña; fyrir þier reiknasi þeir so þeir sinast hid ytra, eñ Hiartad er þier einum kunnugt, sem þad ransakar. Þeir munu hier margir reiknadir fyrir Afhrak og Askwm, jaa, halldnir maraß ills verdugir, liika sem þu varst hier, sem þu villt þo dijrmæta og saklausa meta; fyrir þvi vil eg kalla mier þad stooran Heidur, ef so þeidi maatt edur mætti til vera; eg veit ad þiñ Doomur og Alyktan yfir mier, verdur sum-

var mig længar, og eg ødlast minn hier
eftir med øllum Utvølldum, fyrir full-
komna Forþienan miins liwfa Lausna-
ra JEsu Christi. Nu so ad vid siaa me-
igum, Christin Saala! hvad þad sie, sein
Lausnarin kallar hier fullkomnad, þaa
skulum vid fyrst athliga, ad DRottin ut-
gaf sitt heilaga Lögmaal fordum Daga
aa Sinai Fialli, uppaa þad sierhvor Ma-
dur i þessum Heimi skylldi eftir þvi lifa.
Nu so sem Lögmaalid var i siaalfu sier
gott og heilagt, so utheimti þad og kraf-
di af øllum oss eitt algiørt og fullkomid
Riettlæti, bædi leynt og liooft: þad ut-
heimti ad Saal og Lijkami, Sin̄i og Hi-
arta, skylldi hreint og flecklaust vera, og
øll Ord og Athafnir vorar ølldungis
Syndlausar; þad heimti ad vier skylld-
um elska Gud med ein̄i bren̄andi Elsku,
af øllu Hiarta, allri Ønd, og øllu Hug-
skoti voru, og Naaungan̄ sem siaalfa
oss, og þessi Elskan̄ til Guds og Naaun-
gans aatti ad vera fyrir utan̄ alla Hræs-
ni, alla Reidi, og sierhvørn an̄an̄ Ofull-
komlegleika. Hvør Saal sem nu halld-
id hefdi algiørlega allar Lögmaalsins

Skipanir, hün hafdi Fyrirheit Lijfsins og eilijfrar Sælu; eñ ef þar var ut af i einu hinu minsta, vid Gud edur Meñ, þa laa þar vid eilijf Bølvan og Fyrirdæming. Nu fañst þar eingiñ af ollu Mañlegu Kyni, sem Løgmaalinu giæti Fullnægiu giørdt sijdañ þañ Dag, aa hvørium Adam fiell i Syndina; þvi þad gieck laangt yfir syndugt Edli Mañeskiuñar; hvar fyrir heil. Paall seigir: Gal. 3. ad fyrir Løgmaalsins Verk verdi eckert Holld hoolpid; og Petur kallar Løgmaalid, þad Ok, sem hvørki gaatu borid vjer nie vorir Forfedur; og med þvi allur Heimuriñ var þañig vid Gud sakfalliñ, þa vard og sierhvørium sijn Sekt Obærileg, þvi DRottiñ gieck so frekt eftir þvi, ad hañ villdi añadhvert skylldi Løgmaalid uppfyllt verda, edur Mañkynid skylldi ad ødrum Kosti fortapast. Devt. 27. Sodañ hrædilega Eymd og Anaud vora, aumleit saa blessadi Naudhiaalpariñ JEsus miskuñsamlega, stie þvi nidr af sijnu Haasæti Himninum ofan hijngad til vor aa Jordina, og gaf sig undir Løgmaalid; þvi seigir St. Paall so: Þa Uppfylling

Tijm

Tijmans var komiñ, sendi Gud siñ Son fæddañ af Kviñuñi, og Lögmællnu uñdirgiefiñ. Gal. 4. Sem hañ nu, Holldtiutiklæddur, var til vor komiñ, þa gieck hañ viliuglega i vorn Stad, eftir Velþocknan siins Himneska Fødur, og audsijndi honum fulla og alla Hlijdnt; og fullkonnadi so vor vegna Lögmællid; þvi seigir Paulus: Endalok Lögmálsins er Christur; hver æ hañ trwir, sa er riettlætur. Rom. 10. Eñ so ad sw Sekt, sem uppæ oss var hlaupiñ vegna Syndañа, yrdi forlijkt, bætt og betølud, og Lögmælsins Bolvan burtu tekiñ, þa hlaut hañ ad lijda þa beyšku Kvøl og Krossens Dauda: Sem hañ hafdi nu allt þad fullkonnad, sem af honum var skrifad og umñ hañ spæd, jæ, þegar hañ var bwiñ ad bæta og betala fyrir allar vorar Syndir og Yfirtrodslur, og lijda þad Straff, er vier med riettu lijda ættum; þæ villdi hañ til vor þessi Fagnadarfullu Ord seigia: Pad Er FULLKOMnad, undir sitt blessada Andlæt; so ad øll hañs Fullkomnañ skyldi vera vor sijdasta Andlæts Huggun, hañ vort Lijf, og Daudiñ vor Aviñingur.

gur. Phil. 1. Hugleid nu, Guds Barn! ad JEsus Guds Eingietiñ Sonur, hroopar þessumm Fagnadar-fullu Ordum til þijn; og seigir allt þad fullkomnad, sem þier kuñi ad þiena til eilijfs Fridar og Frelsis: Hvad brestur þig þar? Ad ollu Leiti er Logmaalid fyrir þig fullkomnad, fullkomnadur er Betalijnguriñ fyrir þijnar Syndir, Fullnægia er giord Guds strangasta Riettlæti, fullkomlega er upplokid fyrir þier Dyrum Himnarijkis, fyrir saña Truu aa mig ertu og fullkomiñ, þvi mijn Fullkomnan er þijn, fullkomna Naad og Myskun skalltu af mier og fyrir mig odlast hier i Heimi, og fullkomna Dijrd og eilijfa Unun añars Heims.

Nu villtu maa skie fyrst spyria, Guds Barn! hvorneñ seiger miñ Lausnare hier, ad mitt Endurlausnar-Verk sie Fullkomnad, þar sem hañ var eñ ecke dauen fyrer mijnar Synder, ecke eñ þa uppriseñ mier til Riettlætes, og ecke uppstijgeñ til Himens, so hañ uppfyllte alla Hlute, so hañ meddeillde mier þær Andlegu Himnesku Gaafur: Eñ Ste. Paall segir mier so: Ef Christur være ecke uppriseñ, þa være mijn

mijn Trw Onijt, og þa være eg eñ þa i mijnum Syndum, þa væru og hiner, sem sofnader eru i Christo, fortapader? Þar til svarast hier so: Vor HErra JEsus Christur, riett under siñ Dauda, giefur hier tilkiña, ad hañ hafe med siñe Pijnu og Dauda (er strax epterfilgde) uppfyllt Lögmaaled, og þess Bolfan fraa þeim, er aa hañ trwa sier til Saaluhiaalpar, burtteked. Ad hañ hafe wtlagt fullkomna Borgun fyrer alls Heimsins Synder, og þar fyrer teked þad wr Veige, sem hindrade Mañkynsins fullkomna Fridþæging vid Gud, og, af heñi fliootandi, elliþsa Saluhiaalp: Hefur vor Herra Jesus i þessum Ordum Til-lit til alls þess hañ leid vor vegna, þad er, eiñahellst til hñs Pijnu og Saklausa Dauda, fyrer hvort Lijfed og Odaudlegleikeñ eru i Lioos leidd: Eñ þad, ad hañ er uppriseñ, ad hañ er uppstijgeñ, ad hañ situr til Fodursins hægre Handar, er skied þess vegna: Ad hañ, sem Riettlættur er i Andanum, uppríse oss til Riettlætes: Ad hañ, hvors Gud ad er vor Gud, hvors Fader er vor Fader, tilbigge oss Stad i sijns Fodur-Hwse; Og ad hañ, sem

hefur

hefur Oforgeingelegañ Kieñemañskap, bidie, i Krafti siñar Forþienustu, æfiñlega fyrir oss, og giøri þaa Saalu-hoolpna, er fyrir hañ koma til Guds. Ebr. 7. Vor Hiart=kiæri Endurlausnari let sier þvi ei nægia, i sijnu Nidurlægingar-Stande, ad frelsa oss fraa eilijfre Bølfan, og uppfylla Løgmaaled vor vegna med siñe Hlijdne, Pijnu og Dauda, so hañ, under sitt Blessada Andlaat, kunne med stærsta Riette seigia þetta mikla Endurlausnar=Verk FULLKOMNAD, sem og Spaadoomana uppfyllta, er um þad hliood udu; helldr og i sijnu Upphafningar=Stande tilkiñir hñ, sem volldugur Sigurvegare, Frelsed þeim Herteknu ad vera afrekad med siñe Forþienustu, jaa, øllum þm̄, sem aa hañ til Enda trwa, eilijft Lijf og Saaluhiaalp; og þeñañ Gledelega Bodskap, fyrer riettelega Brwkan Naadareñar Medala og Vitnisburd Heil. Anda iñsiglar og stadfestir hñ i Hiørtum Barna siña. Pu villt kañskie spyria; J Añañ Maata: þar ed Utlausn Mañkynsins er nu hier hid Fyrsta Fullkomnud med allre Kvøl og Pijnu Lausnarans, hvorneñ hafa þa hiner i Gamla Testa=

Testamentenu leyster orded frä Daudanum og Helvíte? Andsvar: JEsu Christi dijrmætur Forþienustu Kraptur og Verdugleike var so yfermaata stoor og fullkomeñ fyrer Guds Auglite, ad hañ utrañ og næde til allra Trwadra sem vered hafa frä Veralldar Upphafe, og verda munu allt til heñar Sijdasta Enda, so ad vier Trwader med þeim, og þeir Trwader med oss, verdum til samans Sæluhoolpner fyrir þessa Nædena vors DRottenß JEsu Christi. Eñ ad þeir i Gamla Testam. hafe til þessarar stooru Nædar Trwareñar Augum reñt, þad er auglioost medal añars af sialfs JEsu Ordum, þeim hañ talade uñ Abraham, seigande, hañ hafa sied siñ Dag, og orded gladañ vid; Joh. 8. Og Paulus seiger, ad Fedurner hafe aller neytt einslags Andlegrar Fædu, og aller hafé þeir Einslags Andlegañ Dryck drucked, þvi þeir hafi drucked af þeirre Andlegu Hellu, sem þeim epter filgde, hvor Hella ad var Christur. 1. Cor. 10. Er þvi JEsus þad Flecklausa Guds Lamb, sem slaatrad er af Upphafe Veralldareñar, sem Johañes seiger, Ap.

13. Eñ Trw þeirra og vor er ørugt Traust þeirra Hluta, siñ Madur vonar, og efar ecke um þad sem hañ sier ecke. Ebr. 11.

O miñ Sætaste HErra JEsu! Eg þacka þier af øllu Hiarta, þad þu hefur mier þvilijka Huggun giefed, ad allur miñ Ofullkomlegleike, sie med þiñe fullkomnustu Forþienan bættur. Gief ad mitt Hiarta gleyme þessu alldrei, helldur hugge sig hier vid, og hyre þar jafnañ epter, so eg, hier i Heime, beriast kuñe goodre Baraattu, behalldi Trwñe og goodre Samvitsku alla Daga; Uppa þesse þijn Ord vil eg okvijdiñ gaanga Veg allrar Veralldar; Nær sem þu kallar mig vil eg hier fyrer gladur i burtu fara; Þvi þesse þijn Fullkomnan er mier og øllum, sem a þig trwa, eilijft Lijf, Frelse og Forlijkun allra Synda og Misgiørda; hvar fyrer þier sie Odaudleg Æra og Vegsemd. Am.

# XLIV. Cap.

## Siøunda Ord Christi a Krossenum.

### TEXTENN.

OG JESUS Kallade Upp Haarre Røddu J Añad Siñ, Og Sagde: FADER! J ÞJNAR HENDUR FELEG MJNN ANDA.

### UTLEGGJNGJN.

Þu Christeñ Madur, sem læra villt ad lifa vel og deya sijdañ Christelega! Haf þu þier alltijd fyrer Hugskots

Augum þañ beyska Dauda þijns HErra og Endurlausnara JEsu Christi, Gief og Giætur ad hans Ordum ; Þvi þau eru Lietter þijns Anstreymes, og Lækning Naudaña i þessum Tæraña Dal, þvi hvorke orka þessa Jurter nie Plaastrar, helldur hans Ord sem græder alla Hlu te. Sap. 16. Þegar JEsus (til hvors þu átt alltijd ad lijta, og hans Foot-Sporum ad filgia) var staddur i hiñe mestu Kvøl, og var allskonar Eymdum hladen, jaa, þegar þad dapra Bøl Daudans gieck rijkt ad honum, þa kallar hañ DRottiñ: siñ FODUR.

Med þessu Ordi vill hañ þier og mier 1.) kieñt hafa, hvijlikt Hiartalag Gud Himneskur Fadir beri til allra þeirra, sem af ymsum Mañraunum og Freistingum plaadir og undirþryckter eru i þessum Heimi; sem er: Hañ sie eiñ goodlyndur og Giædsku=rijkur Fadir vid alla þaa, sem honum treysta, so ad þo øll Verølldin bregdist þeim med siñi Huggun og Eptirlæti, þaa vilie hañ þaa samt alldrei yfirgiefa, helldur reynast þeim miklu betri eñ nockur Lijkamlegur Fadir edur Moodir:

ir: slijkt seigist David hafa feingid ad reyna, meiga og eirnin allmargir Munadarlausir Einstædingar þad eñ þa med honum saña, sem reñt hafa Vonar og Trwar Augum sijnum uppa Drottiñ, siñ Gud; David talar so: Fadir miñ og Moodir mijn þau yfirgaafu mig eñ Drottiñ añadist mig. Ps. 27. Nu þo Overdugleike vor margsindugra sie i Raun og Sañleika so stoor, ad oss hæfi ecki ad upplypta Augunum til Himinsins, edur kalla þañ allra hædsta Herra Himins og Jardar vorn Fodur, þar vier hofum so tijdt og oft fraa honum stwid, og reynst honum ohlijdnir; þaa maattu þo samt, þu sañydrandi Syndari! kalla hañ, fyrir JEsum Christum, þiñ Fodur; þvi aller þeir sem trwa aa JEsum, eru Guds Born, seigir St. Paall, Gal. 3. Po Kross og Mootlæti þvijngi þig þraalega, og aa margañ Haatt, þaa mijkir þad alla Horinung, ad vera Guds Barn: þvi hvort þad Barn, sem Fadiriñ elskar þad agar hañ; lijka sem eins goods Fodur Hiarta aumkast mjog yfir sijnu Barni, sem hañ veit af Sivkdoominum kramid vera,

 so

so aumkvast og mikiu framar Fodur-Hiarta DRottins yfir þiñi Synd, og Anaud, þü sem ert hañs Kroßberari, þü sem kveinar og andvarpar til hañs, so hañ vill þig añast, og hiwka þier med siñi Naad og Myskün; eptir þvi sem David vitnar seiglandi: Lijka sem Fadiriñ er Börnunum lijknsamur, eins þa er Drottiñ Myskunsamur ollum þeim sem hañ óttast. Ps. 103. Og hier fyrir heitir hañ Fadir Myskunseindaña og Gud allrar Hüggunar, saa oß huggar i allri vorri Hriggd. 2. Cor. 1.

2. Sijna þier, Christeñ Madur! Ord Lausnarans Jesu Christi lioslega Saalareñar Odaudleika, þvi þar hañ miñest hier sijns Anda, þa eigum vier ecke fyrer þan sama ad skilia hañs Guddoom, þo hañ eirneñ Ande kallest i Ritninguñe, helldur hañs Saal, hvoria hañ, asamt Holldenu uppaa sig teked hafde i Lijfe Joomfrwar Mariu. Fyrer þvi er nu Saaleñ ein Odaudleg Vera i Mañenum, þvi DRotteñ blies i Fyrstu einum lifande Anda i hañs Naser, so hañ vard ad lifandi Saalu, so þo Hollded deye, stirdne og verde eirn kalldur

Naar,

Maar, epter Saalareñar Vidskilnad, þa deyr huñ samt ecke siaalf, og þvi er þar eingeñ Hlutur sia til hvørs Forsioon og Umhyggiu oss rijde jafn miked aa ad vanda sem Saalareñar. Nu so ad þu, Christeñ Madur! vita feinger, hvar þu kuñer ad fiñа heñe O hultañ, hægañ og Roosamañ Hvijlldar=Stad, þa sijner og seiger JEsus þier þad hier eirneñ. Saa Stadur heiter Hønd þijns Guds og DRotteñs, fyrer hvørja þu skilia skallt hañs Almætte, fyrer hvørt hañ kañ allt þad ad uturietta er hañ vill aa Himne og Jørdu: Hañs naakvæma Vernd og Vardveitslu, hvørja hañ Lijfe og Saalu þeirra veiter, er hañ aakalla og hønum treysta, so eingeñ fær þaa ur þessare hañs Verndar=Hende slited: Hañs Giæsku og Goodgyrne, med hvørre hañ hiukar ad sijnum Elskendum, og meddeiller þeim Lijkamlegar, Andlegar og Himneskar Velgiørder: Og hañs Truufeste og Sañleika, sem alldrei riufast kañ; Þvi þad hañ lofar þad ender hañ, þad hañ ad sier tekur þvi slepper hñ alldrei.

Viller þu nu, Guds Barn! ad þijn Saala naa skule þessu hiñu allra besta Heim=

kiñe og Roosamasta, Hvijldar-Stad, epter pad hun hefur yfergiefed þetta Armædufulla Lijkamans Hreise, hvørt hun hier bigt hefur: þa blijtur þu, medañ yckar Samvist varer, ad halla þier ad DRottne, pad er: gaanga af fremsta Megne þañ Veigeñ, sem til Lijfsins liggur og Hend DRotteñs vijsar þier; Elsker þu hañs Ord og vardveiter hañs Bod, þa fer þu Riettleides. Eñ med þvi ad þig vill margt af þessare Gøtu leida, þar med eru þeir og næsta faaer er hana gaanga, og opt hrigguer, eñ hiner þar aa moote hlæande, aa hvøriu marger hneitlast; þa wtvel þu þier goodañ Leidtoga, sem þig velkañ stirkia og stidia meige; Þesse Leidtoge er Hend DRotteñs, hun er þier besta Lijfs-Regla, hun kieñer þier þad hvad nytsamlegt er, og leider þig aa þañ Veigeñ, sem þu aatt ad gaanga, hun kañ fyrer þier Myrkureñ ad Lioose giøra, og þad jafna sem Osliett er, og ecke yfergiefa þig. Es. 42. Þad hun kieñer þier og lætur boda, sem er Ord DRotteñs, þad blijtur þu ad Rootfesta, og geyma vandlega i þijnu Briooste og Hiarta, þvi þad Endurnærer þig i Hrigdunum,

unum, lijser þier i Myrkrunum, þad er þier Vopn i Strijdenu, Sadning i Hrwng renu, og Læknlng vid sierhvørtu tilfallande Meine. Hafer þu þier þetta Hugarfar, þessa Vidburde, tamed, um̃ þijna Lijfs Daga, þa þarftu ecke leinge leita ad Dauda-Stunduñe ad Boot þiña Meina. Eñ framar: þegar þesse Leidtogeñ, edur Hønd DRotteñs, hitter þig, þier til Gooda, þa hrittu heñe ecke fraa þier med Opoleñmæde, legdu þig helldur, med Lijfe og Saalu, liwflega i Valld og Vilia DRotteñs: Breit þvi i þessum Tilfellum sem eitt gott Barn og hlijdeñ Sonur, og seig med hinum gooda Guds Mañe David, þa hañ hirtur var: Glore DRotteñ vid mig sem honum vel lijkar. Þad eru hin bestu Urræde. Þar fyrer, þegar øll Mañleg Hiælp er ute, og þitt Holld kveinar af saarre Hriggd og Angre, þa reñdu þijnum Augum i saure Trw uppaa Myskunar-Hønd Guds; hun hefur sært þig, hun mun og græda þig, hun hefur hrellt þig, hun mun og aptur hugga þig. A Morgnana, þegar þu uppstendur under Guds Poleñmæde, og aptur aa Kvølldeñ, þegar þu skallt

 nid-

nidurleggiast til þijns Svefns (af hvorkum þu veitst ecke hvort þu munert aptur vakna firr en̄ a Sijdasta Deige), þaa mun̄stu ad laata þetta vera Upphaf og Ender þin̄a Bæna: Min̄ Giæskurijke Gud og Fader! Þier befala eg af Hiarta mijna Saal i Hendur! Þu þarft þa alldrei um̄ þad ad ugga, ad nær sem Dauden̄ þier ad Hondum kiemur, þa fin̄ur þijn Saala Frid og Myskun i Hendum þijns gooda Guds og Fodur, jaa, han̄ blifer þier þa med sijn̄e Hægre Hende, og forsvarar þig med sijnum Armlegg. Cap. 5. Hun fin̄ur þa til aungrar Hriggdar, edur nockrar Astrijdu, hun er þa svipt allre Mædu og Hormung, sem hier hefur ad hen̄e þreingt i þessu Lijfe: þvi hun fær þa ad sitia, i hinum ælskelegasta Fride, þa Blijdu og Blessudu Asioonu lifanda Guds um̄ Allder og ad Eilijfu.

3. Er þad og ein̄ig Eftirtekta-verdt, ef þu ad þvi hyggur, Christin̄ Madur! ad Endurlausnarin̄ dregur hier sijna sijdustu Andlaats Bæn af Mun̄i Davids, edur han̄s 31. Psalmi. Af hvoriu han̄s blessudu Dæmi þu læra skallt, ad yдka þig

alla þijna Lijfdaga, aa medañ Tijmiñ giefst, i Guds blessada Naadar Ordi, þvi þad er saa besti Grundvollur, aa hvorium þu byggia skallt þijnar Bænir til Lifanda Guds, eñ ei aa einsomlu Briooſt Viti þijnu, sem nærsta faavijst er i þeim andlegu Efnum; so ad vier, søkum Holldsins Blindleika, vitum ei, uñ hvad, edur hvorniñ, vier skulum bidia, eñ hvor illa bidur, hañ odlast ei; seigir Jacob Postuli. Cap. 4. Vilier þu nu bidia riettilega sem ber, edur i Anda og Sañleika, uppaa þad þu eiñig bænheyrdur verdir af Drottni; þaa er Guds Ord þier hiñ besti Lærimeistari; sæll ertu ef þu elskar og helldur þier vid þessa Leidar=Stiornu. hun er saa Vagn, sem flitur og feriar heilagañ Anda iñ i þitt Hiarta, hvor og þa hiaalpar vid þijnum Breyskleika, bidur fyrir þier med Oumrædilegri Andvarpzan, upptendrar i þier Lioos Truariñar, aan hvorrar omøgulegt er ad þocknast Gudi, og færir þier aa Dauda=Stunduñi þa bestu Lijf=Blæu, og þad saña Brwdkaups Klædi, sem skarta og skijna skal aa Saalu þiñi fyrir Stooll Guds og Lambsins

sins mũ alla Eilijfd: þar ødlastu þad, sem hiñ sæll Simeon oskadi sier, ad fara hiedañ i Fridi frá Ofridi og Styrielld Veralldariñar, og kiemst til þess eilijfa Fridar, hvørium einginn kañ þig framar ad svifta.

O goodi Gud, þu sem ert Fadir yfir allt þad sem Børn kallast á Himni og Jørdu! vertu mier aumum, og øllum þeim sem á þig vona, eiñ trwfastur og Lijknarsullur Fadir, fyrir Arnan og Forþienustu mijns Frelsara JEsu Christi; halltu yfir oss þiñi blessndri Verndar Hendi, hvar sem vier erum edur førum, Uti og Iñi, so vier hata og hafna kuñum øllum Syndum og Illgiørdum. Og þegar Lioos Maññlegrar Hiálpar (sem nærsta hvikult er) vill hverfa oss, þá hlijfi oss og hirdi þijn blessud Myskunar og Hiálpar-Hønd; eñ nær sem þu hyrtir oss, þá vilium vier kissa þiñ Vønd, og hønum med Þackum og Poliñmædi taka fyrir þijna Adstod. Og þegar su Stund oss ad Høndum kiemur, á hvørri vier til fulls kvedia eigum þessa Verølld, þá hiálpi oss þijn blessud Hønd ad assianda hid sijdasta Dauda-Strijd. Medtak þá, O Giædskurijki Fadir! vorar Sálir, so sofnum vier wtaf med Gledi. Miñ sæti JEsu! gief ad eg geymi þitt sijdasta Andlaats Ord i mijnu Hiarta, so þad verdi og mitt hid sijdasta, þá eg skal ur þessari Verøld burt-sofna, Amen.

## XLV. Cap.

### Um JESU Dauda.

TEXT.

## TEXTINN.

Og er hañ hafdi þetta sagdt, hneigdi hañ Høfudid nidur, og gaf upp siñ Anda.

## UTLEGGINGIN.

Ad er riettilega talad, sem St. Paall seiger til Romanos i 6. Cap. ad Daudiñ sie Verdlaun Syndariñar; eñ þau Vopniñ, sem Daudiñ brwkar til ad bana med syndugri Mañeskiu, eru siaalfrar heñar Raanglætingar og syndsamlegar Athafnir, sem hun fremur i mooti Guds goodum Vilia og hañs heiløgu Bodordum; þvi er þad riettur Urskurdur, ad saa skuli deya, sem syndgad og misbrotid hefur, hañ siaalfur hefur sig þvilijks sekañ giørt, hañ hefur þañ Kost og Skilmaala undirgeingist, med þvi hañ syndgadi. Eñ þetta naadi i aungvañ Maata til vors Frelsara JEsu Christi, þar hañ var i alla Stadi saklaus: Hañ var, fyrst, fyrir utañ alla Uppruna Syndariñar Saurgan, gietiñ af heiløgum Anda og af Yfirskyggingu Kraftar hiñs hæsta Guds, i Lijfi Jomfrwr Mariu. Matth. 1. Þar næst,

leingi hañ umgleckst i þessari Verölldu, þaa lifdi hañ og hagadi sier ostraffanlega bædi fyrir Gudi og Moñum, so hans Ovinir gaatu ecki sañad uppaa hañ nockra Synd. Joh. 8. So ad hañ, sem af Postulanum Paali kalladur verdur riettilega, Lioomi Fødursins Dijrdar og Jmind hañs Veru, Ebr. 1. lifdi og doo aan allra Synda og Saurgana, og hafdi þvi hvorki til nockrar Refsingar uñid, nie Daudans Angist forþlenad. Hvad kom þa til þess, þu Guds Barn! ad JEsus, i allañ Maata heilagur og Flecklaus, skilldi lijda so harda Kvøl og Pijnu, og hina bitrustu Daudans Neyd? Eda hvar fyrir var hønum so Vægdarlaust refsad, sem þo hafdi alldrei til nockurs Bøls uñid edur nockrar Refsingar? Þar til svarar heilagur Andi þier og mier fyrir Muñ Esaiæ, sijnir og seigir hvør og hvilijk Orsøk hier til verid hafi, i þvi hañ so talar: Fyrir vorra Misgiørda Sakir er hañ særdur, og fyrir vorra Synda Sakir er hañ lemstradur, Hegningiñ liggur aa hønum, so vier hefdum Fridiñ, og fyrir hans Benjar erum vier heilbrygdir ordnir; vier geingum

ingum allir villt sem Saudir, eñ DRottiñ kastadi ollum vorum Syndum uppa hañ. Cap. 53. Hier af meigum vier nu siaa augliooslega, ad saa eingietni og elskulegi lifanda Guds Son, JEsus Christur, hefur fyrir vorar og allrar Veralldarinnar Sakir og Syndir lidid þessa strangustu Kvol og Pijnu: Hañ heilagur og riettlaatur deydi fyrir þig og mig, syndug Mañeskia! sem med riettu forskullldad hofdum, ockar hrædilegrar Bloodskulldar vegna, Daudañ og eilijfa Fyrirdæmingu: hañ liet Lijfid, so ad eg og þu lifa skylldum; hvar fyrir vid eigum nu fulla og alla Von eilijfs Lijfs: Þvi talar heilagur Andi so fyrir Muñ Johañis: Þetta er Vitnisburdurinn, þad Gud hefur giefid oss eilijft Lijf, og þetta Lijf er i hañs Syni, hvor sem Guds Son hefur, saa hefur Lijfid, hvor hañ hefur ei Guds Son, saa hefur ei Lijfid. 1. Pist. 5. Ysir allt Mañlegt Kyn var falliñ hin þijngsta og saarasta Neyd og Angist, þar sem þad braut Bodord DRottiñs, og gat ecki hañs heilaga Logmaal halldid, eñ sa aatti ad vera Bolvadur, sem þad ecki hielldi ad

ollu

ollu leiti. Nu þo Villieñ hefdi nockur til þess verid ad halda Løgmaalid, edur giøra hid gooda eftir Vilia og Skipan Drottiñs, þaa voru Kraftarnir þar til olldungis blladir og Onijtir; Løgmaalid var og er andlegt, eñ vier holldlegir, selldir under Syndina, so ad Broddar Syndariñar særdu og lemstrudu Samvitskuna: Allt þetta færdi Daudanum Avoxt; hañ fieck af þessu Tilefni so sterk Yfirraad, ad hañ lagdi oss i Fiotur og Faangelsi, hvørt oss hiellt fastlega undir eilijfa Fyrirdæming. Løgmaalid, med þvi vier gaatum þad ecki halldid, þa safnadi þad oss obærilegri Sekt, eñ þessari Sektiñi eftirfilgdi Daudiñ; Daudiñ dregur hiñ sakada fram fyrir Doomiñ, Doomuriñ Urskurdar (ad vonum) Straffed; Straffid dvijnar alldrei niñt alla eilijfd; þvi var su eilijfa og oendañlega Kvol og Pijna, hiñ allra þijngsta, sem alldrei ætti ad linast edur þverra. Eñ hier forgreip Løgmaalid sig fyrst aa sialfum Guds Syni og Hertoga Lijfsins JEsu Christo, i þvi þad felldi hiñ hardasta Doom yfir hañ, sem þo var hellagur og riettlaatur, þvi

þad

þad atlyktadi elldungis, ad hvør og eiñ, sa sem deyddur og heingdur være a einu Trie, hañ skylldi vera Bølvadur. Devt. 28. Efftir þessum Doomi Løgmaalsins gieck nu Daudiñ, sem añar Hegnart, og skildi Lausnarañ vid Lijfid, so hañ deydi.

Allt þetta skalltu nu vel athuga, Christeñ Madur, og leggia þad uppaa Hiartad þiñ. Pa Sekt sem uppaa þig og mig var hlaupeñ epter Løgmaalenu, af þvi vid gaatum þad ecke hallded, hefur JEsus i alla Stade bætt og betalad; Løgmaaled miste alla sijna Magt yfer oss, hañs Børnum, so vier erum lauser og frijer ordner undañ þess straanga Bølvunar Afelles-Doome, fyrst JEsus er fyrer oss ad Bølvan ordeñ; Þvi þar sem soddañ Afelle er yfer JEsum Saklausañ geinged, vor Sakadra vegna, þa eru aller þeir, aa hañ trwa, vordner i hønum su eilijfa Blessan; þvi Endalok Løgmaalsins er Christur; hvør aa hañ trwer, hañ er Riettlaatur. Rom. 10. JEsus braut og þeñañ eytrada Brodd Daudans, þad er, hañ afmaade Syndena, sem særde vorar Samvitsku, so vier erum

burt-

burtsloppner wr þvi harda Daudans Faangelse, og meigum med Fagnade seigia: Daude, hvar er þiñ Broddur? Helviste, hvar er þiñ Sigur? Lof sie Gude sem oss hefur Sigureñ giefed fyrer DRotteñ vorn JEsum Christum! 1. Cor. 15. fyrer þeñañ Dauda, aa ad skilliast ei einasta sa eiliffi helldr og sa lijkamlegi Daudi, ad þvi leiti, sem hñ er Verdlaun Syndariñar, hvørs Olifian ad Jesus ordeñ er, Os. 13. Pad er, hañ hefur med sijnum Dauda, edur i þvi hañ deyde, deydt hañ og yferuñed, so þegar hier verdur Adskilnadur Saalar og Lijkama þeirra, fyrer hiñ Tijmañlega Dauda, er aa JEsum trwa, þa verdur saa same þeirra Daude og Afgaangr dijrmætur fyrer DRottne. Ps. 118. Pvi Daudeñ er þeim ecke añad eñ sem eirn ørstuttur Vegur, hvørn þeir ferdast wr Hretvidre þessarar Veralldar, til hiñar Æskelegustu Uñünar eiliifs Lijfs og Oendañlegs Fagnadar; jaa, sem einar Dyr, i giegnum hvørjar þeir gaanga wr Armædufullre Eydemørk og Utlegd þessare, iñ i sitt rietta Fodur-Land; Hvar fyrer þeirra Daude kallast med ølløm Riettu

þeirra

þeirra Aviñingur og beste Abate. Phil. 1.
Daudeñ kiemur þvi til Leidar, ad søñu, ad
þetta Lijf (sem þo maa framar Dauda eñ
Lijf reiknast) hlitur ad wtslockna, so ad
Hollded leggst til sijns Hvijlldar-Stadar
i Kiølltu siñar Moodur Jardareñar, af
hvørre þad komed er, eñ Saaleñ verdur
flutt, fyrer utañ allañ Haaska, og frij af
allre Mædu, af Einglum DRottens, iñ i
Himneska Sælu; Þetta er øll su Magt
sem Daudeñ hefur nu yfer Guds Børnum:
hun nær ei leingra eñ so: Hefur hiñ vijse
Syrach þvi hier miñ vel talad, þar hañ
seigir: Allt Holld slitnar sem añad Klæ-
di, þvi þad er hiñ gamli Sættmaali,
þu Madur hlijtur ad deya, lijka sem græ-
ñ Lauf aa føgru Trie, sum falla af,
sum vaxa aftur, so geingur þad til fyrir
Mañmun, sumir deya, eñ sumir fædast
aftur. Syr. 14.

O sæti HErra JEsu! i þinum Dauda er vort Lijf,
i honum høfum vier hina trwfostustu Huggun og Hug-
svølun, þvi so sem vier doum aller i Adam, so verd-
um vier og aller i þier lijfgadir. O HErra! vier bid-
jum; ad sa dijrmætasti Kraftur þijns Dauda dreifist
yfir Akur vors Hiarta, so øll Synd og Illska, er þar
iñi rijkir og rijkt hefur, aldungis i oss utaf deye, eñ vi-
er saman lifad einu nyu Lijferni, Gudi til Dijrdar, eñ

oss til eilijfra Saalar Nota, fyrir þijns blessada Naf-
ns Sakir.

Minstu þess og einig, Guds Barn! ad þegar JEsus Christur lietst a Kross-
inum, þa hneigdi hañ Hofudid; hvar med hañ fyrst auglijsti sin Omumrædilegan Ki-
ærleika og Elsku til Mañkynsins. Þeg-
ar Elisæus fordum uppvakti af Dauda, fyrir Guds Kraft, Son þeirrar Suna-
mitisku Kvinu, þa lagdi hañ sin Muñ yfir Barnsins Muñ, sijn Augu yfir ha-
ns Augu, sijnar Heindur yfir hañs Hen-
dur, og breiddi sig yfir hañ, þar til hañ vard varmur og lifandi. 2. Reg. 4. Eins
lijka, breidde sa Himneski Elisæus, vor DRottiñ JEsus Christur, sig yfir oss,
Andlega dauda, þar til hañ fieck oss aft-
ur lifandi giort, edur endurnijad þa rl-
ettu Guds Mynd i oss, hvoria vier i A-
dam mistum; so þad vier lifum nu, þad lifum vier i Truñi a hañ, hvør oss er af
Gudi giordur til Vijsdooms, Riettlæt-
is, Helgunar og eilijfrar Endurlausnar. 1. Cor. 1. Þar nærst bendti hañ oss hi-
er med, ad miñast alla Tijma a sin Da-
uda, so sem St. Paull seiger um Medtø-

kù þess haaverduga Kvølldmaaltijdar Sacramentis: so oft(seigir hñ) sin þier etid af þessu Braudi og dreckid af þessum Kaleik, skulud þier kunngiøra Dauda DRottins þaangad til hañ kiemur. 1. Cor. 11. Þessi Enduminning JEsu Dauda, er ecki einasta falin i Þacklæti Muñsins, helldur og i Gudrækilegn Lijferni og Framferdi, hvørt þu færa skallt, sem hafa villt Not Christi Dauda, so munu þijn Augu, aa Dauda-Stunduñi, siaa med Stephano Himnana opna, og JEsum standa til Guds hægri Handar, so sem reidubwiñ ad taka i mooti þiñi Saalu.

Miñ blessadi HErra JEsu! þu sem ert Bruñur allrar Giædsku og Myskunnar, gief þu mier, sakir þijns bitra Dauda, farsælañ Guds Barna Afgang af þessum Heimi, laat þaa mitt Holld i Fridi hvijlast, eñ medtak, O JEsu! mijna Saal i þijnar Hendur. Amen.

## XLVI. Cap.

Um Teikneñ sem urdu vid Christi Dauda.

TEXTINN.



OG Siaa, ad Tialdded Musterens rifnade midt sundur i Tvo Parta, fraa ofañverdu allt nidur i giegnum, og Jørdeñ skalf, og Biørgeñ klofnudu, og Graf-

ernar lukust upp, og marger Lijkamer Heil lagra risu upp, þeir ed svaafu, og geingu epter hans Upprisu wr Grøfunum, og komu i hina Heilogu Borg og byrtust þar morgum. En er Hundrads-Høfdingeñ, hvor ed þar stood giegnt, saa hvad þar skiede, og ad hañ kailade so, þa ed hañ lietst, Prijsade hañ Gud, og sagde: Ad vijsu hefur þetta eirn Riettlaatur Madur vered og Guds Sonur. Og þeir sem med honum voru ad vardveita JEsum, þa þeir saau Jardskiaalftañ, og þad hvad þar skiede, urdu þeir miøg Ottaslegner, og sogdu: Sañlega var þesse Guds Sonur. Og allt Foolk, er þar var hiaa og horfde aa, sem þeir saau hvad þar skiede, barde þad sier aa Briooft, og snere i burt aptur.

UTLEGGINGIN.

Mad maa til Vorkunar vyrda, og ecke Undur kalla, þu christeñ Madur! þoo allt Heimkiñi eins goods Hwss-Fodur, sem vel hefur stiornad, standi yfir hans Dauda-Sæng, nær hañ andast, med saarum Harmi og Hiarta-Sorg, þar sem hañ er af Daudanum fraa þvi slitiñ, og þad maa siaa hans

hañs a Bak, hvørs margir hafa leingi miñugir verid, og þad Bøl jafnvel til Grafar borid. Miklu sijdur var þad undr-unarverdt, þo allar skapadar Skiepnur bæriſt hørmulega af, og stædi lijka sem grætandi yfir Lijffins Hertoga JEsu Christo, er allt vel giordi, þegar hañ lietſt med Hroopi og Kalli a þeim Forsmæ-narlegaſta Kroſſins Gaalga; þad vant-adi og eckj til, ad þær lieti i Liooſi ſijna ſaaru Harma-Kløgun. Uñ Sorgar-Klædi Soolarkñar er ædur gietid: Nu verda oſs, hier i Textanum, Fiñ Stoor-merki upptaliñ.

Fyrſt verdur hier þeſs miñſt, ad For-tialld Muſteriſins hafi ſundur-rifnad, er adſkildi hid hetlagaſta fra þvi hetlaga. Jñ fyrir þetta Fortialld mætti eingiñ fordum koma, utañ Biſkupiñ alleina, einuſiñi a Ari, og þad eckj aan Bloods, þegar hañ forlijkadi fyrir ſijnar og alls Foolkſins Syndir. Þegar nu JEsus Chriſtur, ſa ædſti Biſkup Nija Teſta-mentiſins, giort hafdi, fyrir ſitt eigid Bl-ood, þa Forlijkun ſem eilijflega dugir, fyrir allrar Veralldariñar Syndir, og

fundid øllum, þeim að hañ trwa, eilijfa Endurlausn, Ebr. 9. Þaa sundurrifnadi hid gamla Musteris Fortialld, hvar med þad vottadi, ad su Konunglega Spiiran skilldi nu olldungis burt-tekiñ fraa Juda efter Spaadoomi Forfedursins Jacobs, Gen. 49. Þar sem ad Silo, saa ösl-ugi Kappi og Heimsins Endurlausnari, JEsus Christur, væri komiñ, og hefdi nu allareidu Rijkid undir sig lagt; Somuleidis Lærimeistarñ fraa hañs Footum, þad er, nu væri Endir ordiñ aa Embættingañs Kieñimañskap, þeim Levitisku Kyrkiu Sidum, Foornfæringum og Matoffri, hvad vara aatti til Tijma Leidreettingariñar: Ebr. 9. Hvor nu gierdist af JEsu Christo, er var sialfur Lijkamiñ, eñ hitt ecki añad eñ hañs Lijking, og Skuggasiaa hañs fullkomiñar Forþienustu. Col. 2. Einginn maatti fordum, sem Lijsinu hallda villdi, snerta Helgidoomiñ, edur koma iñ fyrir Fortialldid, utañ Biskupiñ, sem aadur er sagt. So var og øllu Mañlegu Kyni byrgdur saa Himneski Helgidoomur DRottiñs, edur eilijft Lijf, sokum vorra bloodugra

Synda

Synda og fordæmanlegs Saurugleika, vegna hvørs Logmaalid lijsti yfir oss Bölvan, hvørt Bölvunar Fortialld, aasamt med vorum Syndum, er þad forskulld-ad høfdu, ad sundur-brast og rifnadi, und-dir eins og JEsus lagdi fraa sier Lijfid; þvi hañ opnadi oss, fyrir siñ dijrmætañ Dauda, beinañ Veg til eilijfrar Dijrd-ar, og burt-took þañ Saattmaalañ Log-maalsins, sem oss þreingdi og þvijngadi, eñ uppreisti aftur eilijfañ Myskunnar Saattmaala; Jer. 31. jaa, þar sem vier, Heidingia Börniñ, þecktum ecki Gud, og vissum eckert oss til Saalubiaalpar, þaa braut JEsus þañ Veggiñ Pecking-arleysisins og Blindleikans, forlijkandi, ecki einasta Gydinga, helldur og einig oss, vid Gud i einum Lijkama fyrir Kross-iñ, og deyddi so Ovinskapiñ fyrir sialfañ sig. Eph. 2. So vier høfum nu Diørf-ung iñ ad gaanga i hid heilaga fyrir Bl-odid JEsu, þvi hañ vijgdi oss nijañ og lifandi Veg, fyrir Fortialld sijns Holldsis; jaa, vier høfum nu fullt Frelsi ad gaan-ga hier i Christniñar Helgi-doom, hiñ andlegu Jerusalem og Samkundu þeck-

ra Frumgietnu, hvar oss bodast Rad Guds og Fyrirgiefning Syndaña, med añari allshaattadri Blessan, er burtrijma maa alla Sorg og Angist fraa þeim ollum, er i søñum Guds Otta stunda ad vanda þad andlega Hyrdirs og Biskups Embætti yfir Saalu siñi, er JEsus sierhvorium vorra tiltreiad hefur og til þess vijgt. 1. Pet. 2. So siaaum vier þaa hier i Voniñi, Trwñi og Bæñiñi, upp til vors Lausnara JEsu Christi, edur iñi þad allra heilagasta, eñ þo fyrir Speigil og i Raadgaatu, allt þar til fullilega burttekst Skijla vors forblindada Skilnings, og sw breñandi Gyrnd Saalarñar, eftir þvi ad siaa JEsum Aügliti til Auglitis, uppfillist, i og med sundur-rifnan vors Lijkama Fortialldsm nær Saalañ flutt verdur i Abrahams Skaut, eftir afstadna þessa Heims Hörmung.

Añad Stoormerked, er skiede i JEsu Andlaate, var hiñ mikle Skiaalfte Jardareñar. Þo ad nu þesse Jardskiaalfte meige reiknast ad hafa vered, so sem nockurskonar Ofbod og saar Harmur Jardareñar, yfer slikna Kvolum og saarum

Dauda

Dauda sijns Skapara, þa hefur hun eiñ-
ig vered eiñ lioos Vottur, til hins striaan-
ga Bardaga, er Frelsaren̄ hafde vid Diøf-
ulen̄, hvørs Haus (þad er hañs Magt og
Krapta) hañ sundur molade; Vid Daud-
añ, hvørn hañ deydde; Vid Syndena,
hvøria hañ afmaade; Vid Helvijte, hvørt
hañ nidur braut, og leysti i þessu Strijde
oss Faungana, af þeirre Grisiuñe, hvar
eckert Vatn var iñe. Zach. 9. Nu maa
þad stoor Undur kalla, ad saa þrongfære
Lijkame Jardareñar kuñe ecke kirru fyrer
ad hallda, hvøria D Rotten̄ Grundvallad
hafde aa siñe Stadfestu, so ad hun blijfur
um̄ (siñ) Alldur og Æfe. Ps. 104. Eñ
saa miñe Heimur, edur Mañeskiañ, hefur
eitt þvilijkt Gude fraahverft og Ohlijdugt
Hiarta, sem fraaleitt er þessu harmandi
Haattalage siñar Moodur, og skielfur
hvørke nie hriggest vid Pijnu sijns D Rott
eñs og Skapara, þar þo Madureñ var Or-
sok, med sijnum Illsku-Verkum, til alls
þess Kvalrædes, er JEsus lijdä sieck. Sod-
dañ eina þurra Jord, trodna, grijtta og
Þyrnum varna (hvøria ad vantar riett-
skickadañ Yrunar-Vokva og Umvendun

ar Mijkende) jꜳ, þa Jord, sem liggur og vill ecke vidvikna, mꜳ JEsus (æ þvi verr!) fiña eñ þa vor ꜳ medal, hvør ed ber margfalldañ Avøxt Rꜳnglærsins. Vite þó hvør eiñ, ꜳ D Rotteñ stær þvilijkt.

Gud Eilijfur mijke Haxdwd vors Hiarta, fyrer dijrmætañ Dreira sijns Sonar JEsu Christi! Gud uñe oss Yferbootar! Gud Lagfære oss! Ad ecke verdum vier sw Jord, sem Bølvaneñe er nꜳlæg, og ad Eydustu verdur upp brend, og tilbwe sialfur vor Hiørtu, so þau mættu verda sw Jord, sem hønum þægelegañ Avøxt fære, af þeim Sij-streimande Nꜳdar-Fosse, er hañ i stoorre Poleñmæde og Bidlund yfer oss Andlega og Lijkamlega falla lætur, Dag epter Dag, Stund epter Stund!

Þridia Stoormerked, er vard vid JEsu Dauda, var þad, ad Biørgeñ sundurklofnudu, hvør ecke villdu helldur epter verda med siñ Harm; Þau voru og eru Vøkvalaus af Nꜳtturuñe, og kuñu þvi ecke ad grꜳta, samt klofnudu þau og sundurbrustu, þau hroopudu JEsum Saklausañ vera, um hvørt hañs Sakleyse adrer þøgdu: Þau voru kløckvare Gydingaña hardhnøckudu Siñe, hvørier ad ecke villdu sinna sier. Eñ hvad virdest þier, Christeñ Madur! Er ecke þad Hiarta Steineñum hardara, er bæde mꜳ heyra og heyrer eirneñ margt og mikid talad, um JE-

nans

rcins JEsu Christi saa rustu Kvol og Pijnu, eñ lætur þo slijkar Rædur eckert aa sig viña til Betrunar, helldur geingur epter eigeñ Girndum sijns Giaalijfis og Ogudlegs Fraiñferdes, hvilijker ad marger nu fiñast, hvør sem þar vill Augum til reña? O hvad marga maa DRottenn þaa nu siaa og fiña, sem eru hardwduger, hvørra Hnacke ad er eirn Jaarn-Ædur og Eñed af Kopar! sem DRotteñ þar yfer klagar hiaa Esajam, Cap. 48. Hvørier Amiñingum Guds Orda eckert sæta, eckert hañs Bendingum, og eckert Teiknum og Fyrerburdum. Demanteñ er saa hardaste Steirn, þo er sagt hañ bleittur verde i Hafurs-Blode: eñ hvad maa þessum Stein-Hiørtum til Mijkingar verda, ef þau laata ei Dreyra-Flooded JEsu aa sig viña? Gud stioorne mijnu Giede og Hiarta! Eg ber þar ecke Skyn aa, hvort soddañ Js-kølld Hiørtu, hafa nockra Gyrnd edur Epterlaangan til ad njoota JEsu Christi Saklausa Dauda og Pijnu, so ad þeir Hlutdeilld ødlest med þeim, sem helgader eru fyrer rietta Trw aa hañ. Þu Syndugur Madur! Giæt þijn, fyrer

Gud

Guds og piñar Velferdar Saker, laat af Illu, graat beisklega pijnar Misgiorder; so fær þu noog Rwm i Biarg-Skorunn Blessadra JEsu Blood-Unda. Gud veite ockur þar til sijna Naad fyrer hañs saaru Kvøl: Amen.

Floorda Jard-Teikned er hier framkom vid Christi Dauda, var, ad Grafer Frañl deña lukust upp. Þetta giørde saa Guddoomleige Kraptur, er filgde Lausnarans Dauda, med hvørium hañ deydde Daudañ, svipte hañ þvi Afle, er hañ aadur hafde yfer Syndugu Mañkyne, og braut hañs Brodd, edur Syndena, i þvi hañ giørde Frideñ fyrer Blooded aa sijnum Krosse, hvørs Bloods-Kraptur, ad verkade aa Himnum og nidre aa Jørduñe. Col. 1. Framar stendur hier, ad marger Lijkamer Heilagra hafe rised upp, þeir ed svaafu, og geinged epter Christi Upprisu ur Grøfunum, eñ firre ecke; Þvi Christur er Frumburdur þeirra sem sofnader eru, seiger Paulus, og aptur seiger hañ, ad JEsus sie Upphafed, og hiñ Frumgietne fraa Daudum, uppaa þad hañ hefde i øllum Hlutum Høfdingia-Dæmed. Col. 1.

So

So kallast hañ og Frumgletningur Framlideña, Apoc. 1. þvi hañ er saa sem af eigeñ Krapte er uppriseñ, og hefur med siñe Upprisu afrekad oss eilijft Riettlæte og Saaluhiaalp: Og mun epter aa, þegar þetta hid Forgeingelega skal skrijdast O-forgeingelegleikanum, uppreisa oss til ad lifa eilijflega. Nu so sem ad vier deyum Daglega, og bindum oss Lijk-Bøndum Syndareñar, so byriar oss og Daglega ad upprijsa fyrer saña Ydran og Betran Lijf-ernesins; þad heiter hin fyrri Upprisa, og eru þeir aller sæler, er Hlutdeilld hafa i heñe, og nema hun gaange undañ hiñe sijd-are, er skie skal aa Dooms-Deige, Ap. 20. þa verdur hun (su sijdare meina eg) ei til añars eñ eilijfs Kvalrædes Saalar og Lij-kama. Boknum þvi upp i Tijma, og mun þa JEsus oss upplijsa, og siidañ iñ-leida i hina heilogu Borg, þa himneska Jerusalem, hvar vier siaa munum, med Ouumrædilegri Gledi, vora undañfarna Astvini og alla Utvallda miñ Eilijfd.

Fiñta Daasemdiñ, er framkvæmdist vid JEsu Andlaat, var Afturhvarf Hu-ndrads-Høfdinglans, er prijsadi Gud og vitn-

vitnadi JEsum riettlætaň verid hafa og Guds Son. So urdu og þeir, sem med hønum voru, Ottasleignir, og vitnudu hid sama, bordu sier á Briooſt, ásamt Foolkinu, og snerui burtu. Þetta var, Guds Barn! ecki hid minsta Dáásemdar-Verk, ad þad Foolkid, sem áidur hafdi hroopad yfer Christo Kvol og Krossfestingu, faň nu til stoorrar Samvitsku Hriggdar, hvor hier hid allra fyrsta vaknadi og vidurkieňdist. Af hvorra Dæmi þu læra skallt, Christiň Madur! ad fordast ofhastarlegaň Urskurd og Afellis-Doom yfir nockrum, ef þu villt Stroffun miňslija; þvi hvor siň Muň vardveitir, haň vardveitir sitt Lijf, eň hvor haň er framhleipiň med sijnum Muňi, haň kiémur i Ognan, seiger hiň vijsi Salomon. Nu þo þu syndgad hafir, þaa vertu samt ecki orvæntiň, snu helldur aftur til þess, fraa hvorium þu fiellst, ber þier á Briooſt med Tollheimtu-Maňinum og bid þier Myskunar af Hiarta, so fiňur þu Naad; þvi þad er dijrmætt verdugt Ord, og vissuleg Saňindi, ad JEsus er komiň i þeňaň Heim syndug Meň Saaluhoolpna

hoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Saa Kra-
afturiñ, sem hier daasamlega utgieck af
JEsu, i hañs Dauda, so hañ særi heidn-
um Mañi til Sañleiksins Vidurkieñin-
gar, hañ mun ei miñi vera, þar hañ nu
rijkir i Haatygniñi, til ad hreinsa vorar
Samvitskur, af daudlegum Verkum,
lijfga þær og endurnæra.

O sætasti JEsu! snu þu oss fraa öllum illum At-
höfnum til þijn, þaa er oss sawid; frelsa þu oss, sem
ert Veguriñ, Sañleikuriñ og Lijfid, og leid ur þessum O-
lögnudi, i eilijfañ Fögnud, fyrir þiñ bitra Dauda. Am.

# XLVII. Cap.

## Um Christi Kuñingia.

### TEXTINN.

EN allir hañs Kuñingiar stoo-
du laangt fraa. Þar voru og
margar Konur, sem saau þar
uppaa aaleingdar, medal hvør-
ad var Maria Magdalena, og
Maria hins litla Jacobs, og Joses Moo-
der og Salóme, Moodir þeirra Zebedei
Sona, þær honum hofdu eftirfilgt, þaa
hañ var i Galilæa, og þioonad honum,
og margar adrar, hvoriar med honum
hofdu uppfarid til Jerusalem ur Gali-
læa,

læa, og horfðu a þetta.

UTLEGGINGIN.

Hvad vallt og hvikullt ad allt þad ſie, ſem er, edur fiñaſt kañ, i þeſſum auma Heime, þad kleñer ſiaalf Reynſlañ, hvor ad er Ol;gnuſt, aaſamt allmørg Epterdæme, og, a medal añars, þetta ſem nu var framſett i þeſſum Heilaga Texta, ſo ad eirn Hlutur og añar, kañ fyrer Kvølld-Tijmañ ødruviſe ad verda, eñ hañ var um̃ Morguneñ. Syr. 18. Hvorium er þad dult, hvorſu ſkioot Um̃breiting ad verdur a mørgum Hlutum? J Dag er eirn Heilbrigdur, og lætur miked yfer ſier, eñ a Morgun er hañ kañ ſkie daudur; Elſkañ koolnar, Dygdeñ dofnar, Mañ-Koſterner þverra, J Dag er Madur eins Vinur, hvørs Ovinur hañ er kañ ſkie a Morgun ordeñ, einkañlega ef nockud blæs a moote, og einhvørs þarf vid; So þad ſañaſt opt ſem David ſeiger: Eg em framande ordeñ mijnum Brædrum, og Okiendur Børnum miñar Moodur. Pſ. 69. Nu þo eirn hafi ſoddañ Luckn, ad hvørke hafne honum Frændur, Fie nie Viner, alla hañs Daga, þa ſkiedur þad a Dauda-

Dauda=Stundune, þegar allt þetta yfer=gief ur han, og hvorke Stadurenn, edur neitt þad hans var, þecker han framar meir. Þad skiedur og opt, ad þo þeir Viner og Naungar sineft, er bæde vilia vel, og leitast eirnen vid ad hiaalpa þeim af fremsta Megne, er þeir elska; þa gieta þeir þo all=oft ecke Boot uned aa þeirra Meine, og allra sijst vared þa fyrer Daudanum. J tilfallande Soottum og Sivkdoomum, edur hvorlu ødru slijku, kuna þeir ad hlyka einum, og naalega breida sig yfer han, Jaa, graata og veina yfer hans Eymd og Astrijdu, þad lender þo þar opt vid; Hin fær samt ecke sitt Bøl bætt. Lijklegt, ad su Sunamitiska Kvina biargad hefde sijnu Barne, er doo af strijdum Høfud=Verk i henar Fadme, hefde hun þess orkande vered. 2. Reg. 4. Allt villde David tilvina, ad Absalon, hans Sonur, hefde frelsast maatt fraa Daudanum, þvi han Oskade sier, med Harme og saarum Ecka, ad han hefde maatt deya fyrer han: 2. Sam. 18. Samt maatte þad Trie, med fleirum ødrum, liggia þar, hvort þad var falled; Þvi seiger og sialfur David rietke

sega: Par kañ þo eingeñ Broodir nockurn ad leysa nie vid Gud ad forlijka, þvi þad kostar allt formiked þeirra Sæler ad Endurleysa, so hañ hlijtur þad kirrt ad læta blijfa eiliflega. Ps. 49. Siaa þvi vel til, Christeñ Madur! ad ecke elsker þu ofmiog þessa hina forgeingelegu Verølldu, edur nockud þad heñar er; vakta þig, ad et viñer þu þad fyrer heñar Barna Vinskap, ad fallast i Sid þeirra ills Framferdes; Samsiñ þu þeim ecke, vilier þu añars hiedañ i Fride fara, þvi soddañ Heims sins Vinskapur er Fiandskapur i giegn Gude; hlusta til þess er Salomon seiger: Miñ Son! Pa vonder Skaalkar locka þig, filg þu þeim ecke. Prov. 1. Stundadu, Guds Barn! af øllum Kroptum, ad hallda Falslausañ Kiærleika og Vinskap vid þiñ Endurlasnara JEsum. Nu er þad vist, ad þu, epter siaalfs hañs Ordum, ert hañs Vinur, ef þu gløer þad hañ bijdur, og leggur þar alla Alwød aa, og reider þig med hreinre Trw uppaa hañ i Lijfe og Dauda, eñ ecke uppaa Meñena, þvi þeirra Hiaalp er ad aungvu nijt. Ps. 60. Hañ er saa einaste, sem þier bæde kañ og vill hiaalpa

hiaalpa i Hørmunguñe, þegar oll Mañs=
leg Hiaalp er wte, ef þu ert hañs riettur
Saudur og heyrer hañs Rødd; þvi so tal=
ar hañ hier uñ: Miner Sauder heyra
mijna Rødd, eg þecke þaa, og þeir filgia
mier epter, og eg gief þeim eilijft Lijf, eg
alldrei skulu þeir fyrerfaraft, og eingeñ
skal þaa slijta wr miñe Hende. Joh. 10.
Halltu þier, mijn Saal! vid þetta LofOrd
þijns Lausnara, hvorneñ sem ødru lijdur,
og vit, ad þeim, hvorier þeñañ trwfasta
Vineñ elska, þiena aller Hluter til hins
Besta. 1. Tim. 4. v. 8.

J Añañ Stad er þad audsiaa anlegt af
Textanum, hvorra Kosta þeir hafe sier ad
vænta i þessum vonda Heime, sem JEsum
elska. Þegar JEsus andadest hier aa
Krossenum, þa syrgdu þeir hañ eirna mest
(ad Vonum), sem hañ mest elskudu. Laat
þetta ecke undra þig, Guds Barn! þvi so
hefur þad geinged til fraa Upphafe, þeir
hafa ecke orded Varhluta af Hørmunga=
Skwrunum, sem Gude hafa kiærafter
vered; Vorneñ, sem hañ elskad hefur,
þau hefur hañ ei sijst agad og tiptad; Þvi
seiger Lausnareñ til siña Lærefveina: Þier

munud Siita og Grata, eñ Heimureñ mun fagna; þier munud hriggver verda, eñ ydar Hriggd skal snwast i Fognud. Joh. 16. Siaa hier, Guds Barn! þetta er Hugguneñ, til hvorra þu ætijd i þijnum Krosse skyllder Augunum reña: Ef þu ætter ecke betra Lijf fyrer Hende eñ þetta er, jaa, ef þu vonader alleinasta aa Christum i þessu Lijfe, þa værer þu vesælastur allra Maña, seiger Paulus: 1. Cor. 15. Þo bæde Hollde og Bloode þijnu, samt odrum wti-fraa, virdest ad þu siert þijnum JEsu fiarlægur sekum þijns Mootlæt-es hier i Heime, og hañ þier, ef þu med hiergreindum Ast-Vinum hañs, hefur alldrei Trwar-Augu þijn af honum, jafnvel þo dæpur sieu edur vera meige af Hörmungunum, edur ymsu Austreymi þessar-ar Veralldar; þa hefur hañ þo alldrei sijn Hiaalpar-Augu af þier, hañ sier þig, og þu hañ, i þessare Fiarlægd. Gack þu, Guds Barn! med Hiartans og Hugarens Footum ad Krosse þijns Endurlausnara; Hvad þwng og margfolld sem þijn Neyd og Hörmung er, þa fær þu þar samt yfer-fliootañlega Huggun og Lækning, vid sier

hvorlu

hvørlu Meine og Sorgar=Saare; Skunda þu þvi paangad, þu Christeñ Saala! og set þier vandlega fyrer Stooner Soneñ Guds Eingieteñ JEsum Christum, sem fyrer þig og þijnar Synder pijndur og dæteñ er: Horfum vid med Trwar=Augum ockar uppaa hañs al=bloodug og Blessud Pijslar=Saar; so er eg þess fullviss, ad þijn og mijn Sorg og Angist verdur linare, vere hun so stoor og mikel sem hun kañ ad vera, hun þverrar samt þar vid ecke ad sijdur: Seig mier! hvør Sorg kañ ad verda meire og Hættusamare, helldur eñ su, þegar Mañsins eiged Hiarta vill hañ, drijgdra Synda vegna, fordæma, hvør kañ þañ hiñ sama ad afsaka? Hvør kañ hañ ad hugga? Hvar fær hañ Boot vid þvilijku saart svijdande Saare? Andsvar: J þeim heitu Blood=Undum Græddarans JEsu Christi hefur saa same alleina Afsøkun, Huggun og naakvæma Grædslu, ef hañ, ad eins med Trwñe horfer aa þau og þreifar aa þeim, eñ hvørge Añarstadar; Jaa, eckert Skiool, eckert Hæle hefur hañ añad eñ þetta; Þaangad hefur hañ þa Lids ad leita, sem Lijkneñ noog er til. Hvør



sem

sem af Israels Foolke Fordum Daga særd ur og biten var, af þeim Eytrudu og brennande Hogg-Ormum; ef hañ leit uppa Eyr-Ormeñ, sem Moyses, epter Bijfalningu DRottens, uppsett hafde, þa hiellt hañ Lijfenu. I sama Maata, ef þu, alsærde Syndare! reñer ydrande Trwar-Augum uppa JEsum Christum hiñ Krossfesta, hvørs Fyrermyndan Eyr-Ormuren var, þa er þar eingeñ su Synd til, ad þier meige granda, edur svipta kuñe þvi Andlega og eilijfa Lijfe; Gyrnest þu þar Vitne til, þa fær þu ecke añad vissara og lioosara, eñ þad, er sialfur Sañleikureñ JEsus Christur (er ecke kañ ad liwgá) hier um giefur hiaa Johañem, seigiande: Lijka sem Moyses upphoof Hogg-Ormeñ i Eydemørkeñe, lijka so byriar Mañsins Syne upp ad hefiast, so ad aller þeir, sem a hañ trwa, fortapest ecke, helldur hafe eilijft Lijf. Joh. 3.

Eg sie þig ad sonu, miñ sæti Jesu! i þessari Armædufullri Utleggd miñi, eñ þo aaleingdar, og so sem i giegnum Speigil i einu myrkvu Ordi; fyrir þessari Sioon iñi glepia oft mijnar saarligar Syndir; Voniñ er veik, Trwiñ ostyrk, Poliñmædiñ litil, og margt vill a mov ti blaasa, sem þier er ei okuñugt, kom þu mier til Adstodar, og vertu miñ Styrkur, i þessum hætta Bardaga, sem

sem nu ecki siist siinist ad vera nærsta Mañskiædur! Þegar eg skoda og hugleidi þau Sárin, sem a mig aumañ þottid hafa, og detta Daglega, þá hrædist eg og skielfist, og hyka fram a miñ Overdugleika. O hvad sárt sundur-saxast þá mitt Hiarta af sviidandi Harma-Kleinum! Eñ þegar þiñ heilagi Andi, i Ordinu, siinir mier iñ i Biargskorur þiña blodugra Sára, þa endurliisna eg og fagna grátandi, þá sleppi eg mijnum Overdugleika, eñ fagna yfir mijns JEsu Verdugleika, so sem Gud giefur mier þa framast Ráad til. O miñ HErra JEsu! heyr þu mig aumañ. Eg bid af heitu Hiarta: Láttu hvørki mijnar vondar Athafnir, nie Sorgar-Myrkur þessarra miña Oyndisfullu Lijfstunda (hvørra Leingd ad stendur i þiñi Hendi), já aungvañ Hlut, giøra mig þier so sarlægañ, ad eg siái ecki alltijd þijn heilagu Sár og Undir! Láttu þau skiært lioma fyrir mijnum, og allra þiña sorgandi Barna Augum, æ og alla Tijma! Veit mier eg sie þiñ Vin og eintægur Elskari, og af þier þecktur verdi fyrir hiñ sama, hvad sem uñ Veralldariñar Vinskap lijdur, já, þo bædi hafni mier heñar skamviña Lán og Lijkamans Heilsa, þa hefi eg nooga Hiálp, þar ed eg á þig: Þvi hiá þier er noog Skiool og Hæli: Fel eg þvi mig og mijna, og øll þijn Børn, med Sálum og Lijkømum i þijna Fødurlega Vernd og Umsioon Tijmañlega og Eilijflega. Amen.

# XLVIII. Cap.

## Um Lausnarans Siidu-Sár.

### TEXTINN.



NN Gydingarnir, med þvi þad var Adfangadaguriñ, so ad Lijkamirnir væri ecki á Krossinum um Sabbats Daginn (þvi sá sami Sabbats Dagur var

